

*Og ánauð vér hötum, því andinn er frjáls,*
*hvort orðum hann verst eða sverðunum stáls.*

*Stgr. Thorsteinsson*

#

# LJÓÐMÆLI

EPTIR

STEINGRÍM THORSTEINSSON.

ÖNNUR ÚTGÁFA, AUKIN.





KAUPMANNAHÖFN.

Á KOSTNAÐ BÓKAVERZLUNAR GYLDENDALS.

PRENTAÐ HJÁ J. JÖRGENSEN & CO. (M. A. HANNOVER).

1893.

# RÖÐ KVÆÐANNA.

Bls.

## Ísland.

Eykona hvít við dimmblátt djúp,
Er kappa vakir hrygg við hauga,
Þungbúnu hrýtur hagl af auga
Niður á fagran fannahjúp;
Þú grætur þá, sem látnir lifa,
Þar ljósin Valaskjálfar bifa,
Syrgjandi ber þú höfuð hátt
Heiðskíra viður norðurátt.

Gengin er tíð, þá lopt og lög
Valkyrjur riðu í leiptra ljóma,
Við sverða skin og skjaldar hljóma
Og kystu harðan Hildar mög,
Þegar að fleyin sköruð skjöldum
Skriðu að þínum ströndum köldum,
Þá konungborið kappa lið
Kaus sèr að deyja brjóst þitt við.

Þá Miðgarðs vörður mundi ljá
Ástvinum Mímis Mjölni þungan,
Þá hærra lögðir lèt enn tungan,
Athöfn var mörg, en orðin fá;
Þá frelsi og drengskap dugði' að þjóna,
En deyða víl og bleyði fjóna,
Þá frelsismorguns myndin hrein
Í mentaspegli fögrum skein.

Þenna vèr mætan eigum arf,
Minningu fræga, fegurst dæmi,
Svo niðjum hraustra í huga kæmi,
Að örva hug og efla starf,
Svo aptur mætti' úr deyfð og dauða
Dafnandi rísa landið snauða
Og verða ei meir í myrkra döf
Minningar sinnar eigin gröf.

Kenn oss að feta í feðra spor
Á ferli nýjum, móðir aldna,
Að lifni storðin fönnum faldna
Og nöprum fylgi vetri vor;
Frá harmi snúin horfins blóma
Heið þig í nýja tímans ljóma,
Og undir hjálmi ægis blá
Óskmögum sýndu hýra brá.

---

## Sú var tíðin fyrr, þá frelsið reisti.

Sú var tíðin fyrr, þá frelsið reisti
Fróns á tindum snjóvgan veldisstól,
Trygð í dölum bjó með hetju-hreysti,
Hreysti' og minning þáðu sama skjól.
Ísafold, þá frægðar himinboga
Fagurhvelfdum yfir þig var lypt,
Þeim er skín í norðurljósa loga
Leipturfáður Sögu rúnaskript.

Sú var tíð, er ánauð hófst hin arga,
Ögra tóku svartar dísir þrátt,
Sú var tíð, er sneypu fyrir marga
Snjór á jöklum hefði roðna mátt.
Ísafold, er sól þín huldist húmi,
Háðung mæddi, grætti neyðin sár,
Hreystiþjóð varð krept í karar rúmi,
Kalda hlekki vættu geðlaus tár.

Margar aldir möru varstu troðin,
Myrkra hrollur skóp þèr napran blund,
Höfgum stírum falst þèr röðulroðinn,
Rís til verka, nú er árdags stund;
Fagna degi, fjöll þín morgunn krýnir,
Fælir uglur raddskært hanagal,
Gull í mund þèr gyðja dagsins sýnir,
Gull, sem vinst ei, nú ef sofa skal.

Ó, að feðra fjör í hjörtum brynni,
Fyndi þjóð vor nýjan sigurhug,
Vonin helgi vorrar fóstru minni,
Von, sem styðst við krapta, þrek og dug;
Ei er nóg að láta lúður drynja,
Liggi' í slíðrum ryðgað andans stál;
Hvílumst ei, þá hanafjaðrir dynja,
Heyrum, skiljum tímans Bjarkamál.

---

## Vorhvöt.

Þú, vorgyðja! svífur úr suðrænum geim
Á sólgeisla vængjunum breiðum
Til Íslands fannþöktu fjallanna heim
Að fossum og dimmbláum heiðum;
Eg sè hvar í skýjum þú brunar á braut,
Ó, ber þú mitt ljóð heim í ættjarðar skaut!

Og kveð þar fyr gumum í gróandi dal
Við gullskæra hörpunnar strengi
Um þjóðvorið fagra, sem frelsi vort skal
Með fögnuði leiða' yfir vengi;
Þá vaxa meiðir þar vísir er nú, —
Svo verður, ef þjóðin er sjálfri sèr trú.

---

Nú vakna þú, Ísland! við vonsælan glaum
Af vorbylgjum tímans á djúpi,
Byrg eyrun ei lengur fyr aldanna straum,
En aflèttu deyfðanna hjúpi,

Og drag þér af augum hvert dapurlegt ský,
Sem dylur þér heiminn og fremdarljós ný.

Og enninu snjóvgu til ljóshæða lypt
Og líttu sem örninn mót sólu,
Sjá. heiðríkt er austrið og húmskýjum svipt,
Þau hurfu fyr morgunsins gjólu;
Hver óskar nú lengur á blindninnar bás
Að bolast af þrælkun frá tímanna rás?

Vér grátum hið liðna, en grátum sem stytzt,
Svo grætum ei komandi tíma,
Ei sturlun oss gefur þá stund, sem er mist,
En störfum fyrst liðin er gríma,
Því feðranna dáðleysi' er barnanna böl
Og bölvun í nútíð er framtíðar kvöl.

En bót er oss heitið, ef bilar ei dáð,
Af beisku hið sæta má spretta,
Af skaða vér nemum hin nýtustu ráð,
Oss neyðin skal kenna það rétta,
Og jafnvel úr hlekkjunum sjóða má sverð
Í sannleiks og frelsisins þjónustu-gerð.

Og hrein sé vor ást eins og himinn þinn blár,
Sem heiðir um jöklanna tinda,
Vér heitum þann níðing, sem hæðir þín tár
Og hendur á móður vill binda,
Og ánauð vér hötum, því andinn er frjáls,
Hvort orðum hann verst eða sverðunum stáls.

Svo frjáls vertu, móðir, sem vindur á vog,
Sem vötn þín með straumunum þungu,
Sem himins þíns bragandi norðljósa log
Og ljóðin á skáldanna tungu,
Og aldrei, aldrei bindi þig bönd,
Nema bláfjötur Ægis um klettótta strönd.

---

## Minnisvísur um Ísland.

I.

Nú, er sumarsól á lund
Sjálands stranda lýsir,
Ægi beltuð Ísagrund,
Okkur til þín fýsir.
Heitt þig elskum allir vèr,
Eyjan köld í víði,
Ei fær töfrað oss frá þèr
Útlend sumarprýði.

Hvergi fegri síðla sèst
Sól nè rís um morgna,
Enn þínum tindra' á tindum sèst,
Tignarlandið forna!
Hvítir jöklar, heiðar blár
Heilladal um kringja,
Grænum deila eyrum ár,
Álptir á tjörnum syngja.

Sæll er hver, sem ættjörð á
Aptur stígur fæti,
Mun ei yndi aptur sjá
Aldin feðra sæti?
Í grænni stendur brekku bær,
Bendir ferðamanni.
Beina gesti bóndinn fær,
Blíður fagnar svanni.

Íslands skál! í ungra rann
Enginn sitji hljóður,
Beztan hróður þekkjum þann
Þig að nefna móður.
Meðan leiptrar lopts á braut
Leiðarstjarnan skæra,
Farsæld hver þèr falli' í skaut,
Fósturjörðin kæra!

II.

Hvert leiptrar, Ísland, ljóma glys
Ljóshvítum jöklum á?
Er það gullaldar aptanblys?
Er það þíns morguns brá?
Hvorttveggja hyggst eg sjá
Sem þá um sumar kvöld við morgun mynnist.

Nú sýngi vonljóð vötnin blá,
Sem velta í skógarsal,
Nú brosi hlíðar, björgin há
Í breiðum fjalladal,

Og glaður glymja skal
Hvítfreyddur foss í háu hamragili.

Þótt vèr ei mæki mundum nú.
Vèr megum berjast enn
Með orði fyrir frelsis trú
Og frjálsir vera menn,
Það ýtar sýni senn,
Að frelsi ljómar fáum jafnt sem mörgum.

Ei fjöldinn manna, virki vönd
Vors eru stoðin lands,
En eins er betri hlekklaus hönd
Og hjarta ens frjálsa manns
Enn þúsund þræla fans,
Sem ánauð keyrðir fyrir vonzku vega.

Svo leggjum ást, sem aldrei deyr,
Í okkar móður skaut.
Og kreptan lengi rèttum reyr,
Og rekjum sannleiks braut;
Við þunga stríðum þraut
Með hreinum hug, en hötum fals og lygi.

Oss þá hin græna geymir fold
Og gleymt er þetta ljóð,
Þá fegri mun vor fósturmold
Og frjálsari vor þjóð;
Á forna feðra slóð
Hinn langi dagur lýðnum fagurt skíni.

Þú, land, þar sól vèr litum fyrst
Og líta viljum hinzt,
Ei týnd er frægð nè tign þín mist, —
Í tölu þjóða minst,
Í hjarta ertu inst
Vor allra þar til önd af vörum líður.

III.

Útlendum út úr sveim
Optlega mænir heim
Vor sálar sjón,
Þá rifnar þokan brátt,
Þig sjáum lyptast hátt
Við himinhvolfið blátt,
Vort feðrafrón!

Blasir und björgum sveit,
Barnið þar sól fyrst leit
Faðm móður frá;
Ekkert er breytt í bygð,
Blika þar vötnin skygð
Ásthrein og tær af trygð
Und tindum há.

Syngur enn lækur sá,
Er söng í grænni lág
Vor vögguljóð;

Enn breiða' út arma fjöll
Altrygg und kaldri mjöll,
Fegin oss faðma öll
Á feðra slóð.

Enn gyllir sama sól
Saklausrar æsku ból,
Dimm fjöll og dal,
Ástar þar bergmál býr,
Beljandi fossinn gnýr,
Landvættur hlær við hýr
Í hamra sal.

Allir í anda vèr
Erum á skauti þèr,
Ljósheiða láð;
Sí og æ sè þín mynd
Samrunnin hjartalind;
Hefjist á hæsta tind
Þín heill og dáð.

## IV.

Þú, Snæfold, er gnæfir í sólheiðis blæ
Und svellgljáum jökulhjálms faldi,
Sem Valkyrja björt, er um svalkaldan sæ
Þú svipast með hátignar valdi.
Vor fóstra kærust, í fjarlendri bygð
Þig faðmar vor hugur með ástar trygð.

Þó frá þér við berumst á forlaga straum,
Þú fylgir samt huganum blíða;
Þú varar oss tíðum í glepjandi glaum,
Þá gleymskan vill yfir oss skríða;
Og þrátt fyrir heimslíf og hávaða fip
Við heyrum þinn róm og við lítum þinn svip.

Við heyrum þín bergmál og háfossa nið
Og hafgang, er beljar á söndum,
Og munarhljóm svana, þá mæra þeir klið
Við miðnætursól yfir ströndum.
Í sveimi skýja við sjónhrings brá
Oss seilast móti þín himinfjöll blá.

Þitt minni, sem göfgað í valkviðum var,
Það vígt hefir *Óðinn* og *Saga*,
En hitt, sem að elskan í hróðri fram bar,
Það helgar nú *Iðunn* með *Braga*,
Með epli skærust og skírlegt full,
Það skín sem trygðar og elskunnar gull.

---

## Á heims enda köldum.

Á heims enda köldum vor ey gnæfir ein
Í yzta norðurs hafsauga bláu,
Þar fóstraðist þjóð vor við elds og ísa mein
Og áhrif af náttúrunni háu;

Og hèr hefir glansað vor gulltíðar öld,
Og geymt hèr hefir *Saga* sín fornrúna spjöld,
Drykkjað þjóð með þrótt
Á þrauta dimmri nótt;
Ljúft oss land vort er,
Því lífsrót vor er hèr;
Vor köllun, vor dáð
Knýtt er fast við þetta láð
Svo lengi vèr lífsins anda drögum.

---

## Þúsund ára sólhvörf.

(1874).

Sólin ei hverfur nè sígur í kaf,
Situr á norðurhafs straumi
Vakir í geislum hver vættur, er svaf,
Vaggast í ljósálfa glaumi;
Sveimar með himninum sólglitað haf
Sem í draumi.

Miðnættið glóir með gullskýja bönd,
Glymur af himneskum söngum,
Tveir kveða svanir við rósfagra rönd
Raddhljóðum sætum og löngum,
Hljómar um æginn, ómar við strönd
Út með dröngum.

Svanirnir líðu frá ljósanna geim,
Ljóðandi morgunsins bíða,

Annar um minning frá hetjulífs heim.
Hinn um vonina blíða;
Hlustum í leiðslu, ljúfan ber hreim
Upp til hlíða.

Dagur brýzt senn inn í draumhimins tjöld,
Draumunum árgeislar hrinda,
Burtu þá svífa við sædjúpin köld
Svanir á bláleiðum vinda;
Ljósguð, þín dagsbrún af annari öld
Skín á tinda.

Þrjóta með sólhvörfum þúshundruð ár,
Þýtur af árdegis gjólu,
Ljósguð! sem mynnist við baldursbrár,
Brosir við titrandi fjólu,
Lypt vorri þjóðsál um þúshundruð ár
Upp mót sólu.

---

## Þjóðhátíðar söngur á Þingvelli.

(1874).

Nú roðar á Þingvallafjöllin fríð
Að fullnuðum þúsund árum;
Þau fagnandi benda þeim frjálsa lýð,
Sem flykkist á hraunkletta bárum;
Til himinskýja nú hljómi vor óður
Frá hjartastað vorrar öldruðu móður.

Þèr, ljóskrýndu hnúkar og leitin blá,
Þú, *Lögberg*, og þingflötin kæra,
Þú, *Ármannsfell*, *Skjaldbreið* og *Almannagjá*
Með iðunnar hvítfossinn skæra,
Og hraun og standberg með helgum vættum,
Sem heyra vorn söng fyrir steina gættum!

Þèr munið fræga frelsisins öld,
Hve fögur var gullaldar stundin,
Þá sól skein á stálklædda feðranna fjöld
Og frjálsbornu, svanhvítu sprundin,
Þá lífið svall alfrjálst með æskunnar blóði
Af ástum, drengskap og hetjumóði.

Við bergmál frá dáinna dýrðarheim
Nú dynjandi strengirnir titra
Í íslenzkum hjörtum og hreyfa með eim
Oss huggleði sæta og bitra;
Vor augu myrkvast af móðgum tárum,
Ó, manna þig, Ísland, og rís með árum.

Sá staðurinn, sem vèr á stöndum, er *vor*,
Hèr streymir andinn hinn forni,
Hèr vængina reynir vort þjóðhuga þor
Á þúsund áranna morgni,
Sem haukur ungur frá hamra strindi
Vill hefja sitt flug yfir jökultindi.

Vèr heitum að efla þinn orðstír og hag —
Vèr elskum svo landið vort kalda,

Sem gaf oss lífsins hinn ljósa dag
Og líkblæjum vorum skal falda,
Það er of gott til hins auma og lága,
Ei of veikt til hins göfga og háa.

Guð styrki hvern frækinn og frjálsan mann,
Sem framför sannasta þekkir,
Sem landslýðinn bætir og berst fyrir hann,
Unz bresta þeir síðustu hlekkir,
Svo náum vèr fornaldar helguðu hrósi
Í himnesku frelsis og sannleiks ljósi.

Nú bergmálið, fjöll, vorrar vonar klið
Með vaxandi fagnaðar gengi,
Og knýið þèr, fossar! við klettanna rið
Á kólguflóðs raddþunga strengi;
Við endur-hljóm vorra hamrasala
Vèr heimtum vort þjóðlíf úr neyðardvala.

---

## Ingólfs minni.

(1874).

Gnoð úr hafi skrautleg skreið,
Skein á jökulfjöllin heið,
*Ingólfur* þá eygði fyrst
Ísland morgungeislum kyst;
Öndvegs stólpum stafni frá
Steypti' hann fram í kaldan sjá,

Hetjan prúð í helgum móð
Horfði lengi og þögul stóð.

Hægt og seint á hulins-braut
Hverful aldan súlum skaut,
Unz hún þær að ending ber
Upp að strönd, er byggjum vèr;
Áshelg teikn frá Arnarhól
Ingólfs vörðu tignarstól
Út við haf, þar auðnan rík
Aldna prýddi Reykjavík.

Tignarmikla manndóms tíð!
Morgunfögur ár og síð,
Þegar Ingólfs-ættar dygð
Yfir fornri lýsti bygð;
Frjálsu, göfgu frægðarmenn!
Fríð er þeirra minning enn,
Sem þá Guðs hin milda mynd
Mána kvaddi af Esju tind.

Þúsundasta sumarsól
Signir Ingólfs höfuðból
Og á víðsýnt varpar haf
Vonarbjörtum geislastaf.
Ingólfs menn í Ingólfs stað,
Allir festum heitið það:
Reisum upp í anda hans
Öndvegs súlur föðurlands.

---

## Eg elska yður, þér Íslands fjöll!

Eg elska yður, þér Íslands fjöll!
Með enni björt í heiðis bláma,
Þér dalir, hlíðar og fossa föll,
Og flúð þar drynur brimið ráma;
Eg elska land með algrænt sumarskart,
Eg elska það með vetrarskrautið bjart,
Hin heiðu kvöld,
Er himintjöld
Af norðurljósa leiptrum braga.

Og þig eg elska, mín eigin þjóð!
Með ættarbragð frá fyrri tíðum,
Sem fóstrar sveina með frjálsum móð
Og fljóðin skær sem blóm í hlíðum;
Eg elska þig á bjartri vonar braut,
Hin beztu gæði hrynji þér í skaut,
Ver hvað þú varst,
Þá vegsemd barst,
Og sönnum frelsis notum náðu!

Eg elska þig, minnar þjóðar mál,
Með þrótt og snild í orða hljómi,
Svo mjúkt sem blómstur og sterkt sem stál,
Er strengja kveður þú með rómi,
Eg elska þig, mitt hjarta' er við þig hnýtt,
Ið hýra vor þér boðar sumar nýtt,
Við bergið kalt
Þú blómgast skalt
Á fornum stöðvum söngs og sögu.

Svo traust við Ísland mig tengja bönd,
Ei trúrri binda son við móður,
Og þó að færi' eg um fegurst lönd
Og fagnað yrði mèr sem bróður,
Mèr yrði gleðin að eins veitt til hálfs,
Á ættjörð minni nýt eg fyrst mín sjálfs,
Þar elska eg flest,
Þar uni eg bezt
Við land og fólk og feðra tungu.

---

## Nýjárskveðja.

Lítið snjóvgan, gulli glæstan, glóa jökulstól,
Morgunroðinn stökkvir stjörnum, stígur nýjárssól,
Yfir vetrarhauðrið hvíta, hrímgan ís og snjá,
Strauma frosna, stirðnað hafið, starir sólin lág.

Heil að sunnan, himindrottning, hækkar geisla braut,
Brosir hún. sem lætur linna langnættisins þraut;
Er í jaka-jötuns dróma jörðin hvílir stirð,
Nýjárskveðju sína sendir sól í morgunkyrð:

Vak þú, smáa þjóð í þungum þrautum vetrargeims,
Geisla þèr frá Guði ber eg, grami vonarheims,
Árs á morgni læt eg lostið ljóssins fyrsta staf
Í þitt hugardjúp, að deyfðar dimman lèttist af.

Inn á við í hug og hjarta hverfðu þinni sýn,
Lær að þekkja þína bresti, þar til villan dvín;

Lær að þekkja þína krapta, þekkja lær þig sjálf.
Vinna þín án vizku slíkrar verður minni enn hálf.

Upp á við til himins horfðu, hátt er markið sett,
Eptir þekking stefn og stunda, styð svo frelsið rètt,
Annars lánast ei þitt nýja endurreisnar verk,
Fyrir andans framför eina fólksins hönd er sterk.

Fram á við! og frelsis neyttu, fámenn sýndu dáð!
Legg þig fram sem lífsins herra lènti krapta ráð!
Verkahring þó hafir smáan hátt í norðurs rann,
Æðri sè þèr engin köllun enn að fylla hann.

Árið nýtt með ást eg signi, yngsta tímans son,
Ljóss á skýi skær hann stendur, skín úr augum von;
Viður mína hönd á himni hefst hans ganga nú,
Foldarbörnum gæfugengi gefi vegferð sú.

---

## Sjómanna söngur.

Heyrið morgunsöng á sænum,
Sjáið bruna fley
Undan hægum byrjarblænum
Burt frá strönd og ey;
Sólin skreytir skipa raðir,
Skín hver þanin voð,
Sönglјóð kveða sjómenn glaðir
Snjalt á hverri gnoð:

Þú, sem fósturfoldu vefur
Fast að þínum barm,
Svala landið sveipað hefur
Silfurbjörtum arm,
Ægir blái! Snælands sonum
Sýndu frægðar mynd,
Heill þèr, bregztu' ei vorum vonum,
Vertu' oss bjargar lind.

Syngjum glaðir, víli vörpum
Votan út í sæ,
Herðist sjómenn huga snörpum
Hlès við kaldan blæ.
Feður lands á sætrjám svámu
Sína lengstu tíð,
Andinn þeirra, er Ísland námu,
Okkar hvetji lýð.

Gegnum hafnið hranna blárra
Hrópað tíðum var:
Fetið, niðjar! feðra hárra
Feril út á mar.
Æðrulaus með hörðum höndum,
Hrausta sævar þjóð!
Sigldu hart, svo hrikti í böndum
Hafs um reginslóð.

Haf að sækja víðar, víðar
Vantað hefir dug;

Morgunandinn okkar tíðar
Örvar framtaks hug.
Út á haf í Alvalds nafni,
Ei er hugur veill;
Guð í hjarta, Guð í stafni
Gefur fararheill.

Þeirra, sem að kólgu kanna,
Knýja segl og ár,
Margur lágt und haugi hranna
Heimtir sinna tár.
Mörgum hraustum drekti dröfnin,
Djúpið á sinn val,
Gleymdust þeir? nei, Guð veit nöfnin,
Grand ei hræðast skal.

Undan stöfnum græðir gránar,
Gnauða bylgjur hans,
Fríð við sjónhring fannkrýnd blánar
Fjallströnd móðurlands;
Þá er eins og Ísland bendi
Yfir vík og fjörð:
Sjómanns líf í Herrans hendi
Helgast fósturjörð.

---

## Kvæði

fyrir minni Jóns Sigurðssonar.

I.

Kominn norðan um haf, bárum ísköldum af,
Þú frá ættlandi kveðjumál ber;
Nú í öndvegis sess sit þú heill bæði' og hress,
Allrar hamingju biðjum við þèr.

Undir alhvítri skör ber þú æskunnar fjör,
Jafnvel ungum þú lífs glæðir hyr,
Og með afli og dug og með ástglöðum hug
Þú ert æskunnar hetja sem fyr.

Þú, sem feðranna láð, lengi hrakið og hrjáð,
Reyndir hefja á gæfunnar braut,
Sýndir trygð, sem ei brást, og þá ættjarðar ást,
Sem að aldregi gafst upp í þraut.

Hver ein drenglunduð sál efla mundi það mál,
Sem að miðar til þess, að á ný
Sjáum lífstrè vort grænt, blómgað, veglegt og vænt
Hefja vaxandi limar und ský.

Þeim, sem æfinnar magn fyrir móðurlands gagn
Hafa mestum af trúnaði þreytt,
Hljómar alþjóðar lof yfir aldanna rof,
Því þeir óbornum veg hafa greitt.

Ekkert veraldar rán skerðir lofsverka lán,
Og þau lifa þótt ógni þeim grand,
Dygðar deyr eigi fræ, því mun ávaxtast
Það, sem Ísa- þú vanst fyrir -land.

Njóttu kraptanna heill, frelsis vinur óveill,
Þú, sem vinnur og spyr ei um laun,
Meðan Ísfold rís há undir bjarthimni blá
Mun hún blessa þig lífs fyrir raun.

II.

Hinn vaski Völsungs niður
Á vafurloga reið;
Þá lægðist lofðung viður
Sú logahrönnin breið.
Hann vakti valdís sofna,
Hún vöknuð dagsbrún leit,
Með brynju brandi rofna,
Þá bundust ástar heit.

Og eins sem ungur kappi
Of eldinn reiðstu, Jón!
Og hrósa náðir happi
Við hrepta munar sjón.
Þá fanstu frægðar efni
Hið fremsta í lífi manns,
Er vaktir víls af svefni
Þú valdís föðurlands.

Þá birti lands á brúnum,
Þá birti um land og haf
Af huldum helgað rúnum,
En hún þèr skilning gaf;
Og flóð og fjöll og vengi,
Sem fengju líf og sál,
Alt söng við silfurstrengi
Þá *Sigurdrífu* mál.

Of fólgnum fornheims málmi
Þar fjörgyn hefur sig,
Þig leiddi hvít und hjálmi
Sú hróðdís þröngvan stig.
Þá gekstu' í hyrjar hauga
Með hergauts augun snör
Og tókst þar bjarta bauga
Og beittan sigurhjör.

Og ryð þú skókst af skjóma,
Hann skein við frelsis sól;
Þá hjóstu deyfðar dróma,
Sem drótt í kreppu fól.
Og flögðum kom að falli
Sá fleinn í hendi þèr;
Því *Sigurðs* arfinn snjalli
Þú sigurheiti ber.

Þín dirfð í þungum þrautum
Og þreklund vann oss björg;

Á votum víkings brautum
Er veittust áföll mörg
Og sjórinn brast á borðum,
Svo brögnum hnykti við,
Með hug og hraustum orðum
Þú hvattir sveina lið.

Vér þökkum dæmi dýrast,
Þinn drengskap, þrek og trygð,
Og dygð, er skín sem skírast,
Er skemma reynir lygð.
Nú söngdís björt á brána
Þèr býður minnis veig
Og frelsis-gyðjan frána
Þèr fagran rèttir sveig.

III.

Heil sit þú, hetjan góð!
Hljóma þèr söngvaljóð,
Vor minnismál.
Glatt er í gildis rann,
Gleðjast vor hugur kann,
Um þína hvarflar hann
Hamingju skál.

Aptur vor augu sjá
Um ára tugi þrjá
Þitt skærast skeið,

Festum þar feginsjón,
Fram þegar gekstu, Jón!
Vort kæra feðra frón
Að firra neyð.

Hver innir alt þitt stríð
Og elju fyrir lýð,
Þín ástverk öll?
Væn þau, er vanst þú oss,
Varðveitast munu hnoss
Strítt meðan streymir foss
Og standa fjöll.

Ef fannafoldin heið
Fullgróinn sèr sinn meið
Á bjarga brún
Hefjast við himingeim
Háfaldinn geislareim,
Hvert lauf á þolli þeim
Ber þína rún.

Aldrei mun eyðast nú
Andinn, sem vaktir þú
Hjá þjáðri þjóð.
Lifðu sem lengst að sjá
Landið þitt frelsi ná,
Styrki þig hyggjan há
Með helgum móð.

---

## Vísur með brjóstmynd J. Sigurðssonar

höggvinni af myndasmið K. Bergslien.

Hóf með höndum ljúfum
Hagvirkur ásján fagra,
Mynd þrótt-mikils anda
Mæra í steininn skæra,
Eldfjör, ástarmildi,
Afl dygðar, festu trygðar,
Traustið glaða', er treysti
Tállaust góðu máli.

Ástmög Íslands bezta,
Ættlands fornra vætta,
Birti í líki björtu
Bur snjallur *Norvegs* fjalla,
Breiðum er *bjargs* í *hlíðum*
Berglistir nam dverga,
Sigurblóma sveigur
Snild hans launi gilda.

Mæni mynd in hreina
Mærings þjóðarkæra,
Glæst með ljósi listar,
Lengi fyrir mengi.
Líti landsins hvíta
Lýður einnig síðar
Enn af íturmennis
Andliti geisla standa.

---

## Minni Kristjáns Krístjánssonar
við heimför hans frá Kaupmannahöfn 1854.

Heill sèrt þú, Kristján! við ástvina inni,
Einlægt þèr flytjum vèr þakklætis mál;
Dýrrar þá ættjarðar drukkið er minni,
Drekkum vèr næst þína hamingju skál.

Sem vèr nú óskum að ljúfasta leiði
Landinu kæra þig færi' yfir ver,
Biðjum vèr spor hvert að gæfan þèr greiði
Gagn þess að frama sem vilji þinn er.

Bíður þín hèrað við fjörðinn hinn fríða,
Faðminn þèr breiðir á vorlegri tíð;
Sönnum með höfðingsskap sveit muntu prýða
Sæmdur og virtur af frjálshuga lýð.

Heill sè þèr, vinur! af ægi þá eygir
Eldgömlu jöklana mæna yfir lög;
Heill sè þèr, Ísland! þá heilan af fleyi
Heimtirðu aptur þinn kærasta mög.

---

## Minni P. Pèturssonar
við heimför hans frá biskups vígslu 1866.

Veg þinn, er sæmdin sumarheið,
Vor biskup kær, nam rósum reifa
Með vinaliljum ljósum dreifa,
Íslenzkar hendur hafa þreyð.

Heill sèrtu með oss, halur blíði,
Hróðmögur lands og stèttar prýði!
Virðingin, sem að var þèr sýnd,
Verður með óskum bræðra krýnd.

Þèr hjálmunvöl í hendur gaf
Alvaldur fleyi fögru að stýra;
Í stafni mænir merkið skýra
Og víðan leggur ljómann af.
Sýna mun leið um svæði vasta
Segull og leiðarstjarnan fasta,
Blíðfara straumar beina gnoð,
Byrvindur himins fyllir voð.

Þèr laukagarður lífs við sól
Er lèður til að rækta og gæta,
Vanmegnu hjúkra, brostið bæta,
Þrifnað að veita, vörn og skjól.
Treysta má þínum högum höndum,
Hugkvæmri rækt og gjörðum vöndum.
Gleðji þig alt, sem frjóvgast fær,
Föðurlands það í moldu grær.

Þèr hjörð í geymslu gefin er
Lifanda vatns hjá lindum skærum,
Ljúft bèr hún traust á hirði kærum,
Sem tryggur hana tjóni ver.
Hve muntu glaður henni sinna!
Holl verða launin starfa þinna;
Gagn, sem þú vinnur góðri hjörð,
Gleðja mun þína fósturjörð.

Svo fagurt starf þér valið var:
Það móðurfoldu fögnuð veitir,
Því góðu vonin henni heitir
Af því, sem áður ávöxt bar.
Nú sem á manndóms ítrum árum
Eflirðu prýddur silfurhárum
Kyrkjunnar veg og kennidóm
Með kærleiks dáð og snjöllum róm.

Þér fylgir blíð um bláa rán
Af bræðra fund í faðminn móður
Sú ósk, að fremst þinn hefjist hróður
Og vinnudag þinn lengi lán.
Kvöldroðinn, loks þá dvínar dagur,
Dýrðlega skíni seinn og fagur,
Guðblíður þegar lýkur leið
Ljómandi á runnið æfiskeið.

---

## Landtöku-söngur

við útför hjónanna Jóns Sigurðssonar og Ingibjargar Einarsdóttur (4. maí 1880).

Sunnan bar snekkja
Sorgar farm að ströndum,
Lýsir vorsól á landsins þraut;
Dýrðarmann dáinn
Dýrstu með vífi
Það faðmar senn í friðar skaut.

Hnigin er hetjan,
Skarð er fyrir skildi,
Ísland harmar sinn óskason;
Aldar af djúpi
Upp rann hans dagur
Með nýrri sól og nýrri von.

Minnist þess mengi,
Margopt steig hann fyrrum
Íturfríður á Ingólfs strönd;
Frumherja frelsis
Fluttan með vori
Vor saga leiddi sèr við hönd.

„Fram!“ var hans orðtak,
Fremstur var hann allra, —
Ægishjálmur í augum skein, —
Bönd vor að brjóta,
Brautir að ryðja; —
Nú liggja hèr hans látin bein.

Hvílir til hliðar
Húsfrú, prýði kvenna,
Frægðarmanni sem fylgdi vel.
Týndust ei tryggðir,
Tengdum með höndum
Þau leiddust gegnum líf og hel.

Honum með henni
Hinzta svefnrúm býður
Ættarjörð fram við unnar djúp;

Friðsal að tjalda
Flýtt sèr hún hefir
Með grænum frum-vors gróðrarhjúp.

Dapur er dagur,
Dimm þá moldin hylur
Mikilmennið Jón Sigurðsson;
Sár er vor missir,
Svíður oss undin,
Af svörtum skýjum skyggist von.

Fjallkonan faldar
Harmahjúpi dökkum,
Titrar hrygð gegnum tindafjöll;
Vordögg á vengi
Verður að tárum,
Og sorgleg fugla sönglög öll.

Hvað má oss hugga?
Heiður hans vèr eigum,
Nafn hans geislum á grafreit slær;
Föðurlands framtíð
Frjóvgar hans andi;
Við leiði hans vort lífsvor grær.

Reist er vort merki,
Röddin sama hljómar,
Fyrrum hvetjandi fram á leið;
Söm lýsir sólin,
Fram, fram, og skundum
Hið morgunfagra manndóms skeið.

---

# Minningar kvæði
um Jón Sigurðsson.

## I.
Við afhjúpun minnisvarða hans 7. des. 1881.

Þeim, sem af ættjarðar elskunnar glóð
Aldregi þreyttist að stríða,
Bautastein reisir hin þakkláta þjóð
Þar sem hans duptleifar bíða.
Tali sá steinn gegnum tímanna flóð,
Sem að líða.

Lifir í minning sá land hefir prýtt
Ljómandi frelsisins arði;
Framknúð af honum reis fólklífið nýtt
Fjallkrýndrar móður í garði.
Sannlega því eins og sigurmark nýtt
Skín hans varði.

## II.
Sungið í samsæti til minningar um Jón Sigurðsson 8. des. 1881.

Hve fríð er þeirra frægðar-æfin góða,
Sem föðurlandi helga sína dáð!
Þeim sprettur eilíf rós í lundi ljóða
Í lið frá lið er þeirra blessun tjáð.
Skal þá ei minzt, hver frelsi fyrrum glatað
Á fornar slóðir aptur leiddi heim,

Hver fyrir vesla veginn hefir ratað
Og vísað leið úr deyfðar þokugeim?

Í þjóða sögum þungar finnast tíðir,
En þrælkun ríkir, frelsi legst í dá;
Þá hverfur dáð, menn sættast við um síðir
Og sannleik, frelsi þústar harðstjórn grá.
Svo breytast aldir, himinkraptar hrærast,
Því heimslíf stundar frelsis degi mót,
En seigt er strit unz loks þau tökin lærast,
Er losa sálir jafnt sem hönd og fót.

Sjá tímans son, með brosi fram hann brunar,
Hann birtist sinni þjóð á rèttri stund.
Í snörpum augum sigurgeisli funar
Og sannleiks hjörinn reiðir hann í mund.
Hann höggur hlekki, sviptir svefna þorni,
Um sára limu strýkur þjóð með hik,
Og fálmar höndum fyrir sjón á morgni,
Sem fái' ei þolað árdags geislablik.

Hèr borið er Jóns Sigurðssonar minni,
Hann sinnar þjóðar fremsti maður var;
Því letrast, Ísland, inst á hjartrót þinni
Með ástartrega heitið, sem hann bar.
Þess eptirmælis einn fær hann að njóta,
Að enginn honum jafnt til bóta vann,
Og því gefst honum fórn, sem fáir hljóta,
Að fáir hafa elskað þig sem hann.

Þann manndóms kappann silfurhærða, hvíta,
Þinn hróðrarmög og bjargvætt orpinn mold,
Þó opt þú saknir, aldrei muntu líta.
Vor endurrisna, kæra móðurfold!
En dæmi hans skal drengjum þínum kenna
Í dirfð og framkvæmd hans að rekja spor
Og aldar nýrrar áfram skeið að renna
Sem enn þá lifði hann á meðal vor.

Í landi hèr þá auður vex og andi
Og ekki margir rètta tóma hönd,
Þá fagurhúsuð blasir bygð á landi
Og blika þúsund segl í kringum strönd
Og Íslands synir fagna fyltum vonum
Með fögrum bróðurhuga, — verði það!
Þá munið vel, að hvötin kom frá honum,
Sem hverjum landa var í bróður stað.

Vèr heiðrum þann, sem hóf vort fallna gengi,
Í honum þjóðin týnd sig fann á ný;
Jóns Sigurðssonar minning lifir lengi
Í lýða hjörtum blómguð æ og sí;
Því fríð er þeirra frægðar æfin góða,
Sem föðurlandi helga sína dáð;
Þeim sprettur eilíf rós í lundi ljóða,
Í lið frá lið er þeirra blessun tjáð.

## Minningarkvæði

um Hallgrím Pétursson sungið við afhjúpun minnisvarða hans 2. ág. 1885.

Þú ljóðsvanur trúar. lýðum kær.
Frá liðinnar aldar flóði
Þinn himneskur ómur eyrum nær.
Þú útheltir söng með blóði.
Með dauðann í hjarta. þá dimm var tíð
Þú dýrð guðs tjáðir í óði.

Þú trúskáldið frægst, sem fólk vort á,
Þér fremst vill það þakkir vanda,
Því aldrei fyrnist þín andagipt há
Með ódauðleiks vængi þanda.
Sem helgaði' móðurmálið þitt
Í mætti, fegurð og anda.

---

Þinn guðlegur óður var uppheims gjöf
Og afspringur himinglóðar;
Þinn heiður, þótt ekki sè hèr þín gröf,
Er hvervetna rèttur þjóðar.
Því rís hèr þinn varði frá bergstall beinn
Og bendir til himinslóðar.

---

# Minni

## hins íslenzka Bókmentafèlags

á fimtíu ára minningarhátið þess í Kaupmannahöfn 1866.

Megir Íslands, mentum sem að unnið,
Minning oss á þenna kvaddi fund,
Meðan sjónir mæla skeiðið runnið,
Merkistein vèr hvílum við um stund;
Fimtugastan — fyrstum þeim frá degi,
Félag þetta sem að yfir skein,
Árshring gylti aldafars á vegi
Auðnu sól, er dimma fal ei nein.

Þá skal einum þakkir klökkar inna,
Þèr, sem veldur nú að finnumst hèr,
*Rask!* á heiti þitt ei þarf að minna,
Þar sem verk þitt hver einn skarta sèr.
Hèr í sal og himni Snælands undir
Hljómi fögrum skal það gjalla í kvöld,
Fannhvít man það foldin allar stundir,
Fegra nafn ei prýðir hennar skjöld.

Vorrar móður komstu' í faðminn kalda,
Kær varð henni þín hin göfga sál.
Ástverk þín með elsku vill hún gjalda:
Efldar mentir, göfgað feðra mál;
Verndarengils augum líttu björtum
Oss, er blessum þína vinar gjöf,

Helgust blóm, sem vaxa í vorum hjörtum,
Verða' að sveigum handa þinni gröf.

Verk hans blómgast nú að láni lýða,
Laun ei fegri sèr hans andi kýs;
Íslands synir! styrkið stofninn fríða,
Studdur mentum þjóðar hagur rís.
Sá ei sparði, sem að óðnum unni,
Andans hnoss ei litlu kaupast með;
Fyrir drykk af mærum Mímis brunni
Manna faðir auga gaf í veð.

Hvað má kreppa og kyrkja lífið þjóða,
Kúgun selja skæðust vopn í hönd,
Fyrir lofstír lýðum háðung bjóða,
Leggja' á sál og hendur dularbönd,
Feigðar þoku þyngja jarðar slóðir
Þar til visnar alt í dauðans klóm?
Fávís heimskan, þrálynd þrældóms móðir
Þess, er fölna lætur sèrhvert blóm.

Hvað má lýði hvetja, styrkja bæta?
Himinrunninn það er sannleiks blær.
Hvað má andann harmi lostinn kæta?
Heilög mentun sjálfum Guði kær.
Hennar neisti þó að lifni í leyni
Loks má verða röðull fagurskær,
Grímutröll er gerir öll að steini,
Geislum frelsis yfir jörðu slær.

Smátt skal stækka, verk af vilja hreinum
Vexti ná þó gróður leynist fyrst,
Fræin veiku verða trè með greinum
Vökvuð árdögg, himinsólu kyst;
Ljóssins himinn hlýjum unaðstárum
Hjúkrar fræi því, er sáum vèr,
Fagur viður frjóvgast nær með árum,
Friðarskugga á grafir vorar ber.

Treystum því, að þróist alt hið góða,
Þessum sem að falið verður reit,
Veitist niðjum efni líkra ljóða,
Lofsverk styrki fróðleiks ástin heit.
Drekkum heilir mentafèlags minni,
Meðan nokkur andans geisli skín,
Fósturjörðu frjálsri gagn það vinni,
Fremd og heiður, sem að aldrei dvín.

---

## Kvæði

sungin við afhjúpun Thorvaldsens-myndarinnar á Austurvelli í Reykjavík 5. nóv. 1875, á 105 afmæli Thorvaldsens.

I.

Skín ljúf og kær í ljósi dags,
Þú lífmynd fræga *Þorvaldssonar*,
Er styðst við glæsta gyðju vonar,
Þú boðar tíðir betra hags.

**Þèr heilsar Íslands himinbogi,**
**Þèr heilsa fjöll og strönd með vogi,**
**Þèr heilsa þjóðar hjörtun klökk.**

---

Af bræðra gefin hug og hönd
Þú hjörtum vorum ert því kærri;
Heill veri dagur dögum skærri.
Er vígist þú á vorri strönd!
Hver dagur fegri signdist sólu
Enn sá, er bæði löndin ólu
Slíkt undrabarn sem Albert var?

Hve ástarhrein hans ásýnd prúð,
Þar innra hugvits sjónir skína,
Sem vegleg snildarverkin sýna,
Þar yndið blítt er aflsins brúð,
Þar fegurð sannleik tengist tærum,
Þau tala, syngja úr steini skærum,
Og lypta hverju hjarta og sál.

Ei gleymast skal hans gjöfin ein,
Sem grípur sèrhvert barnfrómt hjarta,
Þar kringum sáttmáls-brunninn bjarta
Guðs orð er merkt á mynda stein;
Þá gjöf hann sendi' úr suðurs lundi,
Vort snjóvga landið glögt hann mundi,
Því skal það elska Alberts nafn.

Því hvarflar andinn Ísalands
Að eyjarbarmi fagurljósum,
Þar gröfin ungum reifast rósum
Í sigur-miðgarð snilli-ranns.
En minning hans skal máttug standa
Á milli tveggja fósturstranda,
Sem bogi sáttmáls, Bifröst skær.

II.

Albert kær, á Ingólfs strindi
Atlants fram við sæ,
Snælands burum augna yndi,
Okkar prýddu bæ.
Yfir þèr frá Esju tindi
Eins og Sögu hrós
Róslit, gullkvik vaka í vindi
Vetrar norðurljós.

Undir norður-hjarans hæðum,
Hríms í kaldri bygð,
Norrænt blóð í okkar æðum
Elur forna trygð.
Háa norður, fræga, frjálsa
Frá þeim nyrðsta gnúp
Signist þú til syðstu hálsa,
Sól þar gyllir djúp.

Heiðlopts bláa hollir andar,
Hefjið vængja flug,

Andið mjúkt til eyjastrandar
Íslands bróðurhug.
Ástgjöf þakkið íturnsnjalla
Axels borg við sund,
Kveðju, er sendir konan fjalla,
Kynnið svana grund!

---

## Kvæði

flutt á minningardegi þúsundára hátíðarinnar og stjórnarbótarinnar (2. ág. 1879).

Synir lands úr áttum öllum,
Einnar móður börnin trú,
Hèr á gleðifundi finnast
Frelsisdag að halda nú.
Ein er minning, ein er vonin,
Eitt oss tengir fèlagsband,
Þig að elska, þig að styrkja,
Þú vort kæra móðurland!

Kjörgrip þinn, vort þingið frjálsa,
Þjóð er skapar lögin vönd,
Gaf oss þessi gleðidagur,
Gekk þá betri tíð í hönd.
Fyrir brjósti fósturjarðar
Fágum grip og notum vel,
Hann er sverð í manndóms mundum,
Missir hans er verri enn hel.

Hann er sverð, sem höggið getur
Höpt af deyfðri þjóðarsál!
Hvert hans bragð með ljóma leiptri
Líkt og fegurst sólar bál,
Hvert hans bragð með birtings ómi
Boði framför, nýja dáð,
Framda vörn og fenginn sigur
Fyrir rètt þinn, móðurláð

Þei, frá himni þúsund ára,
Þöndum yfir snæfjöll há,
Íslands dísa heyrast hljómar,
Hörpur gullnar nú þær slá;
Sólskinshýrar, sumarblíðar,
Samfagnandi búum lands,
Horfa þær úr heiði niður,
Hnýta jöklum geislakrans.

---

## Verzlunar minni.

Old heims út um höf og lönd
Otul mjög stritar hart bæði sumar og vetur,
Kappfús kröptum beitir hönd,
Knýst fram rásin og slitnað ei getur.
Dripthvít danza segl um gráð,
Drjúgum þyrlast upp eimskipa kolsvartir reykir,
Járnreið flýtir ferð um láð,
Flytja hraðboðin rafurmagns eykir;

Eisar straumur, iðnar verk
Augum birtast furðusterk;
Lönd frið yfir griðar geim
Gæðum skiptast og ljómandi seim.

Heil þú, móðir arðs og auðs,
Ítra verzlun, sem löndunum hagsældir gefur,
Þjóð vor þjökuð nær til dauðs
Þinnar blessunar margsaknað hefur.
Seint í samflot þitt kemst hún,
Smáskip eitt meðal kaupfarar drekanna stóru;
Drögum seglið samt við hún,
Smáir allir í fyrstunni vóru.
Heil þú, verzlun, markað mið
Ment og drengskap tengdu við!
Þín heill líka sè vors lands,
Lýðinn styð þú og framfarir hans.

Ljós bjart fremdar löndum frá
Frjálst og glatt inn í skuggfylgsni vor látum streyma,
Kom þú, kallar aldan blá,
Kugginn þinn yfir haf láttu sveima.
Lèt sól uppi daga draug,
Dagsól fagnar, en nöldrandi svartálfar flýja,
Vor tíð víkkar sjónar baug,
Veröld fyrir oss opnast hin nýja.
Senn ber upprètt höfuð og háls
Hrein og íslenzk kaupstètt frjáls,
Þá fyrst dafnar borg og bær,
Burum lands þegar ættjörð er kær.

---

# Kvæði

fyrir minni Reykjavíkur-bæjar á hundrað ára afmæli hans, 18. ágúst 1886.

Yfir fornum frægðar ströndum
Fram við unnir blár,
Svíf þú, *Ingólfs Arnarsonar*
Andinn tignarhár;
Fornar eru' ei dísir dauðar,
Dvín ei minnis trygð.
Heill þín enn í lopti líður,
Lifir enn í bygð.

Höfuð-kauptúns hundrað ára
Höldum burðardag.
Hefir sólarskin með skúrum
Skipzt við ýmsan hag.
Viðgang, framför, vinir, sjáum,
Vík er höfuðbær;
Vonum hennar vegur síðar
Verði hár og skær.

Hvað mun verða að hundrað árum —
Hugsum vèr í kvöld, —
Þegar ný á himinhveli
Hringrás lýkur öld?
Sjáum rísa rausnar hallir,
Raðast knör við knör,
Eða framför lítum lina,
Lítið umbreytt kjör?

Hver sèr löndin byrgð að baki,
Báruhryggjum duld?
Hver má lypta tjaldskör tíðar?
Tvíræð þegir Skuld.
Gegnum tímans gildu kröfum,
Glími fornt og nýtt;
Gerum vort, að gott alt sigri,
Gefst þá lánið frítt.

Hefjum staupin, ósk vor ómar
Yfir stræti og torg:
Ingólfs bær, um aldir vertu
Íslenzk sæmdar borg.
Þjóðrækt, mentun, manndáð skíni,
Máttug þrísól hèr;
Ljós af frelsi, yl af eining
Eigi hún í sèr.

---

## Kvæði

fyrir minni hins íslenzka forgripasafns á tuttugu og fimm ára afmæli þess 24. febr. 1888.

Minningu helgað
Menjasafn dýrast
Fóstraði lifnandi
Framfara öld;
Þjóðræktar afsprings,
Þroska sem náði,

Hálfþrítugs afmæli
Höldum í kvöld.

Minzt skal með heiðri,
Hversu vor lýður
Als þurfa stofnun
Ástfóstri tók;
Fremd hennar fann hann
Fremd vera sína,
Munum og meiðmum
Mest hana jók.

Ei mátti saka,
Uglur þó vældu:
„Hrak er þitt eigið,
Hrind því fyr borð.“
Hátt gall í móti:
„Heiðra þitt eigið,“ —
Djarflega kveðið
Drengskapar orð.

Nem þú hið nýja,
Níð ei hið gamla,
Virð það, sem vert er,
Veit því ei grand.
Nútíð við fortíð
Nornirnar tengja
Heilögum síma,
Högg ei það band.

Lýsing hins liðna.
Lifandi myndir
Horfinna alda
Hlutirnir tjá;
Skipið á skriði,
Skálinn með tjöldum,
Sjón mörg í anda
Sèst gegnum þá.

Hvarflandi hugur
Hverfur að leiði
Manns, er að þjóðsafni
Mest allra vann.
Stofnun hann reisti,
Studdi og leiddi;
Lítil sem engin
Launin þó fann.

Hrímlands á stalla
Hans hefir logað
Lífsfórnar eldur
Litinn af fám;
Nú skín hans mæra
Minningar stjarna
Hátt á þess himni
Heiðum og blám.

Meðan enn stendur
Minningar hofið

Geymandi þjóðkært
Gripanna safn,
Gullstöfum letrað
Ljómi þar inni
Sæmdar á skildi
*Sigurðar* nafn.

Vaxi vort þjóðsafn,
Vegur þess hækki,
Ein er það þjóðmeiðs
Aðalgrein sönn;
Aldurs það njóti,
Öflugt það standist
Níðhöggs og tíðar
Nagandi tönn.

---

## Ísland til Hellas.

*Ísland* til *Hellas*,
*Hekla* til *Olymps*,
Segulljóss snægrund
Sólvangs í skaut;
*Hómers* í heimland
Hrímstorðin *Eddu*
Ljóðkveðju sendir
Langleiðis braut.

Sækringd í norðri
Sögufold aldin
Heims býr við enda
Hafíss und vegg;
Vittu það, Hellas!
Hjarans í náttheim
Sólblik þitt sunnan
Snart hennar negg.

Hellas hið unga
Endur um borna,
Dýrðleg þar menta
Dagsbrúnin stè,
Óskaland sólar
Samrar og fyrrum,
Frævist þín framtíð
Fornhelg um vè!

Hellenski hróður,
Heims-menning varstu
Meginvörn móti
Myrkvætta sveim.
Alfagur, alfrjáls
Yngdirðu þjóðir,
Aldrei varð uppnæmt
Afl þitt í heim.

Heil veri storðin,
Heil veri þjóðin

Þessi, sem skyldust
Þig tók í arf;
Annað sinn ungri
Yfir þú svífir
Sýnandi vegi,
Signandi starf.

Ættlandið prúða
Andans hins forna,
Sjá þú um aldur
Eflast þinn hag;
Skínandi veiti
Skýjaðan aldrei
*Sevs* þér og *Níke*
Sannfrelsis dag!

---

## Kveðja

til hinna ameríksku fræðimanna próf. W. Fiske, A. Reeves og W. Carpenter 11. okt. 1879.

Nú horfinn er farfugl af haustlegri grund,
Eins hollvinir senn við oss skilja,
Því velkomnir hingað á Frónbúa fund,
Þér finnið hér alúðar vilja;
Heill, *Fiske* vor kæri! með félögum tveim,
Þér fegins gestir frá Vesturheim!

Þèr komuð og gistuð vort fannkrýnda frón
Í fagrahvels gulldregnu skrúði,
Þá hásumar kætir með heiðríkju sjón,
Svo hittuð þèr ísjökla brúði;
Þèr sáuð vors föðurlands svipmörk flest,
Þèr sáuð á landinu kost og brest.

Hjá yður er þjóðlíf sem þrúðugust eik
Með þúsundir blómgaðra greina,
Hjá oss er það dvergbjörk í vextinum veik,
Því viðganginn hindranir meina;
Sú önnur er jarðlág, en himingnæf hin,
Þó hefir sú stóra þá smáu að vin.

Þá bugar ei neyðin, ef hugur er hár,
Vèr hugsum að lifa', en ei tóra,
Þann úrkost á sá, sem í örbirgð er smár,
Að unna því göfuga og stóra;
Til frjálsra manna frá frjálsri storð
Vèr fram berum þakkar og kærleikans orð.

Til foldar, þar heiðríkt skín frelsisins ljós,
Þar finnast ei kóngar nè þrælar,
Þar manndáð er aðall og atorkan hrós,
Sem ein gerir þjóðirnar sælar,
Þèr kveðju nú berið um svellandi sæ,
Ó, sendið oss aptur margt lífsgróðans fræ.

Sem Leifur hinn hepni vèr kætumst í kvöld,
Er kom hann að Vínlandi forna;

Nú syngur og klingir hin fagnandi fjöld,
Því fundið er landið hið horfna;
„Hið forna Vínland er vinland nýtt,“
Frá vörum íslenzkum hljóma skal títt.

---

## Fyrir minni

Eiríks Magnússonar (21. okt. 1882).

Nú geisla ljósin, gleði ljær
Oss gestur kær,
Sem þennan sækir feginsfund
Á fósturgrund.

Vorn *Eirík* kæran eigum vèr
Á aptni hèr,
Og því skal vekja vinar mál
Hjá veiga skál.

Og þá skal undan þagnar stein
Vor þökkin hrein;
Vèr sönnum þína sonar dygð
Við Snælands bygð.

Þú aldrei vissir Íslands neyð,
Svo ei um leið
Þèr hrærðist trútt og hjálpfúst geð
Og höndin með.

Þín göfug, frjáls og funheit sál
Ei fer með tál,
Og vinur lands, sem vitnast bert,
Þú varst og ert.

Þèr gleymdist ei á fjarri fold
Vor fósturmold;
Hver Íslands bur á brautum þar
Þèr bróðir var.

Þú elskar fold, sem barn þig bar
Hjá bláum mar;
Þú henni gefur hjarta þitt
Og hún þèr sitt.

Þèr gleymir ei á fjarri fold
Vor fósturmold;
Á vort og hennar hjarta rètt
Þitt heiti' er sett.

Nú ber þú hèðan blíðust orð
Á brezka storð,
Og Íslands þakkir enskri sjót
Af ástar rót.

Og heil sè Englands eikin væn
Um aldur græn!
Hve mjúka liljan, mannást skær
Við meið þann grær

Vèr stríddum hart við Hræsvelgs gný
Og harðmóðg ský,
En sunnangeislinn glóði blítt
Og gerði hlýtt.

Og treystum því, að öll vor el
Samt endi vel
Og herðum þrótt við hörku stríð,
Alt hefst um síð.

Nú heiðrum, bræður, bróður þann
Frá Breta rann,
Sem færði liðsemd, stoð og styrk
Þá stund var myrk.

Hans trygð og kærleik tigna ber,
Því tæmum vèr
Með ást í hjarta, eld í sál
Vors Eiríks skál.

---

## Hörpu minni.

1887.

Heil þú, dásöm drottning meðal lista,
Dýrðarljóssins sæti stigin frá,
Ástarmild er mannheim vildir gista,
Mundar töfrasprotann fríð og há.

Dóttir himins. móðurmáli hæða
Mælir þú, sem birtir alla sál.
Og um háleik ættar þinnar fræða
Áhrif þín, er guðdóms tendra bál.

Þitt er guðmál, þín er harpan snjalla;
Þúsundrödduð hún í strengjum ber
Hljóm, sem birtir innri veröld alla.
Alt, sem manns í brjósti hreyfir sèr.
Þínir hljómar vargdýr tryldust tömdu,
Teymdu björg og eikur, heptu fljót,
Villiþjóð að siðmenningu sömdu,
Sungu' í vegglög heljarkletta grjót.

Þar sem sönglist dvín er dauðans ríki
Dumbs á strönd í klakastirðri þögn;
Sóllaus æfi söngnum fyrir víki,
Söngs við hljóma vekjast andans mögn.
Opt var þögult fyr á jökulfoldu,
Farg er enn, sem þú bezt vinnur á,
Hrind því, sönglist, losa menn frá moldu,
Meinvætt deyfðar sprota þínum slá.

---

Fèlag vort, er gaf sèr *Hörpu* heiti —
Hörpu stórri þjónar smárra fjöld —
Nú við horna sjó og söngva teiti
Sig að rèttu gleðja má í kvöld,
Því með bræðralagi heilu og höldnu
Hèlzt það fram um aldar fjórðungs skeið,

Vinna reyndi vorri móður öldnu
Vilja fúsum gagn á söngsins leið.

Fríðar heillir fèlag þetta leiði
Fram á byrjað ára skeiðrúm nýtt;
Störf þess blessist, gæfan veg því greiði,
Gròi söngsins þjóðlíf blómum prýtt.
Bandalag það beztu veri drengja,
Bróðurandinn hjá þeim ríki jafn.
Fyrir samkveð hljóms og hjartna strengja
Harpa sitt með rentu beri nafn!

---

## Kvæði

fyrir minni barnaskóla Seltirninga, 5. jan. 1883.

Um aldur þökk sè þeim, er kvað,
Að þekkingin er veldi,
Því einni þekking auðnast það,
Sem enginn giörlegt hèldi.
Hún sældum fyllir snauðust lönd
Og sönnun reynslan færir,
Að æ því meiru orkar hönd
Sem andinn meira lærir.

Og þennan hafið sannleik sèð,
Þèr sæmdar bændur líka,

Er hreinum rausnar huga með
Þèr hófuð stofnun slíka,
Og frægjast skal sú framför merk
Til fróðleiks hinum ungu.
Þó meðvitund um mannkært verk
Sè meira enn lof á tungu.

Þèr óskað hafið öllu meir
Að ungir mættu fræðast,
Sem alast nú, — og einnig þeir.
Sem enn þá munu fæðast,
Og alt af kvað hin innri raust
Og ýtti drengjum beztu,
Því stendur þetta steinhús traust
Og stofnun veitir festu.

Og þú, sem vanst með alúð æ,
Þú uppfræðarinn þarfi;
Að græða það hið góða fræ,
Hve gladdi þig sá starfi!
Svo ítra köllun áttu hèr,
Að æðri þú ei finnur;
Í húsi nýju heill sè þèr
Og hverjum, sem þar vinnur.

Þèr, ýtar knáir æginn við,
Sem erjið djúpið kalda,
Þèr glæðið ment cg góðan sið
Og girnist áfram halda.

Ó, blessist ykkar bygðin fríð
Með blómaríkum arði,
Og eflist skólinn alla tíð
Sem ykkar heiðurs-varði.

---

## Sveitasæla.

Man eg grænar grundir,
Glitrar silungs á,
Blómabökkum undir
Brunar fram að sjá.
Bændabýlin þekku
Bjóða vina til
Hátt und hlíðarbrekku
Hvít með stofu þil.

Fossar falla í giljum,
Freyðir kolblá röst,
Laxar leika' í hyljum
Lètt með sporða köst.
Silfurgliti sauma
Smaragðlita hlíð
Kaldra kristals-strauma
Kvíslir vors á tíð.

Bláleit fannafjöllin
Fela' í skýjum tind;

Ei þver alda-mjöllin
Efst í himinlind;
Vötnin kyr með kvaki
Kætir svana fjöld;
Bifð af vængja blaki
Báran vaknar köld.

Man eg morgunsunna
Mærust þegar hló,
Lönd og leiðir unna
Logageislum sló;
Gylti hnúkin háa,
Huldu dimman sal,
Heiðabeltið bláa
Breiðan kringum dal.

Fuglar foldu ofar
Fagna' í himinrann,
Guðs þá gæzku lofar
Gjörvöll náttúran,
Grænan mjúkur mynnist
Morgunblær við lauk,
Sólvermd þoka þynnist
Þykk, sem áður rauk.

Fram með fjarðar-síðum
Fyrðar róa' á mið,
Fjármenn hóa' í hlíðum,
Hljómar bergmál við.

Út um dal með degi
Dratta kýr á beit,
Hnarreist hross á teigi
Halda leika' um sveit.

Lètfætt lömbin þekku
Leika mæðrum hjá,
Sæll úr sólskins brekku
Smalinn horfir á.
Kveður lóu kliður,
Kyrlát unir hjörð,
Inndæll er þinn friður,
Ó, mín fósturjörð!

Kærsta sjón, er sá eg
Sýndi móður-storð,
Brjóst, er barn við lá eg,
Blessa sonar orð;
Ei má eðli hagga,
Er það Drottins gjöf,
Þar sem var mín vagga
Vil eg hljóta gröf.

Heima' er hægt að þreyja,
Hvíld þar sál mín fær,
Þar mun þægt að deyja
Þýðum vinum nær.
Ljúft er þar að ljúka
Lífsins sæld og þraut

Við hið milda, mjúka
Móðurjarðar skaut.

Ó, þú sveitasæla,
Sorgar lækning bezt,
Værðar-vist inndæla
Veikum hressing mest,
Lát mig lúðan stríðum
Loks, er æfin dvín,
Felast friðarblíðum
Faðmi Guðs og þín.

- - - — -

## Snæfellsjökull.

Yfir hraunahrjóstur,
Holt og kletta rið,
Þar norðan næðir gjóstur
Sem Nástrandar um hlið,
Klettaskaga köldum á
*Snæfellsjökull* himinhár
Horfir yfir sjá.

Und *Svörtulopta* svifi
Suðar strandfugls garg,
Hylst þar Hel und bifi,
Hamast Rán við bjarg,

Jötnum líkir loptið í
Skaga dimmir drangar Lóns
Dauðalega við ský.

Klettar margir mæna
Myrku djúpi hjá,
Skarta skör með græna,
Skjálfa í blænum strá,
Flögrar hægt á miði már,
Hvítur fram á röstum rís
Reyðar blástur hár.

Man eg að hamra höllu
Hafsins stormaflóð
Geystist mærra mjöllu,
Máni' í skýjum óð,
Steyptust brimföll björgum af, —
Ekkert sá eg öflgra þér,
Ógurlega haf!

Ei þar sungu svanir,
En sjófugl bjargs í tó
Og hrafnar hrævum vanir,
Í holti refur gó,
Sætt á kvöldum sumars þó
Lèt í eyrum lóukvak
Í lyngi vöxnum mó.

Þar hjá læknum ljósa
Lítið átti' eg hús

Og að koti kjósa
Knátti hluti bús,
Skipum fleytti um tæra tjörn,
Lítinn flota einatt á
Ánægð horfðum börn.

„Ljóst var út að líta",
Ljómaði fagurt opt
Snæfell hrími hvíta
Við heiðblátt sumarlopt,
Skein þar mjöll á hnúkum hæst,
„Alt er hreinast", hugði' eg þá,
„Sem himninum er næst".

Ramra vætta ríki
Þar rèðu fyr á öld,
Standa steins í líki
Stirðnuð tröllin köld.
Regin lifa á landi fá,
Veit eg eitt þó vakir enn
Viður æginn blá.

*Bárður* blæs í skeggið
Á björtum jökulhnúk,
Magnast hrím og hreggið
Hrynur í bygðum fjúk,
Með klofastaf í kufli grá
Snúðugur þrammar Snæfells-ás
Snjóvgum vegum á.

Stórkostlegur mun standa
Storðar nesi á,
Sem bleyðum vilji banda
Bygðum sínum frá,
Yzti vörður við unnir blár,
Höfuð það, sem er fjalla fremst,
Fylkir Snæfells hár.

Kærst mèr er af öllum
Þín eyðilega sveit,
Beltuð brunafjöllum
Brims við kaldan reit,
Dapran frá þèr dröfn mig sleit,
Er af þiljum hafskips hám
Þig hinzta sinn eg leit.

Eg sá þig síðla á kveldi,
Sveif í vindi fley,
Rennandi röðuls eldi
Roðinn og vissi ei,
Er þúfa hvarf mèr hæsta þín,
Hvort að földu hana sjón
Haf eða tárin mín.

---

## Gilsbakka-ljóð.

Hin glæsta fjallsýn geðjast mèr
Frá *Gilsbakkanum* háa,

Þar hèraðsbygðin hagsæl þver
Við hrjóstur-óbygð gráa.
Í vestri brosir bygðin öll
Og blómleg Hvítársíða,
Í austri jöklar orpnir mjöll
Mèr ögra fram til hlíða.

Þar *Eiríksjökull* ógna-hár
Með ís og helblá klungur
Og *Langijökull* gegnt við gljá'r
Með glæjar fannabungur.
En bjart er Ok í suðri' að sjá
Með silfurbreðann skæra,
Þar sofa ský, er skuggum slá
Á skafl og sig ei hræra.

Við hnúfur jökla í austurátt
Eg efst sè *Strútinn* reigjast,
Og *Hafrafellið* heiðisblátt
Að hnúkum *Geitlands* teygjast.
Sem haf er þaðan hraunvídd grá,
En hýrt á neðra sviði
Í dalnum grær þar Eden á
Af anganbirkis viði.

Nú lækkar sól og himinhöll
Af heiðgulls roðnar móðu
Og ljósálfarnir leika um fjöll
Við landvættina góðu.

Þá uni jeg mèr efst við gil,
Í einverunni falinn,
Við svalan blæ og sælan yl
Og sjónum renni um dalinn.

Hèr streymir úrsvöl, undurtær
Að ofan jökul-kylja,
En neðan ilmsæll birkiblær
Úr brekkum skógargilja.
Og mætast svo á miðri leið,
Hið mjúka blandast stríðu,
Sem manndóms-hreystin minnist heið
Við meyjar hreina blíðu.

Og hèr eg finn þig, fósturjörð!
Með fjölbreyttasta lyndi,
Með brosin ljúf, með hótin hörð,
Með hátign, strangleik, yndi;
Hið efra helfríð, hrikavæn,
Þú hreyfir vetrar kífi;
En neðra sólblíð, sumargræn,
Þú svellur öll af lífi.

Þú himinn alskær, öldnu fjöll!
Við yðar tign er blandin
Hin minnisríka sagan snjöll
Og sviphreinn fornlífs andinn.
Frá fannajöklum fram að sæ
Og fljótsins breiðum ósi,

Hann helgar yður heiðum blæ
Af horfins tíma ljósi.

Eg kominn er á *Hermunds-hól*
Og hlýrans fræga minnist,
Sú grund er fræg sem *Gunnlaug* ól,
Þó gröf hans hvergi finnist.
Svo svipstór fold hóf svein á legg,
Er Sjafnar-draumnum trúði,
Sem fastast hjó með hneitis egg
Og hörpu snjallast knúði.

Við dýrðar-veðri dillar glatt
Í dalnum fugla skari,
Þeir kalla mig, að hèðan hratt
Úr hlíð eg ofan fari.
Þá hverf eg inn í skóghraun skjótt,
Þar skemtileg er gangan,
Með sumarfrið og sælugnótt
Af sætri viðarangan.

Þar leikur hvíta hjarðfèð kátt
Við hagans gróðursældir,
Og breiðir lækir bruna dátt
Um blómgrund, klappir, dældir,
Og mörg ein birkihríslan há
Á hraunborg þaktri mosa,
Og grænna bakka gullblóm smá,
Í gljá-straum spegluð brosa.

Unz straumur hrynur stríðum nið
Af stall með fossfalls hviðu,
Þar bjarktrè standa á hvora hlið
Og hallast fram á iðu;
Hvort öðru mót þar yfir flaum
Með örmum seilist þöndum,
Sem þau, er yfir örlögstraum
Í elsku takast höndum.

Þei, þei! jeg heyri harðan gný,
Sem hrynji skriða um grundir,
Að hraunsnös yztu hratt eg sný,
Þar hyldjúps flug er undir.
Sjá! *Hvítá* fram í fossi brýzt
Úr fjalla gljúfrum þröngum
Og blágræn, hvítfreydd hart fram knýst
Í heljarkletta göngum.

Og stríðan svo í stokki fram
Hún strauminn lætur sjóða,
Unz neðra þètt við hlíð og hvamm
Hún hægir fallið óða,
Þar hinumegin *Hálsasveit*
Með hlíðar skógi grónar
Og friðarspaka fèð á beit
Er fegurst yndi sjónar.

En hèr úr efsta hrauni geyst
Sèr hellir undan bjargi

Eitt bergvatns haf, í lækjum leyst
Úr læðing undan fargi.
Úr hvanna- og birkis bratthlíð ótt
Sèr bunulækir hossa
Og nið'r í Hvítár hyldjúp mjótt
Þeir himintærir fossa.

Nú *Síðufjalli* sól er nær
Og sælan skógar blóma
Hún efst á hraunbrún allan slær
Með angurblíðum ljóma.
Ó, seg mèr, eygló! ef þú sást
Hinn unga Gunnlaug fyrrum
Í þessum hlíðum, hrifinn ást,
Á heiðum aptni kyrrum.

Hèr sástu víst um síðkvöld hann,
Þann svein með augum dökkum,
Með Hvítá sjónin hvarfla vann
Og hennar grænu bökkum.
Svo langt sem kristals-lykkjað fljót
Sig liðar út um vengi,
Hann horfði vestur-hæðum mót
Og horfði fast og lengi.

Því þar sem myrkblár múlinn fjærst
Sèst mæna neðar völlum,
Að baki hans sat brúður kærst,
Sem bar af fljóðum öllum,

Það haukfránt, gullhært vífið vænt
Með Valkyrjunnar enni;
Því var svo opt í vestrið mænt
Þar vissi skáld af henni.

Um *Helgu fögru* fagurt söng
Hver fugl í þessum runnum,
Um hana voru ljóðin löng
Frá lækja silfur-munnum,
Og opt með blíðróm blandinn sorg
Í blágeim álptir kváðu
Um systursvaninn bjarta' á *Borg*
Og boð frá honum tjáðu.

En seinna skáld hèr sástu í þraut,
Ó, sól! og burt var prýðin,
Þá *Skáld-Hrafn* fljóðið fagra hlaut,
Hve fölnuð sýndist hlíðin;
Við genginn ástar gæfuhag
Þá grættist hetjan snjalla
Og sá ei framar sælan dag
Und salnum dimmra fjalla.

Í ástar hrygð og heiptar móð
Var halur einn á gangi,
Og þegar stóð hann fram við flóð
Und fögrum hlíðar vangi,
Þá var sem ygldist elfur dimm
Og úði af banafylgjum,

Frá djúpi náhljóð drundu grimm
Og dreyri flaut á bylgjum.

Það dísir grètu, að gumar þeir,
Er glóðu af hreysti' og óði,
Sem ungir fjalla-ernir tveir
Í eigin hjuggust blóði.
Svo grimmlegt stríð hlauzt örnum af
Þeim ítra Borgar-svani,
Að loks þeir börðust handan haf,
Þar hvor varð annars bani.

Og Helga lifði, svanur sá,
Við sorg en enga gleði,
Hún ól til Gunnlaugs aldur-þrá,
Þó öðrum fylgdi' að beði.
Með ástarljós í augum blám,
Þá önd á vörum blakti,
Hún vinar skikkju væna' á knjám
Með veikum höndum rakti;

Unz drottinn lífi bjartrar brá
Og burt hún leið í friði,
Til blíðheims dimmri foldu frá, —
Því fullvel nú jeg trýði,
Að andinn Gunnlaugs einatt hèr,
Á uppheims geisla bifi,
Með fríðrar svip í fangi sèr
Um fagran himin svifi.

Hvað drynur svo? Hve dimmum glaum
Nú dunar fljótið stríða!
Það sviptir mèr frá sögudraum
Og söngvum fyrri tíða,
Og trútt mig kallar til mín sjálfs,
Af trega-rómi þrungið,
Mèr finst sem væri hljóð til hálfs
Úr hjarta mínu sungið.

Þú streymir áfram, elfar-flóð!
Sem aldrei svefnró fangar,
Og syngur þinnar æfi óð
Um árþúsundir langar.
Þín dimma hljóða-dunan stinn
Ei deyfa vill, en herða,
Og samróma við sönginn þinn
Vill sál mín einnig verða.

En, kalda fljót! nú kveð eg þig
Um kyrrar aptanstundir,
Eg leita frá þèr leyndan stig,
Fyr löngu sól gekk undir.
Að baki mèr er birkihlíð,
Að baki hljómar niður,
Hann eyðist sem eg áfram líð
Unz alt er þögn og friður.

Á vesturhimni ríkir rótt
Sá roðinn engilfagur,

Sem hverfur ei þá heilög nótt
Er heiðbjört eins og dagur;
En eystra nið'r á hrímfjöll hrein
Skín hvítbleikt tunglið auða,
Og stjarnan hjá því uppi' er ein
Sem ástin blíð hjá dauða.

Þá vaknar löngun hugans há,
In hreina og ódauðlega,
Að lyptast duptsins fjötrum frá
Til frjálsra himinvega.
Ó, sumarnótt! svo heið og hljóð,
Sem hrífur sálu mína,
Í þínum frið læt eg minn óð
Með öðrum röddum dvína.

---

## Hvalfjörður.

Ó, fjörður væni, sæll að sýn
Í sumarsólar loga,
Hve framnes, björg og flóðvik þín
Í faðm sèr hug minn toga!
Hvar stenzt öll prýðin eins vel á
Við insta botn og fremst við sjá?
Hvar sè eg fleiri fjöllin blá
Og fegri marar voga?

A þèr eg ungur ást hef fest,
Sem aldrei skyldi dvína,
Og opt mig sástu sumargest
Við sjávarströndu þína;
Svo kem eg enn og finst alt frítt,
Svo fornt og þó um leið svo nýtt,
Og því skal þessi bragur blítt
Þèr birta kveðju mína.

Við himin *Súlur* hefjast fjær,
Þær hlífa tveimur dölum
Og o'n úr hvorum elfur skær
Að ósi rennur svölum;
Sú mæta sveit er mèr í vil
Og *Múlafjall* er dala skil,
Þar dvelur sumardís við gil
Í djúpum fjalla sölum,

Eg *Þyril* sè, sem hvassbrýnn hefst
Með hrjósturgráum kolli
Og brattan *Geirshólm* grænan efst
Á græðis lygnum polli,
Og *Þyrilsnes* með hamra horn,
Þar háði blóðdóm öldin forn
Í skjóli bjargs, svo skemt varð norn,
Er sköpum slíkum olli.

Þar *Hörður* fèll og Harðar lið
Svo hnekt varð bygðar grandi,

En minna það eg vikna við,
Þótt veifðu lögin brandi
Og ránsmenn feldu' í heiptar ham,
En hug minn ætíð fast það nam,
Þá brúður Harðar sorgfull svam
Með sveina tvo að landi.

Og dáðfröm kleif upp dóttir jarls
Með drengjum Þyril stríðan
Um hættan einstig hrikafjalls,
Þar *Helgu-skarð* er síðan;
Þar leit hún nið'r af nýpu skör
Á nes og hólm og svika vör
Og hugstór þerði harmtár snör,
Er hrundu á vanga fríðan.

Ef skuggum fyrir blóðgum brá,
Sem beint úr fornöld renna,
Á svipstund þeir mèr svífa frá
Um sólskins dag sem þenna;
Þá ásýnd heims er undurskýr
Og öllu lífi fögnuð býr
Og lætur fögur, ljós og skýr
Sín ljúfust áhrif kenna.

Eg horfi fram á fjarðsvið víð,
Þar fugla mergð í næði
Sig baðar dátt með buslin tíð
Í bjartskínandi flæði.

Hin djúpa röst, sem deilir lönd,
Í dásemd fyrir mèr er þönd
Svo langt sem fjöll á hvora hönd
Sig hefja fram með græði.

Þar strönd mót ströndu blasir bezt
Hjá breiðu fjarðar mynni,
Og *Akrafjallið* öndvert sèst
Við *Eyrarfjall* á hinni.
En innar nyrðri fjarðströnd fer
Með fagurhlíð að birtast mér,
Þar kyrkjustaður kunnur er
Hjá kyrru sævar inni,

Við kyrkju hèr er *Hallgríms* gröf
Og Hallgríms lind í túni,
Sem blessun sína gaf að gjöf
Sá guðs vin dygðum búni,
Og vildi að líkn hún lèði drótt
Sem lífsmynd skær af hinnar gnótt,
Þar huggun öðlast, heilsu og þrótt
Inn hreldi, veiki og lúni.

En sú, er æðri svölun gaf
Og svall mót heimsins ergi,
Sú lind, er skáldið laust með staf
Úr ljósu trúar bergi,
Sú krapta-lind hins kristna móðs
Rann kynslóð hèðan fram til góðs,

Svo fagurtær í fylling óðs
Að fegri getur hvergi.

Hvort sat hann fyr und fjalli hèr
Við fuglasönginn blíða,
Sem heillar þann, er hlusta fer,
Svo hugur berst ei víða?
Og undi' hann sæll um eina stund
Sem einbúinn í sínum lund,
Þá ómur kvað frá æðri grund,
Þar ár sem stundir líða?

Það veit eg ei, en hans í hlíð
Mèr hugljúft er að ganga
Og kveða með um fjöllin fríð
Og fögur blóm, sem anga.
Þar lít eg yfir láð og sæ
Í ljóma, sem eg skýrt ei fæ,
Og hreinan finn þar blíðheims blæ
Mèr baða hlýtt um vanga.

Þig, fjörður kæri, finn eg nú
Með fegurð sumars rètta,
Er logni svæfður liggur þú
Við lagar sand og kletta.
Í bjarma sólar blálopt hlær,
Svo brosir aptur fold og sær
Og fagurgyllist fjær og nær
Þín flötin rennislètta.

En, sonur hafs, eg sá þig og
Í sollnum jötunmóði
Er hamröm veðrin hverfðu vog
Í hvítu löðurflóði,
Þá mjallrok gaus við hlíð með hvin
Og hvítfaxandi sást þitt gin,
Svo augljóst varð, að áttu kyn
Af *Ýmis* fornu blóði.

Þess minnist eg og meira því
Eg mikla þína blíðu,
Er vinar bros þú veitir hlý
Í veðri sumars fríðu
Og fegrar eins og fremst þú mátt
Þitt fjöllum gyrða ríkið blátt
Og geð mitt lætur gerast kátt
Og gleyma böli stríðu.

Svo mikið hefir mèr þú veitt
Og margfalt vegar yndi,
Að sjaldan fann eg annað eitt,
Sem öllu kærra myndi.
Sú gleðin, opt sem gafstu mèr,
Hún gjaldist tífalt aptur þèr
Frá yztu brún, sem augað sèr,
Að insta þínum tindi.

---

## Uppi á Súlum.

Stend eg á tignum tindi,
Táhreint er loptið bláa,
Á sólheiðri *Súlna*
Svifhæð björgum yfir.
Víðljóst er haustdags heiði,
Hóp fjalla lít eg snjallan,
*Heklu* með háum jöklum
Himingnæfum und snævi.

Blasa við brattir ásar,
Björt djúp, hvassir gnúpar,
Heiðavötn og hæðir,
Hafið gulli stafað,
Eyjar íturháar,
Árdrög sólu gáruð,
Eldhraun, óbygð kalda
Yzt í bláu mistri.

Ljósar yfir landið Ísa,
Líður svalur og þýður
Haustblær mèr um hlýra,
Hvað finn eg lopts í baði?
Mig á fjalltind fögrum
Faðmar úr himinbaðmi
Fannskær, frelsi borinn,
Föðurland, þinn andi.

# Laugardalur.

Vèr riðum und kvöldsól í *Laugardals* lönd,
Hún ljómaði' af rauðbrúnu felli
Um engjanna grasflæmi geysi vítt þönd,
Um glampandi silfurskær vatnanna bönd
Og bláfell við blómgaða velli.
Á logbjörtu kvöldi við lóunnar söng
Vèr liðum á vegbrautum fríðum
Í lífgandi skógblæ um laufrunna göng
Með Laugardals algrænu hlíðum.

Vèr fórum með bygðum þar fólk var við slátt,
Og felt lá þar kafgras í slægjum;
Um fjallbrekkur hópaðist kvíafèð kátt,
Í kvöldlogni þyrluðust bláreykir hátt,
Og bjarkilminn lagði frá bæjum;
Og hinzta lèk sólbros á sveitalífs ró,
Er sjónina þýðlega dvaldi,
En áfram var haldið, því eptir var nóg,
Unz aptur oss skógurinn faldi.

Og fákum vèr hleyptum og hófdynur gall
Á hlemmibraut valllendis grundar,
Að eyrum þá niðurinn álengdar svall,
Sem ólgandi nálgaðist vatnsiðu fall,
Það birtist oss brátt innan stundar,
Þar fossaði *Brúará* freyðandi kvik
Af faldhvítra straumbrúða dansi,

En skjótt bar oss yfrum í andspænis vik,
Sem umgirðist bjarkrunna kranzi.

Og dagur var liðinn, vèr bárumst um bygð,
Af braut vorri máttum vèr skoða,
Er hauðurs ból öll voru heiðrökki skygð,
Frá *Heklu* reis mánans hin bleikhvíta sigð
Á bláhimni reifðum í roða.
Oss faðmaði svalandi sumarkyrð heið,
Vèr svifum úr skóggeimi víðum
Af unaði fangnir frá inndælli leið
Með algrænum Laugardals hlíðum.

Vèr hurfum að náttstað, þar hvíldin bauðst vís,
Að hvítmekkjum sveipuðu bóli,
Þar óðul á *Geysir*, er örsjaldan gýs,
Því aldraður djúpt niðri værðina kýs
Sá hrörnaði hveranna sjóli;
Þar reykur við reyk sig frá hauðrinu hóf.
Vèr hrósuðum svefnhöfga blíðum,
Og fagurt í draumblæjur dýrðin sig óf
Frá dagför með Laugardals hlíðum.

Svo kættist eg það sinn við Laugardals lönd,
Er ljómuðu í sumardýrð skærri
Hin glitrandi skóghlíð og grasflæmin þönd
Og glampandi, silfurskær vatnanna bönd
Og bláfellin blómvöllum nærri.

Og hendi það síðan að hugur minn snýr
Að hásumar-stöðvum svo fríðum,
Þá líður um hann eins og laufvindur hlýr
Frá Laugardals angandi hlíðum.

---

## Sumar á Fróni.

Algrænu túnin og engjar og hlíðar,
Árvötn og hvammar og dalverpin fríð,
Sjórinn, fjöll, eyjar og útsjónir víðar,
Inndælir morgnar og sólsetrin blíð.

Hrímlands á sumri mig hrífa þau mætin,
Hefir það fleiri, sem lengst munu kær,
Meðan að standa hér sólfjalla sætin
Snæþökt í heiðbláma tigin og skær.

Man eg það áður á erlendum ströndum
Órór eg gerðist og langaði heim
Hingað frá blómguðum hagsælda löndum
Heim yfir öldunnar brimsollna geim.

Glitgrænn var skógur og land alt í ljóma,
Ljósgulir akrar við bláhafsins rein,
Garðar með rósanna roðnandi blóma,
Reifuð í frjóskrúð hver aldinmeiðs grein.

Vildi' eg þó heim frá því sumrinu svása,
Sjá vildi' eg aptur, hve brostu mèr við
Hafs þíns á millum og ísjökul-ása,
Ættlandið góða, þín heimhaga svið:

Algrænu túnin og engjar og hlíðar,
Árvötn og hvammar og dalverpin fríð,
Sjórinn, fjöll, eyjar og útsjónir víðar
Inndælir morgnar og sólsetrin blíð.

---

## Úr landsýn.

Sem örskot fley vort flýgur
Flóðs um völl,
Við sjónhring særinn stígur,
Síga fjöll;
Með segla- og gufugang
Borðjór veður,
Brimhrönn treður
Út á reginrasta vang.

Ó, svali sævar andinn,
Sæll kom þú;
Þinn blærinn salti blandinn
Berst oss nú;
Þitt drifið döggu líkt
Vèr á kinnum
Vorum finnum
Hjúfra svalt og heilsuríkt.

Í voðir vindar smella,
  Vænkar för,
Og hrannir froðufella
  Fast við knör;
Þar hverfa jökulhvel
  Undir háa
  Bylgju bláa,
Foldin kæra, farðu vel!

Lif heil á bak við brimin
  Byrgð í sjá!
Nú að eins haf og himin
  Horfum á;
Vèr berumst fjær og fjær;
  Jörmunþungum
  Bylgju-bungum
Veltir úthafs víður sær.

---

## Stökur.

1.

Grundin vallar glituð hlær,
Glóir á hjalla og rinda,
Sólar halla blíður blær
Blæs um fjallatinda.

2.

Látum skotið fari á flot á fagran græði,
Vindur lotinn varpar mæði,
Varla er brot á Ránar klæði.

---

## Gamanvísur við slátt.

Orfið: Hönd, mig sveigðu hart og fast.
Ljárinn: Hví, hví, hví, hví, hví, hví!
Orfið: Dátt í mèr nú dynur kast.
Ljárinn: Deyðum stráin, hví, hví;
Heldur grænan her eg slæ
Enn hangi í smiðju, hví, hví!
Orfið: Sveiflast eg og sóma næ,
Segðu aptur: hví, hví!
Bæði: Gott er að segja hví, hví, hví!
Höndum vinnumannsins í.
Hrífa: Áður stóð eg upp hjá vegg,
Ekki sagði eg kra, kra!
Valinn sópar væn um legg
Vinnukonan, kra, kra!
Hèr í slægju heyrist raus:
Hví, hví, hví, hví, kra, kra!
Tæti jeg með tentum haus
Töðugrasið, kra, kra;

---

## Veðurblíða.

En hvað náttúran er í dag
Orðin fögur og blíð í hótum,
Lofgjörðar færir ljúfan brag
Lífið og krýpur Guðs að fótum;
Flytja söngfuglar sætast lag
Svífandi' um lopt á vængjum skjótum.
Sem þeir nú líða um loptin hrein
Með lèttu hjarta' og gleðikvaki,
Hristu' af þèr, sál mín, harm og kvein
Með himinbærðu vængjataki.

---

## Haflogn.

Blundar Rán á beði köld,
Á bláa stirnir lána,
Blikið frána um blíðast kvöld
Breiðir hyrnan mána.

Feigð um vogar dimma djúp
Dirfist ei að kreika,
Tungls við loga í hvítum hjúp
Hafsins meyjar leika.

---

## Lækurinn og fjólan.

Lækur hægum líður straumi,
Lágt við bakkann unir smá
Fjóla sælum sólskins draumi,
Svalar öldur líða hjá;
Iðan bláa bunar tær,
Bjartrar skugga endurslær,
Tómri mynd, en meira biður
Munarsætur lækjar niður,

Lækurinn:

Sèrðu ei bárur silfurskærar
Sólu móti hefjast allar?
En hve mildu munar skini
Mynd þín sjálfrar á þig kallar!

Heyrirðu' ekki unaðsværan
Óma niðinn bökkum undir,
Döggu höfga sem þig svæfir
Sólarvana um næturstundir?

Fjólan:

Sè jeg kvíðin strauminn stríða
Og stynja heyri niðinn væra;
Vermir á fögrum foldar barmi
Fjólu hýra sólin skæra.

Austanblær á morgni mærum
Mjúkur fyllir veðra höllu,

Blessar og faðmar blíðum kossi
Blómin öll um græna völlu.

Lækurinn:
Hefurðu' ei litið lauga iðu
Lokka svarta, hálsinn bjarta,
Brjóstin meyjar, limu ljósa
Líka mjöll í straumnum skarta?

Fjólan:
Risin drós úr djúpi ljósu —
Dropar líða af hári niður —
Breiðir snjóvga blæju' á stráum,
Blunda eg skugga hennar viður.

Lækurinn:
Sofðu við mitt brjóstið blíða,
Björtu skal eg daggar flóði
Sveipa þig og votri' í vöggu
Vagga þèr, en kveða í hljóði.

Fjólan:
Halda rætur mèr við moldu,
Meinuð er ást á læki hreinum,
Til mín komdu og faðmi feldu
Fjólu, sem er kær þèr einum.

Upp á bakka lækur líður,
Lykur örmum fjólu blá,

Ástum magnast straumur stríður,
Strax hin veika brotnar þá.
Klöknar lækur, liðna ber:
„Litla fjólan unni mèr,
Ástargjarn eg ástar beiddi,
Æ, mitt faðmlag hana deyddi“.

---

## Svölurnar.

Í nótt komu svölurnar sunnan,
Eg sè þær á morgni,
Nýrisinn röðull þær kyssir
Frá rósfögrum skýjum.
Vorfuglar inndælstir allra,
Með ástþýðum rómi
Syngið og blikvængjum baðið
Á bjarklimum votum!

Varð yður vegurinn langur
Um víðbláins geima,
Hátt yfir myrkviðar múlum
Og marar röst kaldri?
„Oss bar hin ljúfsára löngun
Á lètfærum vængjum
Ástar í heimkynnin hlýju,
Að hreiðrunum gömlu“.

Velkomnar verið að sunnan,
Þér vænghröðu svölur!
Hvarflið um húsþök og skóga
Með hjartblíðum kliði,
Söngljóðum saklausrar ástar
Á sólhlýju vori.
Kalt eða kulnað er hjarta,
Sem klið þeim ei fagnar.

---

## Vorvísur.

Vordagar blíðir, unga ár,
Ilmsæti blær,
Blómskrýddu hlíðar, himinn blár,
Heiðskír og tær,
Þú gullöld árs, sem unun býr
Og yngir hug,
Svo lifnuð önd við ljósi snýr,
Lyptist á flug.

Svartþoku hrygðar raka rjúf,
Rósfingruð dís,
Sem blám af austurleitum ljúf,
Ljósvængjuð rís,
Ó, blessa nú um bygðir lands
Hvert blóm og strá,
Hvert vonar blóm í brjósti manns
Sem bærast má.

Náttúran fögur, eilíf, ung,
Eg elska þig,
Hvort lífs míns kjör eru létt eða þung,
Þú lífgar mig,
Ef sjúkt er hold og sál mín hrygg
Þú svölun lèr,
Sem barn við móður brjóst eg ligg
Á brjóstum þèr.

Þú kallar og í kyrran lund
Eg kem til þín,
Að heilsa sól í morgunmund,
Þá mærust skín;
Ó, bú þú, móðir, barni frið
Und bjarka sal,
Með sætum nið og söngva klið
Í sumardal.

---

## Brúðsöngur vorsins.

Þá und vorhimins baðm
Breiðir foldin sinn faðm,
Sem að faldinn er ljósgrænum hjúpi,
Þá er árdagur skær,
Þá er aptaninn vær,
Þá er unun í hjartnanna djúpi.

Ó, þú elskunnar tíð,
Þegar almóðir þýð
Helgast ástum á frjósemdar beði,
Þegar barnanna hljóð
Verða blíðsöngva ljóð
Yfir brúðfarar hátíða gleði.

Því að löngunarhýr
Ofan *Ljóshiminn* snýr
Ljúfrar *Jarðar* að ástþrungnum barmi;
Skjálfa bjarkir og strá
Hrolli himneskum þá,
Þegar hún vefst að brúðgumans armi.

Hauður fagnar og flóð
Og sinn alsherjar óð
Kveður alt, sem að andar og lifir,
Og úr loptinu blá
Glæstum gullskýjum frá
Hrynja gleðitár brúðhjónin yfir.

Þá ber aptann og ár
Röðul-róskrýndar brár,
Þá er rósemd um dagana ljósa,
Nóttin vorblíð í værð
Nemur náttgalans mærð
Yfir nýsprottnu knöppunum rósa.

Ást við ást verður fest
Og þá unnast mun flest,

Þegar ástkliður vorfugla hljómar,
Undir laufgrænum hlyn
Hittir heitmey sinn vin,
Þegar heiðgullna kvöldstjarnan ljómar.

Ó, þú blíðasta vor,
Öll þín blessunar spor
Eru blómstigir elskunnar hreinu,
Og sem árdögg þín gljár
Tindra gleðinnar tár
Þar sem tvent hefir orðið að einu.

---

## Nótt.

Nú byrgir sólu báran köld,
Bláfögur hefjast næturtjöld,
Liðinna ljós þar vaka,
En friðargeislum máni mær
Mildur um vötn og skóga slær
Og silfrar svörðinn raka;
Móðar, hljóðar
Dróttir blunda dags til funda,
Sneyddar hörmum,
Faldar Drottins friðarörmum.

Ó, blessuð húmsins blíða værð,
Bezt sem að friðar hjörtu særð,
Er þrautir dagsins dvína,

Nú hefir þagnað niður hans,
Nótt! — þú dagur hins innra manns —
Guðs frá þèr geislar skína;
Niður friður
Helgur, blíður af himni líður
Engill dvala
Yfir jörðu svífur svala.

Alt fær hið liðna lifnað þá
Og ljúfir svipir berast hjá
Við mánabjarmann blíða,
Fjarlægðar- hug ei fjötrar -bil,
Og fyrr og nú er ekki til,
Eilífðin opnast víða,
Ljómar, ómar
Stjarnafjöldi á fríðu kvöldi
Nú með listum
Sem á Edens aptni fyrstum.

Fjölstirndi himinn, bláa braut,
Barn eg fegurðar þinnar naut,
Og lof þitt tæpti tunga,
Þá hjá mèr löngun hreyfðist sú,
Að háleit, fögur, djúp sem þú
Yrði mín sálin unga;
Væra, skæra
Skuggsjá anda alsvaldanda,
Dýrðarlindin,
Sólarskjöldungs skuggamyndin.

Til þín á næturloga leið
Ljósvængjum borinn þreytir skeið
Frá jörðu heimfús hugi —
Samkviðum bjartra sólna her
Syngur þjótandi' um eyru mér
Á hæstu himinflugi —
Flýgur, hnígur
Guðs að stóli, geislabóli
Alvalds bjarta,
Eilífi faðir, að þínu hjarta,

---

## Morgunn.

Á norðurvegu nóttin flaug
Niður í kalda marar laug,
Gullfagur bjarminn austri í
Eldrósum glitar morgunský;
Hafrænan þýða, himinrunna
Hóglega blæs um leiðir unna,
Ylgeislum vakin bærast blóm,
Bergmálar lopt af fugla hljóm.

Íspakta fjall með árdags blys,
Altari Guðs við morgunris,
Heimskyrkju víðrar hvelfing skær,
Himininn blái, jörð og sær!
Þú Guðs mynd, sól! er geislum vafin
Glóir á snjóvgum tindum hafin,

Með tengdum höndum, kropnum knjám
Kveð eg þig dags á vegi hám.

Skapaðra hluta blómið bjart,
Blessunin jarðar, himna skart,
Hve foldarbygðin fagurt skín
Fagnandi' í dýrðargeislum þín,
Heimkynni líkust ljóssins skara,
Litur og raun ei saman fara,
Grátið, þér himnar, sorg og synd
Sólfagra dapra lífsins mynd,

Því vesæll dýrkar maður mold,
Myrðir andann, en seður hold,
Eins og moldvarpa, fold sem fól,
Firrist hann lífsins dag og sól,
Með sárum þrautum safnar auði,
(Að sveitadropum glottir dauði)
Aflvana bræðrum eykur kíf, —
Andlegur dauði' er vondra líf,

Sakleysið grætur, grimdin hlær,
Gullskreytt ráðvandan þjófshönd flær,
Og tungan ásta hræsnar hót,
Sem höndin blóðug vitnar mót;
Harðstjóra kúgum, klerka lygi
Með klækjum hleður myrkra vígi,
Níðbraut af dreyra helgum hál
Af himni kallar reiðibál.

Leiptraðu, sól, á blárri braut,
Blíðgeislum vermdu foldar skaut,
Fegraðu rotnun, feigðar dal,
Feldu gullstafi' á lífsins val!
Tindraðu gegnum tárin björtu,
Tendraðu von í myrkri svörtu,
Elskunnar vertu ímynd trú,
Efra sem fegur skín enn þú.

Helgaðu' og vermdu hjarta mitt,
Hugurinn greini við ljósið þitt
Sannleikans þjóð frá svartheims drótt,
Sjáenda dag frá blindra nótt.
Árborna ljós, sem austrið roðar,
Andanna dag þú jafnan boðar,
Leiðtogi dýrðar landi frá
Leiddu mig þínum vegum á!

---

## Huggun vorsins.

Nú vorið er komið með unað og ást,
það innir mèr huggun, er sjaldan brást.
Svo gekk eg áðan í græna hlíð,
því geð mitt þvingaði sorgar stríð.
þá mælti sólin við morguns ár:
„Maður, hví syrgirðu? þerðu þín tár“.
Með blíðu kvað himinn: „Eg brosi við þèr,
því brosirðu ei þá til samlætis mèr?“

Og fuglarnir sungu: „Nú syrg ei meir
Á sælunnar árstíð vort gleðikvak heyr,
Frá ástarhlýju hreiðrunum smá
Og hátt undir skýjum við rósmorguns brá“.
Oll vorblómin horfðu sem vinir á mig:
„Við erum send til að hugga þig
Frá almóður-hjartans ylnuðu rót,
Að ilma brosandi þèr við fót
Sem lífsins og elskunnar yndisgjöf,
En ei til að hnípa á þinni gröf“.
Hinn gullfleygi *Vestanblær* vörum upp lauk,
Er vanga mína hann þýðlega strauk:
„Þá sorg, sem þig mæðir, þú mèr skalt fá,
Jeg með hana flýg út í himininn blá“.
Hin bunandi lind kvað með lágum eim:
„Þig legg á bakkan hjá mèr og dreym
Unz sorgirnar vaggast og svæfast í ró
Við suðandi niðinn og laufþyt í skóg“.
Svo hýrgaðist aptur mín angraða sál
Við eilífa kærleikans huggunar mál
Og náði sèr barnglöð frá neyð og harmi
Á náttúrunnar heilaga barmi.

---

## Skógarhvildin.

Nú vakna eg alhress í ilmandi lund,
Sem ómar af vorfugla kliði,
Hèr fèkk eg að sofna þeim blíðasta blund
Við blæinn, sem þaut upp í viði.

Þar undir mèr breiddist hin iðgræna jörð,
En yfir guðs blásalur heiði,
Og hádegissólin mèr halda nam vörð,
Er hvíldi' eg und skyggjandi meiði.

Svo fjær var mèr heimur með sorgum og synd,
Er svaf eg á forsælu beði,
Mig hræddust ei fuglar nè fagureyg hind
Í friðarins sakleysi og gleði.

Upp! glaður nú rís eg af grösugum blett
Og geng meðan endist mèr dagur,
Minn hugur er kátur og hjartað er lètt,
Og heimurinn víður og fagur.

---

## Kvöldhugsun.

Nú skógar-beltin blána í aptanmóðu
Og ber upp hátt sem langar raðir fjalla;
Hvað vilja þau í hug mèr endurkalla,
Kvöldsólar geislum kyst í veðri góðu?

Eg horfi á velli, vötn og þorpin hljóðu,
En værð mig flýr, er hvíldin laðar alla,
Og aptanklukkur angurblíðar gjalla
Úr vesturgeim, þar glóa skýin rjóðu.

Nú skyggir fold, er röðull rann við skóga;
Hve rökkurfuglinn blítt í lundi gelur!
Hve tindrar Venus glatt með geislum munar!
Þeir yndistöfrar eigi samt mér fróa,
Því andi minn á hnúkaláði dvelur,
Þar þungur foss í þröngu gili dunar.

---

## Haustkvöld.

Vor er inndælt, eg það veit,
Þá ástar kveður raustin,
En ekkert fegra' á fold eg leit
Enn fagurt kvöld á haustin.

Aptansunna þegar þýð
Um þúsundlitan skóginn
Geislum slær og blikar blíð
Bæði um land og sjóinn.

Svo í kvöld við sævar brún
Sólu lít eg renna,
Vestan geislum varþar hún,
Sem verma, en eigi brenna.

Setjumst undir vænan við,
Von skal hugann gleðja,
Heyrum sætan svana klið,
Sumarið er að kveðja.

Tōlum við um trygð og ást,
Tíma lōngu farna,
Unun sanna, er aldrei brást,
Eilífa von guðs barna.

Endaslept er ekkert hèr,
Alvalds rekjum sporið,
Morgunn ei af aptni ber
Og ei af hausti vorið.

Oflof valið æsku þrátt
Elli sæmd ei skerði;
Andinn getur hafizt hátt,
Þó hōfuð lotið verði.

Æska, jeg hef ást á þèr,
Fyr elli knè skal beygja,
Fegurð lífs þó miklist mèr,
Meira er hitt: að deyja.

Elli, þú ert ekki þung
Anda guði kærum;
Fōgur sál er ávalt ung
Undir silfurhærum.

Spegilfagurt hneigð við haf
Haustkvölds sólin rauða
Bólstri ránar bláum af
Brosir nú við dauða.

Svo hefir mína sálu kætt
Sumarröðull engi,
Er sem heyri' eg óma sætt
Engilhörpu strengi.

Fagra haust, þá fold eg kveð,
Faðmi vef mig þínum,
Bleikra laufa láttu beð
Að legstað verða mínum.

---

## Náttúruraddir.

Sit eg undir eikum hám
Hjá ægi blám.
Heyri bylgjusog við sanda
Sér við laufaþytinn blanda.

Fuglar milli dilla dátt
Með dýrðar slátt;
Heyri' eg óminn þennan þrenna
Þægilega saman renna.

Og mitt litla ljóðið, þú,
Sem lagast nú,
Því mátt þú ei enduróma
Alla þessa ljúfu hljóma?

---

## Björk.

Björkin mín væna, í vatninu blá
Á vormorgni fögrum þig speglast eg sá.
Þá dögglitir fuglar á glitrandi grein
Gólu mót sól, er í austrinu skein, —
Þá blíða mig dagdrauma dreymdi.

Um sumarnótt væra þá silfraði skóg
Hinn svífandi máni í lágnættis ró,
Á náttgalahljóminn eg hlustaði rótt
Og hjarta mitt kyrðist um þögula nótt,
Þá hrygð minni hjá þèr eg gleymdi.

Á hausti þú lèðir mèr hæli og skjól
Í hreti þá kólguský byrgðu fyr sól,
Og laufblöð í storminum feyktust um fold,
En faldurinn græni var hniginn að mold,
Þá dauft var um dalina auða.

Nú skelfurðu vetrar af hreggbyljum hrist
Og hver mun nú líta við barlausum kvist?
Það fölnar í dag, sem var fagurt í gær,
En frosnum á baðmi mitt vonarlauf grær,
Þig ljúfasta lít eg í dauða.

---

## Vetur og vor.

Á fjalla tindum fríðum
Fönnin hvíta skín,
Gróður í grænum hlíðum
Glitrar snjór þar dvín,
Þar hjá lækjum lifna blóm,
Og í runnum fugla fjöld
Fögrum kveður hljóm.

Vetur efra' eg eygi,
En hið neðra' eg sè,
Mey sem höfuð hneigi
Hýr í föður knè,
Hallast vorið vetri nær,
Karls við freðið klakaskegg
Kærust dóttir hlær.

---

## Unadalur.

Samtal.

Hann:

Úr kleifunum grænum á kvíanna ból
Nú kvöldspakur búsmalinn rennur,
Í heiðríkju bláma hin sígandi sól
Við snjóhvítan jökulás brennur.

Kom, ást mín, og setjumst und fjallshlíðar fót,
Er fjárbjöllur hringja í runnum,
Í brekku við fossinn, sem blasir oss mót,
Við bæði því sæti mest unnum.

Vel man eg þann aptan í *Unadalshlíð*,
Er eygló, sem nú, bar við tinda,
Og ljósbláir reykir í logninu síð
Sèr lyptu við iðgræna rinda.

Hún:

Það kvöld heyrðist hundgá og hóað var í dal,
Af hófslætti titruðu grundir,
Af baki fór hjarðsveinn, þar bergið iðu fal
Og beljaði straumurinn undir.

Hann:

Þar vöktum við saman um sumarnótt
Á svimháum gljúfursins barmi,
Sem bróður að hjarta þú hallaðist rótt,
Og hvíldir á málvinar armi.

Og morgunsins þoka frá láði þá leið
Svo langt við af fellinu sáum
Í fjarlægar sveitir, um hálendin heið,
Og hafið með ströndunum lágum.

Hún:

En þegar um grængróinn víðirvöll
Eg vöknuð sá lömbin hin ungu

Og dagurinn skein yfir fagurblá fjöll
Og fuglar í hlíðunum sungu.

Þú blessaði dalur, á bjargi jeg kvað,
Guðs blíðgeislar yfir þig streymi;
Þeim tveimur, sem unnast, þú opnaðir stað,
Til yndis í friðsældar heimi.

Í faðmi þèr elskunnar fögnuð þú ber,
Sem fjallanna varðskuggar hylja;
Svo veit oss um aldur að una hjá þèr
Og aldregi framar að skilja.

„Nei, aldrei!" svo kvaðst þú og kystir burt tár
Með kærleik af augum mínum,
„Því hèr vil eg lifa mín æfinnar ár
Og eldast í faðminum þínum".

Hann:

Nú fríð leika systkin hjá föður síns knjám,
Hve fegrar þau liturinn rjóður!
Og báðum skín ástin úr augunum blám,
Er ánægða kyssa þau móður.

Hún:

Og líttu við fjöllin hinn deyjandi dag,
Hve dalinn með geislum hann kveður,
Hann sýnir vors æfidags sólarlag,
Eins síðast sem fyrst hann oss gleður.

---

## Vorsöngur.

Nú að norðurheim svölum
Röðull suðurs úr sölum
Stefnir bjartheiða braut;
Hjarans hrímkuldi þánar,
Hýrnar loptið og blánar,
Fríðkar grænkandi foldar skaut.

Líkt og langþreyðir gestir
Koma lóur og þrestir
Yfir brimsollin sjó;
Losnar lífið úr böndum
Upp um land og á ströndum,
Sèst við hafsbrúnir sigling nóg.

Hrynja hlauplækir geystir,
Hlakka frostviðjum leystir
Dátt með drynjandi nið,
Ryðja straumi með ströngum
Stór-ár brestandi spöngum,
Óma fjöll þeirra frelsis klið.

Löng var kyrsetu kreppa,
Nú vèr kætumst að sleppa
Út úr þvingandi þröng,
Og und ljóshimni leika
Og um landið að reika
Viður fuglanna fagran söng.

Andar vorblær um vanga,
Vellir blómgaðir anga,
Rásar hagakát hjörð
Lètt um lyngvaxnar bringur
Löngum hóar og syngur
Kátur hjarðsveinn, sem heldur vörð.

Svanir sömu' og í fyrra
Synda' um dalvatnið kyrra,
Ljósri speglast í lá,
Þar á höfði vèr sjáum
Fjöll í glansfleti gljáum
Fönnum blettuð og fagurblá.

Sveit, fjöll, sjóstrandir langar,
Sundin, eyjar og tangar
Fagna fjölgunar tíð,
Alt er kvikt og á kreiki,
Knýst við störf eða leiki,
Streyma vorljóð frá strönd og hlíð.

Alt, sem ylgeislar bifa,
Vill nú elska og lifa,
Snerta hjörtu vor, sól!
Syngið aldnir með ungum,
Öllum hljómi frá tungum
Vegsemd honum, sem vorið ól.

---

## Fossinn minn.

Eg kem til þín, minn foss í fjarðar klettum,
Að finna þig um miðja sumartíð,
Eg heilsa þèr, úr höptum leystur þèttum,
Sem hèldu mèr við skólabekk um hríð;
Hjá þèr er náttúrunnar fró og friður,
Eg fleygi mèr í tóna hjá þèr niður.

Þín svölun þrengir mèr til hjartans heita,
Þinn hrynjandi mèr færir daggar bað;
Þú brattar grænur búinn ert að skreyta,
Og bezt grær alt, sem næst þèr teygist að,
Því úða reykur sífelt á það sitrar
Og silfurhnöppum strá og mosa glitrar.

Eg horfi á þig; sem vættur skær þú skartar
Við skuggabjargið, álfa sölum nær,
Og um þíns fannskrúðs fellingarnar bjartar
Slær friðarboga litum sólin skær,
Og þú ert skáld, þín gígja sífelt glymur
Hjá græði, sem við fjöruborðið ymur.

Hèr einverunnar andinn ríkir blíður,
Hann upp af þínum vötnum lyptir sèr,
Sú unaðsæld, sem yfir staðnum líður,
Mig aptur gefið hefir sjálfum mèr;
Hvað bliknað var þú blómgar hèr í næði,
Því blessa eg og lofa þig í kvæði.

Um hádag stundum hingað mun jeg vitja
Og halla mèr að þínum mosareit,
Af þinni sólskins döggu drifinn sitja
Og dreyma það, sem enginn maður veit,
Við þagnarlausa hljóminn þinna hranna
Í himinrósemd fjærri vegum manna.

---

## Fram til fjalla.

:|: Fram til fjalla :|:
Fagran heyrði' eg óð,
Sætum salir Huldu
Samkveð rómi guldu
:|: Á heiði lengi :|:
Hlustandi eg stóð.

:|: Hjarðmey leit eg, :|:
Hún mig ekki sá,
Með laginn lokk und húfu,
Lèk í vindi skúfur,
:|: Hvíta fætur, :|:
Hèlt á víðitág.

:|: Söng hin unga :|:
Sat á klettabrún:
„Nú er sumar í sveitum,
Snjór er horfinn af leitum,
:|:Grösin glóa :|:
Um grundir, haga' og tún“.

:|: „Fagurt roðar :|:
Fyrir morgunsól,
Birtir um bláa hnúka,
Í bygðum tekur að rjúka,
:|: Dagur fagur :|:
Um dali skín og hól“.

:|: „Söngi fugla :|:
Sætum vökt eg fer,
Eins og endurborin
Út um dal á vorin,
:|: Vin að finna :|:
Vænt um þykir mèr“.

:|: „Senn af tindi :|:
Sól um dalinn skín,
Nú er sumar í sveitum,
Sumar í brjóstum heitum
:|: Komdu kæri, :|:
Kalla eg til þín“.

---

## Fyrsta lóukvak.

Í apríl var hlánað úr helgadd og snæ,
Mig heillaði veðráttan þýða
Og *Esjan* frá miðju var bláum með blæ,
En brúnleitt var láglendið víða,
En brattar um gnípur í hvítleitum hrönnum

Sig hnappaði þokan og lá yfir fönnum,
Og engin hreyfðu sig andkul stirð
Í unaðsljúfri kyrð.
Á háholti stóð eg sem hniginn í draum,
Þá heyrði eg fugls röddu blíða;
Eg lagði við hlustir og gaf henni gaum
Og girntist enn lengur að bíða;
Það var lóunnar kvak, sem úr loptinu bar,
Eg leit mig í kring og vissi' ei, hvar það var,
Hið fyrsta lóukvak, sem gall úr geim
Með gleðiboð um vor í norðurheim.

Svo kom það við endalok illviðra grands
Um æginn til heimveru-staðar
Það vængborið óskbarn hins einmana lands
Í úthafi norðurs við jaðar.
Það kvaddi þau suðrænu, sólbjörtu löndin,
Með segulkrapt teygði það fósturlands ströndin
Og nú við hraunin og holt og mó
Það hjörtum veitir fró.
Þó veit eg í löndunum sunnar er sagt,
Að sorglega heylóan kveði,
Þar vorið sitt hljómfagra lag hefir lagt
Við lævirkjans dillandi gleði.
Þar er lóunnar kvak svo sem auðnar hljóð eitt,
En efst upp við norðrið það gleði fær veitt,
Hið fyrsta lóukvak, þá hverfa hjörn
Við hrjóstrin grá það kætir Íslands börn.

## Smaladrengurinn.

Út um græna grundu
Gaktu, hjörðin mín;
Yndi vorsins undu
Eg skal gæta þín.

Sól og vor eg syng um,
Snerti gleðistreng;
Leikið, lömb, í kringum
Lítinn smaladreng.

---

## Systkinin á berjamó.

Sitjum fjalls á breiðri brún,
Báðum okkur skemti lengi
Yfir velli, vötn og engi
Horfa á slegin heimatún.
Við oss fögur bygðaból
Blasa hýrt á kyrru fróni,
Fram er svifin nú að nóni
Hvíldardagsins heiða sól.

Skýin verjast gleðigrát,
Geyr í hrauni lævís tóa,
Syngur hátt í lopti lóa,
Leika' um teiginn trippi kát;
Niðrí dalinn djúpa sjá!
Vatn í ljóma sólar sefur,

Sèrðu' að örninn tylt sèr hefur
Bakkann silungselfar á.

Situr hrafn á háum stein,
Huldumanninn sá jeg skjótast
Bak við hvítan foss sem fljótast,
Skikkja rauð við röðli skein.
Hulinn blárri himinlind
Heyrist mèr að valur glammi,
Vellur spói í votum hvammi,
Jarmar hátt á kletti kind.

Ó, hvað jörðin angar hèr,
Einir þekur grund og víðir,
Lyngið þètta lautu skrýðir,
Móðurfold á borðin ber.
Hèr er, systir, sæla nóg,
Sætur ilmur heiðargrasa,
Sjáðu blárra berja klasa,
Sólarvarma, svarta kló.

Legst eg nú við lækjar straum,
Ljóðar niður blíðu kveini,
Mosavöxnum studdur steini
Heyri eg suðu' í sælum draum —
Sè í bjartan *Álfhól* inn,
Augum þegar lyk eg mínum,
Hug minn ber á bárum sínum
Ljúfi, kæri lækurinn.

---

Rennur sól í gliti gulls,
Gekk mèr heldur bágt að tína,
Vart í askinn vil jeg sýna,
Hann er milli hálfs og fulls,
Þú ert farin fram úr mèr,
Fyltir rósavetlingana;
Gabba máttu mig að vana,
Alt eg verð að þola þèr.

Rökkrið yfir sígur senn,
Svarta lengir hlíðar skugga,
Sólin heima gyllir glugga,
Fagurt er á fjöllum enn,
En af glettnum álfasveim
Ótti samt mèr stendur nokkur,
Veiða kannske vill hann okkur,
Því er bezt við höldum heim.

---

## Miðsumar.

Opt finst oss vort land eins og helgrinda hjarn,
En hart er það að eins sem móðir við barn,
Það agar oss strangt með sín ísköldu jel,
En á samt til blíðu, það meinar alt vel.

Því svartar sem skyggir vor skammdegis neyð,
Þess skærara brosir vor júní-sól heið,
Nú skín hún á frónið vort fátækt og kalt
Og fegurðar gullblæjum sveipar hún alt.

Sjá ljómann um strandir, þar leikur nú sèr
Í ljósinu suðandi bjargfugla her,
Og æðarfugls móðurkvak ómar í ró
Við eyjarnar grænar á lognstafa sjó.

Nú veit eg að engu finst æfi sín löng,
Því alt fagnar hásumar-birtu með söng,
Frá hafströnd að óbygðar hrjóstrugri slóð,
Þar heylóan kveður sín einbúa ljóð.

Ó, skammvinna gulltíð, svo gleðirík þó,
Að gleymt er alt farg, sem mèr veturinn bjó,
Ó, miðsumars himinn, svo heiður og skær,
Að hugurinn glaður þitt endurskin fær.

Mitt ættland! með háfjöll vg hvítskæran foss,
Við himin þú minnist í sólroða-koss,
Og ægir að fótum þèr vaggar sèr vær,
Nú veit eg að elskar þig himinn og sær.

Á ströndunum frammi hjá víðlygnum ver,
Þar vil eg í ljósinu dreyma með þèr
Þinn Jónsvöku-drauminn við svefnlausa sól,
Er svífur um miðnótt við norðurhafs ból.

---

## Sumarnótt.

Sólu særinn skýlir,
Síðust rönd er byrgð,
Hýrt á öllu hvílir
Heiðrík aptankyrð.
Ský með skrúða ljósum
Skreyta vesturátt,
Glitra gulli og rósum,
Glampar hafið blátt.

Stilt með ströndum öllum
Stafar vog og sund,
Friður er á fjöllum,
Friður er á grund;
Heyrist fuglkvak hinzta,
Hljótt er alt og rótt,
Hvíl nú hug minn insta,
Himnesk sumarnótt!

---

## Svanasöngur á heiði.

Eg reið um sumaraptan einn
Á eyðilegri heiði;
Þá styttist leiðin löng og ströng,
Því ljúfan heyrði' eg svanasöng,
Já, svanasöng á heiði.

Á fjöllum roði fagur skein,
Og fjær og nær úr geimi
Að eyrum bar sem englahljóm,
Í einverunnar helgidóm,
Þann svanasöng á heiði.

Svo undurblítt eg aldrei hef
Af ómi töfrazt neinum;
Í vökudraum eg veg minn reið
Og vissi ei hvernig tíminn leið
Við svanasöng á heiði.

---

## Tunglið mitt.

Ó, hve skín þitt andlit frítt
Undan bólstur-mökkva,
Signað tungl, og svífur skýrt,
Silfrar flóka dökkva.
Mèr svo verði vært og frítt
Vil eg til þín flýja,
Sýn mèr dásamt draumland þitt,
Dýrðarheima nýja,
Tunglið mitt og tunglið, mitt,
Tak mig upp til skýja.

Sveimar alt í sæld og ró
Svo sem leyst úr dróma,
Þá þú faðmar fold og sjó
Fríðum töfraljóma.

Eins og hefði' eg óskstund hitt,
Augum hverfur glýja,
Lystislotið lít eg þitt
Ljóssins velli fría;
Tunglið mitt og tunglið mitt,
Tak mig upp til skýja!

---

## Nú er sumar.

Nú er sumar,
Gleðjist gumar,
Gaman er í dag;
Brosir veröld víða,
Veðurlagsins blíða
Eykur yndis hag.

Veðra-höllin,
Vellir, fjöllin,
Vötn og fuglar smá,
Benda blítt og kalla,
Burt með frestun alla,
Lagsmenn, leggið á!

Látum spretta
Spori lètta,
Spræka fáka nú,
Eptir sitji engi,

Orvar víf og drengi
Sumarskemtun sú.

Sveinar prúðir,
Sætar brúðir,
Saman undir hlíð,
Hýrt með glösum hringja,
Hlæja, dansa, syngja,
Signa sumartíð.

Fjalls und fæti
Sumarsæti
Sveipar blómgun hrein,
Vænst er birki' og víðir,
Vel er þeim, sem prýðir
Hatt sinn grænni grein.

Tíminn líður,
Tíminn býður
Sælan sólskins dag,
Yndi er úti' á grundum
Yndi heim þá skundum
Seint um sólarlag.

---

## Ferðavísur.

Um fjöll og dali fríða,
Á fjörugri sumartíð,

Er ljúft sem lengst að ríða,
Þá lánast veðrin blíð.
Ó, ferðalífið frjálsa,
Hve fagnar hjartað þá,
Er gyllir hnúka' og hálsa
In hýra sólarbrá.

Þá ljósglöð syngur lóa
Sín ljóð í morgunblæ,
Er tíð að taka jóa
Við tjaldstað eða bæ,
Og ríða á röku landi,
Þar rýkur döggin skær,
Við eygló alskínandi
Þá öll náttúran hlær.

Hve svipstór sjón af fjöllum
Und sumarhimni blá,
Hve vinalegt á völlum,
Þar vötn mót sólu gljá,
Þar líður leið um vengi
Í ljúfum kyrðar draum
Um skóg og algræn engi
Við árnið, fuglaglaum.

Eg sè þig, fuglinn fleygi!
Við flughátt ský þig ber
Og senn eg sè þig eigi,
En sál mín fylgir þèr.

Ó, fjarlægð fagra og víða,
Nú fyrst eg órór verð.
Hví skal eg búinn bíða?
Senn byrja 'eg mína ferð.

---

## Frjálst er í fjalla sal.

Frjálst er í fjallasal,
Fagurt í skógardal,
Heilnæmt er heiðloptið tæra,
Hátt yfir hamra kór
Himininn blár og stór
Lyptist með ljóshvolfið skæra.

Hèr upp í hamraþröng
Hefjum vèr morgunsöng
Glatt fyrir góðvætta hörgum,
Viður vor vökuljóð
Vakna þú, sofin þjóð!
Björt ljómar sól yfir björgum.

Er sem oss ómi mót
Íslands frá hjartarót
Bergmálsins blíðróma strengir,
Söngbylgjan hlíð úr hlíð
Hljómandi. sigurblíð
Les sig og endalaust lengir.

---

## Háfjöllin.

Þú, bláfjalla geimur! með heiðjökla hring,
Um hásumar flý eg þèr að hjarta,
Ó, tak mig í faðm, minn söknuð burt eg syng
Um sumarkvöld við álptavatnið bjarta.

Þín ásjóna, móðir! hèr yfir mèr skín
Með alskærum tárum kristals dagga,
Und miðsumars himni sè hvílan mín,
Hèr skaltu, Ísland! barni þínu vagga.

Hèr andar guðs blær og hèr verð eg svo frjáls,
Í hæðir eg berst til ljóssins strauma,
Æ lengra, æ lengra að lindum himinbáls,
Unz leiðist eg í sólu fegri drauma.

---

## Eptir regn.

Eptir regnið yndisblá
Eru fjöll, sem vóru grá;
Hálfu grænni grund að sjá
Glitrar vot und silfurbrá.

Elfan regnið vaxin við
Veltur glatt með fyllri nið,
Hrest og fjörgað fold ber snið,
Fuglar hefja gleðiklið.

Hvar sem drúpti blóm og blað
Breyskju þurki vanmegnað,
Himinskúra hellibað
Hresti, nærði' og reisti það.

Þótt við fjallsbrún þar sem lá
Þokan hvít, nú grysjar frá,
Bjarta skafla, björgin há
Bregður sólskins dílum á.

Svörðinn raka signir skær
Sól, en andar fjær og nær
Hreina loptsins heilsublær
Hægur, svalur, ljúfur, tær.

Brosir við mér blámi þinn,
Blíði sumarhimininn!
Yndi, svölun, frið eg finn
Frá þér streyma í brjóst mitt inn.

---

## Í dalnum.

Við sjóinn frammi lengur eg ei undi
Önd mín þráði söng í birkilundi,
Upp frá ægi svala
Einn eg gekk til dala,
Við mér blasti fegurð fjallasala.

Um hagann græna skýja skuggar líðu.
Skein á foss og bugður kristals-iðu,
Hátt var upp til hjalla,
Heyrði' eg svani gjalla
Inst á vatni djúpt und fótum fjalla.

Eg leit hvar skúrir lètt í gróðri þýðum
Læddust undir sól með björtum hlíðum,
Blá sem blæjan síða
Byrgi sorgar fríða
Unga mey með tárabrosið blíða.

Í hamrakleifum hádags undan sunnu
Hvíldi eg, þar neðra lækir runnu,
Kvað við fugla kliður,
Kvað við lækja niður,
Ómur sá var einskær gleði og friður.

Þá sat eg þar und viðarrunni vænum
Var sem heyrði' eg rödd í sunnanblænum:
„Upp við hamrahliðin
Heyrðu fugla kliðinn
Saman blandast ljúft við lækja niðinn".

„Ef kominn ertu hryggur heims úr glaumi,
Hèr er rótt hjá mínum bláa straumi,
Upp við hamrahliðin
Heyrðu lóu-kliðinn
Blandast angurblítt við lækja niðinn".

„Ef kominn ertu hýr með hlýrum rjóðum,
Hèr er glatt á mínum sumarslóðum
Upp við hamrahliðin
Heyrðu þrasta kliðinn
Blandast unaðsblítt við lækja niðinn“.

---

## Sólkveðja.

Dagur er liðinn, dögg skín um völlinn,
Dottar nú þröstur á laufgrænum kvist,
Sefur hver vindblær, sól guðs við fjöllin
Senn hefir alt að skilnaði kyst.
Dvel hjá oss, guðs sól! hverf ei með hraða,
Himneskt er kvöld í þinni dýrð;
Ljósgeislum tendrast lífsvonin glaða,
Lýs vorri sál, er burt þú flýrð.

Guðfagri ljómi, geislann þinn bjarta
Gráta mun jörðin með társtirnda brá,
Seg hverju blómi, seg hverju hjarta:
„Senn skín þinn morgun við himinfjöll blá“.
Hníg þú nú, guðs sól! að helgum beði,
Harmdögg mun breytast í fegins tár;
Kvöldhrygðin ásthrein til árdags gleði
Upprís við dýrðar morguns-ár.

---

## Skúrir og skin.

Vèr keptum að komast upp skarðið,
Þar kafrigning dynur oss á,
Nú hefjumst vèr hæst upp á barðið.
Svo handari bygð megum sjá.

Og ofan frá hamra-stig háum,
Þar hrynjandi vætir oss regn,
Vèr árdalinn sólskininn sjáum
Þær sveipandi blæjur í gegn.

Er hátt uppi heldur vill syrta
Og hríðin á tindum ei dvín,
Þar djúpt niðri drotnar tóm birta
Er dagsól á flesjarnar skín.

Og hópur af drósum og drengjum
Sèr dreifir um árbakkann vítt
Við heyverk á hálfslegnum engjum
Og hagnýtir góðviðrið blítt.

Sjá, vestur af vegi sem glaðast,
Þar veðranna mót eru skýr
Í suddanum sólgeislar baðast
Og sýnir sig friðboginn hýr.

Úr skúrinni hraðast vèr skundum
I skinið, sem fram undan beið,

Hve opt svo vèr á kjósa mundum
Þá æfinnar syrtir á leið!

---

## Svanirnir.

Hvert svífið þèr, svanir, af ströndu
Með söngvum í bláheiðan geim?
Eg sè það af öllu, þið ætlið
Í ósýnis fjarlægan heim.

„Vèr erum þíns sakleysis svanir,
Vor samvista tími nú dvín,
Vèr förum með klökkvandi kvaki
Og komum ei framar til þín".

Með augunum ykkur eg fylgdi
Og alt af bárust þið fjær
Í bláinn með blikandi vængjum
Og burt dóu sönghljóðin skær.

En síðan við hlust minnar sálar
Af söng yðar blítt hefir eymt,
Sem heyrði' eg úr himneskri fjarlægð:
„Vèr höfum ei alveg þèr gleymt".

---

## Fjólan hjá lindinni.

Í lægð undan hamrinum háa
Með hægstreymi rennur fram lind,
Af bakkanum fjólan hin bláa
Í bununni sèr sína mynd.

Í vakandi vatnsiðu tærri,
Þar víðbláan himin má sjá,
Sem staðfastur storðar heim fjærri
Sig streymandi speglar í lá.

Svo öðlast þar fjólan hin eina
Hvað andi minn lengst hefir þreyð:
Sig sjálfa hún sèr í því hreina
Og sèr þar sinn himin um leið.

---

## Sólskins-skúrin.

Sólskins-skúrar breiðist blæja,
Boginn regns í skýjum stár
Meðan jörð og himinn hlæja
Hvort mót öðru gegnum tár.
Gegnum ljósrof skins og skúra
Skrýdd í sorgarblíðu hjúp,
Ó, mín móðir, alnáttúra!
Opna mèr þitt kærleiks djúp.

---

## Í hrauni.

Það tindrar hraun und tíbrá
Og tinnudökt það gljá'r
Með glittandi grjótið
Við gráar mosaflár.

Og ófrýn er hún ílits
Sú auðnin dökk og grá,
Þó dýrðargeislum dreifi
Þar dagröðull á.

Í hita ríð eg hraunið
Og harðdræg leiðin mun,
Ei sè eg nokkurt svæði,
Er segir: „Kom og un!“

Svo bert er alt og blásnautt
Og blíðulaust í kring,
Í grágeìm varla greini
Eg grastopp nè lyng.

Í heiði hlær sólin
Og horfir nið'r á grjót,
En brunahraun á bágt með
Að brosa henni mót.

En hrjóstrin in hrjúfu
Hún hýrgar ögn um sinn,
Þó lítið fái' hún fegrað
Svo forljóta kinn.

En lítið er lítið
Og lasta skyldi fæst,
Við auðnina og eldhraun
Eg alt að því get sætzt.

Og vel eg við það uni,
Er vinnur sólin bót
Og hlær mèr yfir höfði,
Þá hraunið er við fót.

Því læt eg torleið tölta
Og tel það litla raun;
Þig, blíðust sól, eg blessa
Og bölva þèr ei hraun.

---

## Haustreið.

:|: Vèr ríðum :|:
Í rigning og storm yfir heiðar og dal,
Í sóllausum hríðum
Á svakviðra tíðum,
Er sírigning dynur úr skýjanna sal.

:|: Oss herðum :|:
Og hríðinni ei blótum, þótt yglist hún reið;
I íslenzkum ferðum
Vèr allreyndir verðum
Og æfintýr köllum hvað til ber á leið.

:|: Ei vægja :|:
Mun veðrið, en þreytum samt reið yfir fjöll,
Þá komum til bæja
Oss hugur mun hlægja
Í húsanna skjóli þá dagferð er öll.

:|: Að kveldi :|:
Vèr komum að garði, þar bezt mun oss veitt;
Hjá hýrglæddum eldi
Mun fljóð þerra feldi
Og fljótt þar á katlinum verða mun heitt.

:|: Þar geldur :|:
Oss gestrisnin bót fyrir dagferðar vos
Og fögnuði veldur
Oss hröktum þess heldur
Sem himninum daglengis stökk ekki bros.

:|: Að kalla :|:
Vèr kennum ei þreytu, svo lifnar vort geð,
Því glatt mun á hjalla
Og gaman að spjalla
Unz göngum til þægustu hvíldar á beð.

:|: Vèr stríðum :|:
Í ströngu sem hlýðir með glaðværðar tal,
Og seinþreyttir ríðum,
Þó sízt linni hríðum
Og sírigning hellist úr skýjanna sal.

---

## Hvar eru fuglar þeir á sumri sungu?

Hvar eru fuglar þeir á sumri sungu?
Þeir suður flugu brimótt yfir höf.
Hvar eru blómin sæl frá sumri ungu?
Und snjónum hvíla þau í vetrar gröf.

Hvað er nú söngva? vindgnýr hærri og hærri
Um hvítnað land, en þung, með drunu-hljóð,
Þar þögull sjófugl þyrpist brimströnd nærri,
Hinn þrúðgi gýmir kveður stirðan óð.

Hvað er nú blóma? helblóm hörku viður,
Sem hrímhvít skarta frosnum rúðum á
Og geislablóm, sem glitar máni niður
Á glerskygð blásvell vetrarheiði frá.

Nei, sönglíf, blómlíf finst nú að eins inni,
Þar andinn góður býr sèr sumar til
Með söng og sögu, kærleik, vina-kynni
Á kuldatíð við arin-blossans yl.

Svo dvelji söngfugl hver einn fyrir handan
Og hylji fönnin blómið hvert, sem dó,
Vèr eigum sumar innra fyrir andann
Þá ytra herðir frost og kyngir snjó.

---

## Á gangi fram með sjó.

Heyr súgandi brimið frá sædjúpi knúð,
Við sandinn það drynur og þangvaxna flúð;
Sá hljómurinn þungi mér ómar í önd
Sem eilífðar niður á tímanna strönd.

Og horfi eg á sjónhring við hafdjúpið kalt,
Þar handan er bakkinn og drungalegt alt,
Sú dökklita hringlína dregur sig þar
Sem dauðleikans baugur við jarðlífsins mar.

Eitt einasta segl út við sjónhring eg lít,
við svartbakkann stingur af ögnin sú hvít;
Hvar er það? það hvarf eins og bendandi blik,
Eins brátt hverfur líf yfir síðasta stryk.

---

## Vetrarkvöld.

Máninn ofar mænir
Mjallbrún austurfjalla,
Ljúfur lognmar yfir
Leiðir silfurbreiðu.

Veggberg varpa skuggum,
Vogar kyrrir loga,
Lit eg ljósálfa vetrar
Leika á geislum bleikum.

---

## Vetrarnótt.

Heiðstirnd bláa hvelfing nætur,
Hreinu lýst af mánaskini,
Norðurljósa logum glæst!
Heill sè þèr, sem helgast lætur
Himinfúsa ljóssins vini
Til að lypta hug sem hæst.

Hugum, sem í hæðir snúa,
Hefja von til sólarlanda,
Þeim, sem eilífð birtu ber,
Skal þitt stjörnubelti brúa
Breiðast djúp á milli stranda
Lífsins *þar* og lífsins *hèr*.

---

## Hinn fyrsti ástardraumur.

Það líf, er ástin ól,
Sem yndisdagur ber
Í faðmi fríða sól,
Á faldi stjarna her,
Og tár og andvörp, löngun, líf og gleði
Sig laða saman þá í ungu geði.

Hvern læk, þó líði kyr,
Mun langa' að ægi blám,
Þótt fengi' ei sèð hann fyr
Úr fjallasölum hám,

Svo lífið ungt til ástarhafs vill streyma
Um æskuvöll og milli bakka dreyma.

Mitt brjóst svo órótt er
Að engin halda bönd,
Á hjarta blóðið ber
Sem bylgjukast við strönd;
Þá hjarta særðist meyjar-augna eldi,
Hver undan kemst því ríka töfraveldi?

Því augna ásthót
Opt orkað hafa meir
En oddhvöss örin skjót
Og ógnabeittur geir,
Opt meiri kappa en mig þau hafa unnið,
Og margan sært og tárin hafa runnið.

Þú ein, sem hjarta og hönd
Eg hugarfanginn gef,
Mitt líf og ást og önd,
Það æðsta, sem eg hef,
Mín vina, kom, ef vilji þinn ei hikar,
Á vesturhimni Freyju stjarna blikar.

Nú ómar að eins lind
Í iðja-grænni hlíð,
Frá stóli nóttin stirnd
Að storðu skygnist blíð,
Og ástardraumar út frá henni skunda,
Sem örva svein og mey til kærleiksfunda.

Því komdu, kæra sprund!
Þá kyrðin vefur alt,
Í ljósan birkilund
Við lækjargilið svalt,
Og vefðu þig að heitu hjarta minu,
Sem höggum tíðum slær á móti þínu.

Sem bláar bárur tvær,
Er blærinn austri frá
Og vestangolan vær
Á vogi saman slá,
Eins sálir vorar saman skulu renna
Í sæludraumi þegar kossar brenna.

Og ástar mjúkast mál,
Hve mun það fögnuð ljá,
Þá loksins sál við sál
Má sig í orðum tjá!
Því orðin spretta ört sem blómstrin dala,
Þá elskendur í næði saman tala.

Við hendi tengd er hönd,
Að hjarta hjarta snýr,
Unz sèst á sólarrönd
Og sviphröð nóttin flýr;
Sem stjörnuhrap í heiðum geimi nætur,
Sú himinsæla stundir hverfa lætur.

Það líf, er ástin ól,
Sem yndisdagur ber
I faðmi fríða sól,
Á faldi stjarna her;
Ei sýnist draumur sælli en þvílík vaka,
Um sumar eilíft vorsins fuglar kvaka,

## Ástin.

Þú, sem á lífsins þyrnileið
Þekkastar lætur rósir gróa
Og endalaust um uppheims skeið
Eilífar vonar stjörnur glóa,
Þú, elskan himnesk! utan þín
Er æfi mannsins sóllaus dagur,
Þú gyllir sorgar ský og skín
Svo skært að heimur verður fagur.

## Ástar ímynd.

Fram þú brunar fegurð í
Sem fagrahvel í ljóma,
Þá gulli dregin skarta ský
Og skógar af söngvum hljóma.

A lífið gjörvalt ljóma ber
Af ljósinu ástar þinnar,

Dauðans breytir dimma sèr
Í dagsbrún vonarinnar.

Helgast það sem horfir á
Þín himinfagra auga.
Synd í lindum sjóna blá
Sig mætti hreina lauga.

Döggin hreina og himinlind
Hugar líking sýna.
Eins og rósar morgunmynd
Minnir á fegurð þína.

---

Í sælum draum eg sè þig þrátt,
Þú situr á blóma grundu.
Við fætur þína ligg eg lágt
Og leik að snjófgri mundu.

Þú, hin fagra, alt mèr ert,
Af auðnu er mátti veitast,
Alt, sem fær mig ólán skert
Ef illa tímar breytast.

---

## Oskir elskandans.

Ást er raust, sem bergmáls jafnan biður,
Bunulind, sem komast vill að ós,

Bára, sem vill blíðkast ströndu viður,
Blær, sem hjala vill við sína rós.

Endurhljóm frá þinni sál mèr sendu,
Sárar óskir láttu fylling ná,
Barmi þín mót blíðu minni vendu,
Blómið unga! þigg mín ljóðin smá.

---

## Yfir hafið.

Morgun glaður glóir
Og gullfjölluð ský
Boða blíðum roða
Að bliki sól ný.

Horfi eg á hafið,
Þann hyldjúpa rann,
Handan fyrir hafið
Er hún sem eg ann.

Ó, fengi eg flug sem örninn
Um fagrahvels braut,
Svifi' eg til þín, svanni,
Í sælunnar skaut.

Vantar þó ei vængi
Hina vonblíðu þrá,
Til þín hugur hvarflar
Um hafgeima blá.

Minn þig hugur hittir
Í himneskum blund,
Ertu ekki vöknuð
Um árdegis stund?

Minn þá hugur hlaupinn
Yfir hafdjúpsins geim
Mynnist við þá mey, sem,
Er mèr kærst í heim.

Vaknar ekki vífið,
Í værðum er svaf,
Þegar þig eg kyssi
Svo þú veizt ei af?

Þegar ástar örmum
Eg umvef mitt sprund,
Leik að lokkum frjálsum
Með lèttfærri mund.

Lengra hvarflar hugur
En höndinn má ná,
Og ástin mín lengra
En augað má sjá.

Flýr burt fagur draumur
Mèr fjær ertu nú,
Hygg eg þó í huga
Að hjá mèr sèrt þú.

O, að bylgjan breiða,
Hinn blådökki sær,
Yrði' að læknum litla
Í lautu mèr nær!

Og að blómgum bökkum
Yrði bárudjúps strönd,
Fljótt þá fengi' eg unað
Við faðm þinn og hönd.

Fótum stykki eg fljótum
Yfir fallandi straum,
Þèr að blíðum barmi
Í blómsælum draum.

---

## Verndi þig englar.

Verndi þig englar, elskan mín,
Þá augun fögru lykjast þín,
Líði þeir kringum hvílu hljótt
Á hvítum vængjum um miðja nótt.

Nei, nei, það varla óhætt er
Englum að trúa fyrir þèr,
Engill ert þú og englum þá
Of vel kann þig að lítast á.

---

## Kvöldsjón.

Sólsetursgeislar leika á lygnum bárum,
Lágt er að öldubaki hnígin sunna,
Gullbjartar titra gárur blárra unna,
Glitrandi steinar vökna af ránar tárum.

Situr við æginn svanni' í hvítum skrúða
Um sumarkvöld, en báran rennur þýða,
Glampandi' að strönd og væta vill hinn fríða
Fannhvíta meyjar fótinn köldum úða.

Þá fagnar unn, er brostin baðar ylgja
hinn bjarta fót og deyr með ljúfu geði,
Ó að eg sjálfur orðinn væri bylgja
Á ægis vakinn skærum silfurbeði,
Í munardraum þá myndi' eg henni fylgja.
Við mjallahvíta fætur deyja' af gleði.

---

## Skógarsjónin.

Á vordags morgni gekk eg göng í lundi,
Þar geislum sólin þvers um limar skaut,
Með rósum höfðu fuglar brugðið blundi,
Blómdaggar úði rauk um hæð og laut.

Á milli laufgra lima, sem ei hrærðust,
Eg leit hið fagra, silfurskygða haf,

Þar ótal skip með blikhvít segl ei bærðust,
Því byrinn vært í dúnalogni svaf.

Í skógar djúp hinn svási fuglasöngur
Á svalri skuggaleið mig áfram dró,
Unz loks úr húmi laukst upp vegur þröngur
Að ljósri dæld, er sólbjört við mèr hló.

Þar kom eg til að kanna prýði nýja,
Því kringlótt tjörn und skógarbrekku lá,
Þar bjarktrè græn og heiðishvolf án skýja
Á höfði spegluð stóðu' í kristals gljá.

Ó, blessuð sjón, und björk með tengdum höndum
Sat blómleg mey í sakleysinu frjáls,
Með gulan stráhatt skreyttan bláum böndum,
Í björtum hjúp með nakin brjóst og háls.

Í laufarunnni þèttum fèkk jeg færi
Á fegurð horfa, sem að við mèr skein,
Svo ung og fríð, sem vorsins drotning væri
Í votri skuggsjá spegluð engilhrein.

Af vordýrð hrifin hún þar sat í næði
Með himinlypt og társtirnd augun blíð,
Því innra sálin orti vorsins kvæði
Í elskudraum á lífsins blómatíð.

Úr hennar bjarta svip mèr sýndist skína
Það sálarlíf, er fylti mína þrá,

Sem systurlega dreymdi drauma mína
Og djörfum huga lypti jörðu frá.

Þá ljósu tjörn þess láns eg bað að njóta,
Að lengi meyjan fagra sæti þar,
Og morgunvindinn bað eg, ei að brjóta
Hið bjarta gler, sem hennar ímynd bar.

Á bak við trèn eg hugarfanginn horfði
Og hjarta mitt af löngun tók að slá,
Að mætti' eg yrða einu vinar orði
Á yngismey og henni blíðu tjá.

Því elsku vor var eins í sálu minni,
Þar allir knappar sprungu fram í blóm,
Alt lífið skein í morgunsælu sinni
Og söng með þúsund radda kærleiks hljóm.

Ó, sæti eg í sal, er laufin rökkva,
Og snerta mætti fríðrar klæðahjúp,
Og mínum sjónum munardruknum sökkva
Í meyjaraugans bláa himindjúp!

Og mætti' eg hennar lokka gullinljósa
Með lèttum fingrum að eins koma við,
Og hugfró mèr af hennar vörum kjósa,
Sem hæfði þessum vornáttúru frið!

Mig ástin hvatti, óttinn batt mig niður,
Sem augnablik var þessi leiðslustund.

Þá heyrðist sem af manna-máli kliður
Úr myrkum skóg, en við það hrökk upp sprund.

Í yndis fáti hrædd og lètt sem hindin
Hún hljóp og falst í dimmum skógar geim;
Einn stóð eg eptir — týnd var töframyndin
Og tómlegt fanst mèr gjörvalt nú í heim.

Því syrgði eg, svo hratt jeg hepta mátti
Mín heimsku tár, er fram sèr rendu skjót?
Því fann eg missi þess, sem ei eg átti,
Og ást til veru, sem eg þekti' ei hót?

Svo gekk eg dapur grænar fram um brautir
Og gægðist eptir þeirri, sem að hvarf,
Um runna, rjóður, grundir, leiti, lautir,
Því loginn ástar mèr að hjarta svarf.

Æ, hvergi fann eg horfinn þenna svanna
Í hverjum stað þótt sjónin væri' á leit,
En aleinn jafnt og eins á vegum manna
Þá ör eg fann, sem mèr við brjóstið hneit.

Og tíðum lagði' eg leið um skóginn víða
Og löngum sat við tjörn und bjarka sal,
En aldrei birtist fljóðið undurfríða
Og framar víst það mèr ei birtast skal.

Því ljómar fegurð til að töfra' og særa?
Því teiknast hún svo djúpt í hjartað inn

Og að eins eptir skilur skuggann kæra
Af sköpun þeirri', er ljómar rètt um sinn?

Þú mistir, skógtjörn! skírleiks ímynd bjarta,
Sem skein á þèr af himinblíðri mey,
Af fleti þín hún fluttist á mitt hjarta
Og festist svo hún þaðan hverfur ei.

---

## Óskin.

Hann:

Ef værum stjörnur orðin þú og eg
Með ástskært blik á himni fagurbláum,
Og liðir þú með silfurfetum smáum
Samferða mèr um heiðan nætur veg.

Hún:

Og sæl eg væri svo að fylgja þèr, —
En samt er nóg, ef ekkert þess má varna,
Að fylgi' eg þèr, svo trútt sem stjörnu stjarna,
Þann stig á jörð, sem upp til himins ber.

---

## Gleym mèr ei.

Þú litli fugl, á laufgri grein,
Hvað ljóðar þú svo sætt?
Í þínum klið býr ástin ein,
Sem ei af hrygð var grætt.

„Þú yngissveinn! eg sveif af strönd,
Þar sat þín elskuð mey
Með heiðblátt smáblóm sèr í hönd
Og sagði: Gleym mèr ei!“

„Ó, hjartans vinur! vissir þú,
Hvað vel eg man til þín!
Eg lít á blóm og lifi' í trú,
Að líkt þú saknir mín;
Svo ber eg það á brjósti leynt,
Þar byrgir ástin sig.
Og sem mitt blóm er himinhreint
Eins hreint eg elska þig“.

---

## Draumur hjarðsveinsins.

Í birkilaut hvíldi eg bakkanum á,
Þar bunaði smálækjar spræna,
Mig dreymdi' að í sólskini sæti eg þá
Hjá smámey við kotbæinn græna.

Og hóglega' í draumnum með höfuð jeg lá
Í hnjám hinnar fríðustu vinu,
Og ástfanginn mændi' eg í augun hin blá,
Sem yfir mèr ljómandi skinu.

Úr fíflum og sóleyjum festar hún batt,
Þær flèttur hún yfir mig lagði,

Þá barðist mèr hjartað í brjóstinu glatt,
En bundin var tungan og þagði.

Loks hneigir hún andlitið ofan að mèr,
Svo ilmblæ af vörum eg kenni,
Ó, fagnaðar yndi, hve farsæll eg er.
Nú fæ eg víst kossinn hjá henni.

En rètt þegar nálgaðist munnur að munn,
Að meynni var faðmur minn snúinn.
Þá flaug hjá mèr þröstur, svo þaut við í runn,
Og þar með var draumurinn búinn.

---

## Ástarvísur.

1.

Man eg ei meyju vænni
Mínum sjónum skína,
Henni ann eg einni,
Ann mèr þó ei svanni;
Logar hjarta og hugur
Heitur til vífs leitar,
Augu svefn ei sigrar
Sætur um dimmar nætur.

2.

Á kinnum, vörum, ber hún rósa blóma,
Og bláskær augun eru stjörnur tvær;

Hve stutt frá rós til stjörnuhimins ljóma
Í stúlku ásýnd! — þar það saman nær.
Svo lætur hún með litlu bili sjá
Það ljúfasta, sem jörð og himinn á.

3.

Opt kallar hugur á þig blíðum rómi,
Þá aptanstjarnan skín í vesturheim,
Þá blikar himinbogans næturljómi,
Þá brúnin morguns gyllir skýja reim;
Eg bið að árblær eyrum beri þínum
Mín andvörp þung á dagsins fyrstu stund,
Og tár mín kvöldblær hjúfri' af heiðvæng sínum
Sem heita dögg á þína liljumund.

4.

Kystu mig í myrkri hèr,
Maður enginn veit nè sèr,
Þegar nálgast vanga vangi
Vefja lát þig ástarfangi;
Anga sætast elsku blómin,
Þá af er himni sólarljóminn,
Lát mig ei af löngun deyja,
Leyf mèr kossinn, hjartans meyja!

5.

Armur þinn um háls mèr hverfi,
Hlýra blossi rósin þekk,
Lofnar minni, angurs erfi
Eg í kossum þínum drekk.

6.

Hníg mèr í faðminn, elskuð yndisvera,
Og örmum ljósum vefðu mèr um háls,
Að bandingja þín blíða skal mig gera,
Ó, betri er prísund slík en vera frjáls.
Þá kossum rignir altaf hlýrri og hlýrri
Og hvíli' eg bundinn faðmi þínum, mey!
Sú fanga vist er frelsi hverju dýrri,
Eg fæ ei losnað — vil það heldur ei.

7.

Köld skilur Unn þau, er unnast,
Ástar trega sárstan
Skáld ber huga hreldum
Hlín um þig geisla Rínar,
Þróast munur af meinum,
Margar hrannir fund banna,
Tvist felli' eg, tróðan glæsta,
Tár um hverja báru.

---

## Lækur og lóa.

Í liminu lóan syngur
Við lækinn silfurblá,
Og lækurinn svarar frá lautu
Er líður hann bökkunum hjá.

Lóa:

Hvort sást' ekki sveininn hinn unga
Og svanna með glóbjart hár?
Í lundi þau kvöddust með kossi.
Af kinnum hrundu þeim tár.

Lækur:

Ei sólin nè sumarmáninn,
Er sýnir þau straumur minn hreinn,
Svo inndælt fá endurskinið
Sem elskandi heitmey og sveinn.

Lóa:

Við unnustu elskhuginn mælti:
Um æginn nú sigli eg braut,
Að vori með farfuglum feginn
Eg flýg heim í dalanna skaut.

Lækur:

Að bölvísum bruna eg ægi,
Eg bið hann að hlífast við fley,
Og hjálpa, svo heimti með vori
Sinn hugljúfa þreyjandi mey.

Lóa:

Eg flýg burt með suðrænni sólu,
En svík ekki norðursins slóð,
Með vorinu svein þínum, svanni!
Eg syngja mun heimkomuljóð.

---

## Sofandi kystur.

Væran þú sofir, minn sjafni!
Í sælasta draumi;
Augun þín ung eru lokuð,
En opnaðar varir;
Gullbjörtu lokkarnir liðast
Um litfagra vanga;
Ilmsætur andinn þèr líður
Af eldheitum vörum.

Sofðu, eg vil þig ei vekja,
Eg veit að þig dreymir
Himneskar sjónir og sælli
En sèr þú í vöku.
Kossi svo leikandi lèttum
Minn ljúfling eg kyssi,
Sem fiðrildi blikvængjum blaka
Við blundandi rósir.

---

## Löngun.

Nú glitrar *Freyja* gullinskær
Í geimi vesturs bláum,
Og sumartungl í heiði hlær
Við hafsvog spegilgljáum.
Eg geng með strönd og glaðan söng
Frá græðis bylgjum heyri,
Er svífur skipa svanhvít þröng
Með Sjálands skógareyri.

Í rökkurkyrð eg hlusta' á hljóm,
Sem hingað berst frá þiljum,
Og dreyminn geng við unaðs óm
Og ilm fra rós og liljum.
Hinn skæri máni skín á mörk
Frá skýi hvítu niður,
Þá svefni vígir blóm og björk
Hinn blíði næturfriður.

Hvað veldur því, mèr vöknar brá,
Þá vildi' eg feginn kætast?
Æ, þú ert fjær með augun blá
Og ástarmálið sætast.
Því flýr burt þessi fagra stund
Með friðarljómann bjarta
Svo þú, mín kæra! ljúf í lund
Ei leikur mèr við hjarta?

Þú, ástar minnar ímynd hrein,
Mèr ert í kvöld svo fjærri,
Þú reikar sjálf sem eg svo ein
Í aptanbirtu skærri.
Hve sætt nú hljóma sönghljóð skýr!
Hve salir himins blána;
Ó, að þú værir hjá mèr hýr
Í heiðu skini mána!

---

## Augun bláu.

Af öllu bláu, brúður kær!
Hið bezta þèr í augum hlær,
Svo blár er himinbláminn ei,
Svo blátt er ekkert gleym-mèr-ei.

Hvað gaf þeim blíðubláma þann,
Sem bindur, töfrar sèrhvern mann?
Þín elskan hlýja, hreinust sál,
Og hjarta, sem ei þekkir tál,

---

## Augun svörtu.

Þá í faðmi fæ eg þèr að skýla,
Fegurst meyja, suðurs dætrum lík,
Þá þín dökkleit augun á mèr hvíla
Eins og nóttin svört og draumarík —

Yndisskuggi, ástarstjörnu ljómi,
Uppheims blik og jarðneskt gleðibál,
Saman ofinn ljóss og dimmu drómi
Dýrðarhrifna fjötrar mína sál.

---

## Hvað munar.

Hvað munar mar um dropa?
Hvað munar sól um geisla?
Hvað munar grund um grasstrá
Og grænan skóg um laufblað?
Og sumar sjálft um blómknapp
Á sælum gróðrar tíma?
Hvað munar þig þá, meyja,
Þó miðla gerir kossum?
Því fjáðri muntu finnast
Þess fleiri sem þú gefur.

---

## Ástarsæla.

Eg lék við þinn gull-lokkinn bjarta
Og leit inn í augun þín blá;
Þar inni með hugföngnu hjarta
Minn himnanna himin eg sá.

Eg kom við þinn kafrjóðan vangann,
Oss kossinn á vörunum brann,
Svo rósblíða ununar angan
Eg aldrei í heiminum fann.

Vor hjörtu þann fögnuð þá fundu,
Sem flýði því miður svo skjótt;
Við lifðum í líðandi stundu,
Og ljósið varð bráðum að nótt.

En sem þegar smásólir hreinar
Í silfur-daggdropunum gljá,
Svo spegluðust eilífðir einar
Í augnablikunum þá.

---

## Ástin í nálægð.

Hvað sveimar að mèr svo sætt og hlýtt
Sem sólskinsmorgun á vori?
Þú, elskaða, kemur með andlitið blítt
Og unun í sèrhverju spori.

Þitt augna tillit er bláhimins bað,
Þín bros eru daggeislar ljósir,
Þín orð eru sönglist, sem kærleikinn kvað,
Og kossarnir ilmandi rósir.

Þín inndæla návist mig umhverfis skín,
Hún andar sem himinsins blíða,
Hjá þèr flýgur tíminn sem draumur, er dvín,
Og dansandi stundirnar líða.

Og hvert og eitt sinn, þegar fæ eg þinn fund,
Þá finst mèr í hug og í sinni,
Sem dísirnar glaðar og góðar í lund
Úr gulli minn æfiþráð spinni.

---

## Ástin í fjarlægð.

Svo fjær mèr á vori nú situr þú, sveinn!
En samt ertu hjá mèr, því hamlar ei neinn,
Eg finn þig í dalnum þeim dulda,
Með hugann til þín yfir fjöllin eg flýg,
Svo fluglètt sem skugginn í spor þín eg stíg,
Og leynist við hlið þèr sem Hulda.

Í laufbrekku grænni þig löngum eg finn,
Hjá læknum þú situr með hönd undir kinn
Og horfir á brosandi blómin,
Þú sèr mig þá ekki, en samt er það eg,
Sem að þá líð yfir hjarðanna veg
Í vorblæ með vinhlýja róminn.

---

## Ræntur koss.

Ein mey gekk út í meiða lund
Um myrka stund,
En sveinn kom að og lètt með list
Fèkk ljúfa kyst.

Hann greip þá rós, er rètti stund,
Með röskri lund,
Og á stóðst koss og augnablik,
Því ei var hik.

En meyjan kyst á veg sèr vatt
Svo voða-hratt,

Og eptir sveinninn aleinn stóð
Í angurmóð.

„Ó, rósamunnsins ríka hnoss,
Hinn rænti koss!
Svo sætt, svo stutt er trauðla til
Neitt tálar spil“.

„Þá býið rósu vingast við,
Hún veitir bið,
En sveinn að meyju fljótt ef fer,
Hún forðar sèr“.

En seinna gaf hún sveini koss,
Og sagt er oss,
Að sætt og langt var síðan kyst
Með sannri lyst.

---

## Meyjar skart.

Fagra mey, með hýran hvarm,
Hvítan skín þèr gull við arm,
Angar rós við ungan barm,
Svo yndisfull.

Hvað skal gull og hvað skal rós?
Hreina fegurð! við þitt ljós
Þykir mèr ei rósin rós,
Nè gullið gull.

---

## Ástavísur.

Láttu' á mig augun þín ástríku skína
Ununarfögur og löngunarblíð,
Sorgir sem dögg fyrir sólu þá dvína,
Svífandi, skjótvængjuð flýgur burt tíð,
Töfra mig augun þín björtu og bláu,
Blítt, eins og farmanninn spegilslètt haf,
Elskendur gintu þau alla, er sáu,
Ástar á djúp fyr en vissu þeir af,

Hljómsæta róminn þá heyra þú lætur,
Hjarta mitt glaðnar og lyptist á flug,
Söngfugla kliður um sumarsins nætur
Sigrar ei þægar nè töfrar minn hug;
Augu þín tindra, en blíðlega byrgir
Blómroði vangann og ljómar um hann,
Eins og þá roðnandi sólarlag syrgir
Sumardag langan og fagran, er rann.

---

## Hugsjón.

Í morgunroðans myndum
Þú muna brosir við,
Þú svífu'r í sumarvindum,
Þú syngu'r í fugla klið;

Á beði blómgra stranda
Mèr berst þitt ástar hnoss,
Kvöldgolur að mèr anda
Ósýnilegrar koss.

Þá döggslóð lètta liggja
Eg lít um græna jörð,
Þín spor eg helzt vil hyggja,
Að hafi markað svörð.
Á bökkum blárra strauma
Eg bíð og vona fer,
Að dísin minna drauma
Úr djúpi lypti sèr.

Í svefn' eg sè þig værum,
Þitt svífur fleyið dátt
Á sævi silfurskærum
Við sætan hörpuslátt.
Und friðar björtum boga
Þú birtist mèr í dúr,
Sem sól eg lít þig loga,
Er laugar sumarskúr.

Og píla'gríms hnè sem hnígi,
Þá helgan engil sèr
Úr gullnu ganga skýi,
Eg glaður skelf fyrir þèr;
Þín ljósdýrð augun agar,
Mèr ógnleg fegurð lízt!

Mín orð á munn' upp dagar
Og mál í andvarp snýst,

Þú ert sem himins háa
Hafspeglað dýrðar skeið,
Flóðgeimnum fagurbláa
Svo fjærri' og nær um leið,
Svo hvik sem haugaeldur
Þú hverfur sjónum kær,
Minn hugur fast þèr heldur,
En hönd mín þèr ei nær.

Hvar lífs á sandi liggja
Þín lèttu fótaspor?
Hvar þínir skógar skyggja?
Hvar skín þitt fagra vor?
Er þitt að utan ríki
Við augans sjónarhring?
Lít eg að eins þitt líki
Við ljósra drauma þing?

Þú hugmynd íklædd holdi,
Hvar var þèr búin dvöl,
Ef hyggjan hreina þoldi
Vors heims að nálgast böl,
Þar blæs um leiðir landa
Lífkaldur feigðar þeyr,
Þar að eins þyrnar standa,
Er þýðust rósin deyr?

Þú finst ei gulls við glampa,
Þar girndin brjálar vit,
Nè hallar-hvolfs við lampa,
Þar hirðskríls ljómar glit,
Og ei hvar glaumur gellur
Af glópa kerskņis róm,
Þar fíflsku hlátur hvellur
Um hjörtu vitnar tóm.

Ó, meyjar ímynd fríða,
Sem eigið firrist hrós,
Svo bljúg sem fjólan blíða
Og blómleg eins og rós
Hve skært þitt augað skýra,
Þú skilur ei þess völd,
Svo hlýtt sem sólin hýra
Og hreint sem stjarnan köld.

Þinn hljóm er sætt að heyra
Og himinfegurð sjá,
En eitt er öllu meira
Sem aldrei deyja má:
Þín mildin miskunandi
Og meðaumkvunar hrygð,
Þinn elskuríkur andi,
Þín innilega trygð.

Hver kann sem þú að þýða
Alt það, sem augun tjá,

Við þrautir þolgóð stríða
Og þerra grátna brá?
Hver kann svo viljann vekja,
Er vafinn svefni beið?
Hver kann svo hógvært hrekja
Alt hneyxl af sinni leið?

Þeim sorgin sætast gleymist,
Er sólhýrt bros þitt skín,
Hver draumur sætast dreymist
Í dýrðar örmum þín.
Vor, æska, himinn, heimur,
Þinn heimanmundur er,
Náttdimmur dauðageimur
Dagroða fær af þèr.

* * *

Um morgun æfi minnar
Eg man það geislabál,
Sem vitund veru þinnar
Mèr vakti' í ungri sál;
Það kom frá himna höllu,
Alt helgað leizt mèr þá,
Þú fagra, er fyrst í öllu
Eg fann þig, heyrði' og sá.

---

## Draumsjón.

Eins bert og vakan verulegt má sýna,
Svo villumst ei
Und blæju svefns þig ber í drauma mína,
Ó, bjarta mey!

Á undan mèr þín engilmyndin líður,
Eg eptir geng,
Svo ljúft sem kalli hljómur himinblíður
Frá hörpustreng.

En aldrei gefst mèr fegins ástar fundur
Í faðmi þín,
Þá bezt eg nálgast ber oss aptur sundur,
Æ, bíddu mín.

Þó sýnist mèr, þú bendir hvítri hendi
Svo hýr og mild,
Að haldi' eg fram og aldrei aptur vendi
Frá ástar fylgd.

Af þèr skín ljós hins göfga og hins góða
Sem geisladýrð;
Þú brosir við mèr, fegurst yndi fljóða,
En frá mèr snýrð.

Og bilið vex, er greiði' eg gang sem skjótast.
Mig ginnir ást,
Því alt er þetta ekki til að njótast
En að eins sjást.

Sú fyrirmunun búin mèr til baga
Er beisk sem hel.
Eg sigra ei það, er sundur vill oss draga,
Það sè eg vel.

„Æ, bíð þú, bíð þú, hryggan mig að hugga,“
Er hrópa' í vind;
Á bak við hólinn hverfur mèr í skugga
Þín hvíta mynd.

---

## Þið sjáist aldrei framar.

Eg veit eitt hljóð svo heljar þungt,
Sem hugans orku lamar,
Með helstaf lýstur hjartað ungt,
Og hrædd það tungan stamar;
Það dauðaklukku geymir glym,
Og gnýr sem margra hafa brim
Þau dómsorð sár með sorgar ym:
Þið sjáist aldrei framar.

Ástskyldar verur snöggvast sjást,
Þeim sundra nornir gramar,
Þá yndisvonin öll þeim brást,
Þær aldrei verða samar;
Hve sárt er slitnar hönd frá hönd
Og hafið veglaust skilur lönd,
Það suðar dimt við sendna strönd:
Þið sjáist aldrei framar

---

## Ást og dauði.

Eg svaf og dreymdi dauðalín mig hjúpa
Á dökkar kistufjalir lagðan til,
Unz loksins fann eg snortinn ástar yl,
Þín brennheit tár á ískalt enni drjúpa.
Svo sárglaður eg sá þín augun blá
Með sálar blíðu engilhreina og djúpa
Að fyrir þèr til foldar eg nam krjúpa
Og þakklátt hjarta mèr á munni lá:
„Mín blessuð ást, hèr brauzt þú dauðans vigur,
Nú bliknar hel sem nátttröll fyir sól,
Eg finn hver kraptur líf mitt enduról, —
Hvar er þitt herfang, gröf, og hel, þinn sigur?“
Þá rufust ský — úr gullnum ljóssins geim
Skein geisladýrð, svo sjónir hrukku viður;
Sem eg þèr kraup, svo lauzt þú ljóma þeim
Og lagðist klökk með hendur tengdar niður.
Innsigli ljóss á enni beggja stóð;
Að ofan heyrðist dýrðar söngva kliður,
Gullhörpu hljómar, engla yndishljóð
Að eyrum streymdu' og hjörtum vaggað lètu,
En feginstárum fögrum augun grètu,
Svo hreif það ljós og hljómsins unun sú,
Við hófumst upp í kærleik, von og trú,
Því englum sungin orð við heyrðum vel:
„Ó, elska, þú ert sterkari enn hel.“

## Minning.

Brostin er liljan — mey er möðkum fengin
Und myrka fold,
Saklausa brjóstið, synd þar leyndist engin,
Svanfagurt hold.

Í heimsins stríði frið mèr fanst þú boða,
Svo fríð og skær
Sem stjarnan kyr á bárur brims í voða
Brosgeislum slær.

Þín gröfin, mey, á æsku liðin árum
Sè yndisvæn,
Og hreinnar ástar helgum döggvuð tárum,
Svo haldist græn.

Ó, skin þú, sól, á hennar laufgrænt leiði,
Litfögur blóm
Vökva þú, nótt, sem vetur enginn deyði
Vindsvölum klóm.

En frækorn beri vindur vængjahraði,
Að vöxtulig
Þar drúpi trè með tár á hverju blaði
Að trega þig.

Um næturhvolf er hverfist stjarna skari
Hvítvængjuð þú
Á geislum mána, lètt sem lopts andvari,
Að leiði snú.

Náttdaggar silfri settum vefjarhringum
  Þú svífir á,
Er fagurspunnir laufgar limar kringum
  Leiptrandi gljá.

Þinn engilfótur veikan vef ei slítur,
  Nè værum dúr
Sofanda fugl', er höfgu höfði lýtur,
  Þú hrindir úr.

Svo þú í draumum, blessað augans yndi,
  Optlega skín.
Og hverfur burt í mjúkum morgunvindi,
  Þá myrkrið dvín.

Hin ytri fegurð fæðist til að deyja,
  Ei fölnar hin,
Þitt skín um aldur, sofin, saklaus meyja,
  Sólarlags skin.

---

## Nafnið.

Mitt nafn á hafsins hvíta sand
Þú hafðir eitt sinn skráð,
En bylgju falska bar á land,
Og burt það strax var máð.

Þú skráðir það á ís við ey,
Því eyddi sólar bál;
Á hreinan snjó, en hratt við þey
Það hvarf sem annað tál.

Í skógnum þú það skarst í björk,
Þitt skap var fult af brigð;
Það hverfðist undir bjarkar börk
Á burt með þinni trygð.

Nú græt eg sárt, er gleymt er það,
Mitt geð er sorgum háð,
Og helzt til víða hygg eg að
Mitt heiti væri skráð —

Í hvern stað, nema hjarta þitt,
En heiti þitt eg skar
Af tryggum hug í hjarta mitt
Og hvergi nema þar.

---

## Kveðja.

Á sætastri blómrós er sárust þyrniflís
Og snákurinn sèr leynir í fríðleiks paradís,
Hið gullnasta ský verður skúrarflóki grár,
Og skemtun vorra drauma snýst upp í vökutár.

Það vissi eg áður, en nú eg fyrst það finn,
Þú fríði, falski svanni, með tálarbros á kinn.

Eg kveð þig og fer með hug, sem hrygðin knýr,
En hyggnari' af skaða, þó fræðslan væri dýr.

Sá himinn, sem er hruninn, ei byggist brátt á ný,
Nú búi hvort að sínu sem ræður viljinn frí,
Þín leið er til fjöldans, en mín er fyrir mig,
Við mætumst aldrei framar, því sundur liggja stig.

Eg hælist ei um það, með hrygð eg finn og veit
Þíns hègóma forlög í glaumsins tryltu sveit,
Þitt gull verður aska, þín gæfa moldar ryk,
Í grát snýst þín lèttúð, í slys þín eiða svik.

Eg get þig ei hatað, sem áður unni' eg mest,
En opt hef eg óskað: við hefðum aldrei sèzt,
Eg get þig ei elskað, fyrst ást þín reyndist tál,
En æfilangt þinn skuggi mun hvíla' á minni sál.

---

## Logn og hret.

Ládautt er hafið, logn á grund,
Ljúfasta kyrð um aptanstund,
Friðarblys himins skína skær,
Skóginn ei hreyfir minsti blær,

Eigi við strandir unnin köld
Andvarpar nú um þögult kvöld,
Kristalsgólf marar stjörnur strá
Stafandi geislum himni frá.

Æ, þegar alkyrð úti vær
Umfaðmar gjörvalt fjær og nær,
Inn' í mèr sjálfum hrygðar haf
Herjast andvarpa stormum af.

Guð, sem að stillir stórbrims hyl,
Steinóðan heptir fellibyl, —
Sefar hvert rok unz sofnar Hlèr
Svæfður sem barn við fætur þèr!

Hjarta míns æstan svæfðu sæ,
Sorgarstorm hverfðu í gleðiblæ,
Brimsollinn lygna láttu mar,
Láttu þinn himin speglast þar.

Tárast eg get ei, grátsins flóð
Gef þú að lètti hrygðar móð,
Láttu mig svala sárum harm
Sefaðan við þinn föðurbarm.

Friðinn á jörð eg finn ei hèr,
Finna mig lát hann samt hjá þèr,
Sturluðum hug og hjarta bú
Himinkyrð þá, sem ríkir nú.

Svo heyri' eg fyrir harma nið
Hljóðfagran þinna stjarna klið
Og sál mín verði lognblíð lá
Ljósanna föður skuggasjá.

---

## Lauffall.

Volega' í viðunum dynja
Vindar með andvörpin stríð,
Laufin á höfuð mitt hrynja
Haustbleik um aptaninn síð.

Fölnaðra laufanna flokkur
Fjúkandi hvíslar að mèr:
„Vinur! þú visnar með okkur,
Vindurinn eins feykir þèr".

Skelfur við skógurinn þykkur.
Skyggir hin grúfandi nótt.
„Vinir, svo visna' eg með ykkur",
Viknandi svara jeg rótt.

---

## Hraun.

Hèr var fyrrum fagur skógur.
Fjólubrekkur, smaragðs hlíð.
Vötn og svanasöngur nógur,
Snjóhvít lömb um engin fríð.
Hjarðmenn signdi sól af fjöllum,
Söngvar glaðir heyrðust þá,
Frítt var lið á lækja völlum,
Lèku börnin mæðrum hjá.

Álfar ljóss þar yfir svifu.
Albrosandi dalur skein,
Fuglar lètt á kvistum klifu,
Kvað við röddin skær og hrein.
Æ, þar blómgun, ást og friður
Efra prýddu fagra sveit,
Heljar glóð í hauðri niður
Huldist undir sælu reit.

Jarðelds bruna bálið rauða
Brauzt úr gíg og flóði' um dal.
Öskuhríð með ógnum dauða
Eyddi fegurst blóma val;
Sólu byrgði blikumökkur,
Blossar sviðu grænan skóg,
Varð í lopti rauna rökkur
Reyk og mistri niður sló.

Felmtruð þá um fjöllin næstu
Flýði þjóð með sárri hrygð,
Skelfd af tinda hvörfum hæstu
Horfði' um stund á týnda bygð,
Hinzta sinn og láðs við loga
Loptið dreyrrautt glampa sá,
Bæi hverfa báls und voga,
Björgum sem að veltust frá,

Svipljótt er, þar svældi bruninn,
Sveitin fríð er hrjóstri þökt,

Undir vítis eldflóð hrunin.
Alt er napurt, bert og dökt;
Gargar hrafn á hraunstrip svörtum,
Hafnar gróðri feigðar ból,
Fyrir gíg með geislum björtum
Grjótið vermir himinsól.

---

## Fyrr og nú.

Þitt sakleysi — það er týndur gripur,
Þinna kinna nú er fölnuð rós,
Brosið þitt er syndarinnar svipur,
Sjónar þinnar döpruð eru ljós.
Illa smyrslin bæta roðann blygðar,
Blæja glituð feimni, sem er mist,
Dýrar perlur tárin hreinnar trygðar,
Tjón það fegrar engin prjálsöm list.

Silkið þína svívirðing ei dylur,
Snjóhvítt línið verður dökt á þér,
Dauða og rotnun gröfin glæsta hylur,
Gleðin uppgerð sem þinn harmur er;
Viðurstygð, er keyptra kossa læti
Koma á eptir hræsnisfullum grát,
Syndar óvit er þín ofsakæti,
Örvæntingar þinnar ringlað fát.

Sá eg þig í sakleysinu ljóma,
Sólin brendi þinn hinn fagra lit,
Varstu í dalnum blómið allra blóma,
Blekti þig ei heimsins prjál nè glit.
Liljan hvíta, himindöggin skæra,
Hreinan sem þinn vættu meyjarfót,
Sýndust mèr af sálu þinni læra
Sólarfögrum himni' að brosa mót.

Fyrr í þinni fátækt auðug varstu,
Fegurð búin líkt sem dygðar hjúp,
Hulin flíkum hjarta flekklaust barstu, —
Himinperlu varpstu í sjávar djúp.
Hvernig ertu hröpuð, stjarnan bjarta,
Heiðum nið'r af þínum dýrðar stig?
Rósin fagra, náði naðran svarta
Næmu biti svo að eitra þig?

Hríðin kalda, döggin lopts mun lauga
Leiði þitt, en ekkert mannlegt tár,
Á þèr hvíli himins líknar auga,
Harmi þrungnar síga láttu brár;
Lokkum slegnum höfði grátnu hneigðu
Hans að fótum, öll sem græðir mein,
Glæstu skrúði, gulli' og perlum fleygðu,
Guði skína fegurst tárin hrein.

---

## Lífið.

Hvað ertu, líf, nema litur?
Ljósblettir ótal,
Á dauðasæ lygnum er leiptra
Í lífssólar skini.
Hví ertu lífröðull ljósi
Svo ljúfur og fagur?
Hví ertu helsærinn kyrri
Svo hulinn og djúpur?

---

## Sæförin.

Skips við súð eg hvíli hèr
Heyrast ölduflóðin,
Ránar dætur rugga mèr,
Raula vögguljóðin.

Valta fleyið vaggan er
Vot er gröfin undir;
Sæför lífs, hve samar þèr
Sýnast þessar stundir!

Æfiknör um æginn ber,
Þar örlaga bylgjur leikast;
Milli fjörs og feigðar er
Fjalborð allra veikast.

---

## Kærleiksorðið.

Eitt kærleiks orð! eg er svo einn
Og enginn sinnir mèr;
Mèr aldrei veitist ylur neinn,
Sem á við kærleik er.

Án kærleiks sólin sjálf er köld
Og sèrhver blómgrund föl,
Og himinn líkt sem líkhúss tjöld,
Og lífið eintóm kvöl.

Eitt kærleiks orð, það sólbros sætt
Um svartan skýja dag,
Ó, hvað það getur blíðkað, bætt
Og betrað andans hag.

---

## Hnossið.

Þú finnur aldrei hnoss í heimsins glaum,
Hègómadýrðin gelzt með bitrum sorgum.
Þú vilt hið góða — flý þá tryldan flaum,
Þar fíflast öld á strætum og á torgum,
En leita þess í huldum hjartans draum,
Því duldar áttu' í djúpi þinnar veru
Þær dýrstu perlur, — betri víst þær eru
En froðan glæst á fölskum tímans straum.

---

## Sof nú, mitt barn.

Sof nú, mitt barn, og bú þú rótt und líni,
Brosfögur sólin hauðrið kveðja fer,
Á þig hún sínum ávalt geislum skíni
Sem auga guðs, er sèr og veit af þèr.

Vot eru augu, vangi þinn er bleikur,
Hví vökna brár, er sorg ei þyngja má?
Grunar þig, barn, að vilji þinn er veikur?
Veiztú að þyrnar sitja rósum á?

Mun sá, er grátinn leggur lífs frá ströndum,
Með lèttu geði sigla um ókunn höf?
Og sá, er tárast vöggu vafinn böndum,
Vonglaður hverfa niðrí dimma gröf?

Þèr vagga þín er vígi lífs mót hörmum,
Þig væta tár sem árdögg blómin skýr;
Því enn þá gleðin ver þig værum örmum
Og veröld að þèr sinni ljóshlið snýr.

Hjá lífsins straumi lètt og rótt þú sefur
Við ljúfa niðinn, sem að eyrum ber,
Á meðan kossa móðurást þèr gefur
Á meðan ber hún þig á örmum sèr.

Ó, sofðu væran, sæll er hver ei vaknar
Til sorga og kvíða, lífðu í draumi rótt,
Í engladraumi, sæll, er hver ei saknar,
Sælla' er að dreyma' um ljós enn vaka í nótt

---

# Tí,tí.

Úrið pabbans tí, tí, tí
Típstir þèr við eyra;
Kvikt þar tautar innan í,
Opt það viltu heyra.

Aldrei tístið í því dvín,
Aldrei tetrið þegir,
Opt um kvöld við átök mín
Arr, arr, arr það segir.

Hver veit nema okkur í
Eitthvert gangverk skrítið
Undir kveði tí, tí, tí
Til þó heyrist lítið?

Barminn litla þreifðu' um þinn,
Þú mitt ljósið bjarta,
Undir titrar óróinn,
Er við köllum hjarta.

Úrið tí, tí iðjar sitt,
Áfram höggva og tifa,
Hratt slær tí, tí hjartað þitt,
Hlakkar til að lifa.

Gullinvængja iði á,
Óstöðvandi hraða,
Líður brátt og berst þèr frá
Bernsku tíðin glaða.

Yndið bezt, sem ann eg heitt,
Óskin mín er þessi:
Lífs þíns tí, tí öll sem eitt
Auðnan margföld blessi.

---

## „Albums“ vísur.

### I.

(Undir nafni ungrar stúlku til vinstúlku hennar).

Senn verður laufið grænt á grein
Og gylt hver stöng á akurrein;
Senn lætur blómin blessað vor
Þèr brosa mót við sèrhvert spor.

En eg kveð sæla Sjálands strönd,
Er signað vorið fer í hönd,
Og yfir haf mig flytur fley
Að fannahvítri Garðars ey.

Því lýsi nú hið litla blað,
Sem löngum fyrir þèr eg bað:
Að von og elska verði þèr
Hvað vor og sumar blómum er.

---

### II.

Sólin handa öllum er,
En ekki jafnt til gleði;
Lýsi' hún æ til yndis þèr
Alt að hinzta beði.

Undan þyrnum sumum sveið,
Suma rósir krýna;
Misjöfn gerist lífsins leið
Lánið greiði þína.

Hljóttu mætin mest og flest
Munarheims í ranni,
Þýða mey, en það, sem er bezt
Í þínum innra manni.

---

## Vegur elskunar.

Sem berglindin bunar að hafi
Svo blíðfara, tárhrein og svöl,
Er jafnt sem um liljugrund ljúfa
Hún líður um harðgrýtis möl.

Svo gengur fram guðdómleg elskan
Um grýtta sem blómgaða jörð,
Hún áfram eins ljúflega leitar,
Hvort leiðin er mjúk eða hörð.

---

## Heilræði.

(Eptir Augustinus, sbr. Th. Moore: Sacred Songs).

Saklaus þó sèrt,
Systir mín, breyskleikans minnug æ vert,
Óhulta eigi þig veiztu,
Aldrei þèr treystu.

Felmtruð sem fló
Fannhvíta dúfan á heiðar og skóg,
Hjá vatnsstraumum leynist og lætur
Laugaða fætur.

Skygnist og sèr
Skuggann í straumnum, er haukur að fer,
Fljótt þá í lauf-fylgsni lundar
Lafhrædd hún skundar.

Lækjarlind sú
Lifandi merkir guðs heilögu trú,
Eilífa uppsprettubrunninn
Af alvizku runninn.

Skuggsjáin skær
Skelfandi sýnir, er kemur þèr nær,
Skugga hins ógnandi auða
Eilífa dauða.

Fári því frá
Flýðu, mín systir, með dúfunni þá,
Líttu, hvað svört er þar syndin,
En silfurtær lindin.

Undu því ein
Við uppsprettu trúar, er rennur svo hrein,
Snjóhvíta, saklausa dúfa,
Systir mín ljúfa!

---

## Efra og neðra.

Aleinn ræ eg út á djúpi,
Ó, sú sjónin skær!
Sjórinn gullnum sólskinshjúpi
Sveipast fjær og nær,

Sjór er gagnsær—grilli' eg niður,
Gnötra eg við að sjá;
Hafskip sokkið! — helgrár bryður
Hákarl bleikan ná.

Áfram ræ eg. ei skal dvelja,
Áfram, bátur! svíf;
Yfir sólbros, undir helja,
Ó, þú falska líf!

---

## Sjálfur eltir sjálfan.

Svartur svipur
Mig í svefni elti
Hart mèr á hælum
Húmi sveiptur;

Firðir voru fráleik
Fætur mínir.
Nær hafði mig gripið
Hinn geigvæni.

„Angistar sviti
Þèr af enni draup
Og hrædd önd
Í hálsi blakti;
Bröltir þú á beði
Og í blundi stundir
Rekinn ramlega;
Rèð eg þèr að vakna“.

„Lít hve um ljóra
Ljómar sunna!
Ei ertu þó elting
Undan sloppinn.
Hvernig máttu forðast
Fylgju slíka?
Eltir volega
Frá vöggu til grafar
Sjálfur sjálfan
Í svefni' og vöku“.

---

## Vonarstjarnan.

Bezt er sú, sem mèr brosti,
Barnhýr vonarstjarna
Ungum, himni angurs
Ofar í skýja rofi;

Hún mèr í húmi skíni,
Hríð þó mæði tíðum,
Heið og hrein til dauða,
Hár guð, veit það tárum.

## Æskan.

Æskan fríða!
Barm þinn blíða
Breiddu fegurð lífsins mót,
Flughröð tíða
Föllin líða,
Frjáls án trega vors þíns njót.

## Æskuhrygð.

Æskuhrygð er eins og mjöll á aprílsdegi,
Á augnabragði einu' hún hjaðnar
Óðar en fyrir sólu glaðnar.

## Vonin.

Hrein og heilög von ei verður tál,
Við það skaltu hugga þig, mín sál!
Vonin sjálf er vonar trygging nóg,
Von uppfyllir sá, er von til bjó.

## Horfin æska.

Á flugárum þytlausum fló burt mín tíð
Og fyrr en eg eptir nam taka
Er æfi mín hálfnuð; eg hrökk við um síð
Og horfi nú fram og til baka.

En þegar mér ljómandi lífsmorgunn hló,
Hve langt sýndist skeiðið þá vera!
Því hvarfstu, mín æska, svo óðfluga þó?
Það áttirðu mér ei að gera.

Sem ör flýr af álmi, sem elding við skein,
Fyrr en augað og hugurinn nemur,
Í hyldýpi ránar sem hent væri stein',
Þú hvarfst mér og aptur ei kemur.

Þá halla fer vegi, þess hraðar hann vinst;
Frá hádegi skuggarnir stækka,
Og eptir því skjótari æfin oss finst
Sem augnabliks glaðværðir smækka.

Skjótt hverfur und áranna fallandi fönn
Vort fjörbragð og lífsblóminn rauði;
Frá vöggu til grafar er vart meir enn spönn,
Nú vertu minn kennari, dauði!

———— ———

## Breyting.

Áður fyrr var ungum gleðin
Árhýrt brosið vordags klára,
Sorgin dögg í sólblæ vögguð
Snemma þornuð vors á morgni:
Breytt með árum bros og tárin
Blíðu skerð í stríði gerðust
Köld og tvist sem helzt á hausti
Hlátur mána og skýja grátur.

---

## Trygð.

Eins og stjarnan yndisfríða,
Upp þá rennur laus við ský
Heiðskær yfir hauðrið víða —
Hvert eitt kvöld hún er oss ný;
Svo skín þeim, er harma' af hjarta,
Háleit minning sífelt skær,
Aldrei myrkvast myndin bjarta
Meðan hjartað trygga slær.

---

## Aunablikið.

Eitt einasta syndar augnablik,
Sá agnar-punkturinn smár,
Opt lengist í æfilangt eymdar stryk,
Sem iðrun oss vekur og tár.

Eitt augnablik helgað af himinsins náð
Oss hefja til farsældar má,
Svo gjörvöll vor framtíð er geislum stráð
Og gæfan ei víkur oss frá.

Eins augnabliks sigur, sè ákvörðun rètt,
Oss eilífðar hnossi fær gætt,
Eins augnabliks tjón, það er annað en lètt,
Vart eilífðin getur það bætt.

---

## Draumsiglingin.

Þú dreymandi siglir um dvalarheims ver,
Með dragreipi bundið og stýri,
Og vaknar ei fyrr en við skipbrotsins sker,
Þá skeldur er kjölur frá hlýri.

Þá fálmarðu' í brimöldum, feigðanna son!
Og felmtur að hjartanu sverfur,
Á ferjunnar kjaltrè, sem kallað er: von
Þú klöngrast og sökkur og hverfur.

---

## Við andlátsfregn.

Sem eitt sinn litin yndis-sjón
Í ástar-hug fær geymzt,
Sem inndælt sönglag eitt sinn heyrt
Fær aldrei síðan gleymzt,

Svo varstu mèr, hið væna sprund,
Mín vera greip við þèr,
Og göfug, fögur, góð og blíð
Þú gleymdist aldrei mèr.

Og því var það, mèr brá í brún,
Er barst sú fregnin þung
Sem þytur lopts úr þrungnum geim,
Að þú varst dáin ung,
Því einnig eg fann tregans til,
Þó tungan mælti fátt.
Eg syrgði þig af hjarta og hug
Sem hefði' eg geð þitt átt.

---

## Lofsöngur.

Guð, hæst í hæð, þig himnum ofar
Í heiði stjarna mergðin lofar
Með göngu sinnar himinhljóm;
Þó sèr ei meira sjónin veika
En sjálfs þíns guðdóms skuggann bleika,
Ei þig í hæstum helgidóm;
Einn dropa' af dýrð, ei dýrðarhafið
Sèr dauðlegt auga, þoku vafið,
Og hvað mót veru verk þitt er?
Ó, lútum guðdóms geisla valdi,
Þèr, Guð! vor sál í skuggsjá haldi
Sem daggtár sólar blíðmynd ber.

Guð, hæst í hæð, þèr hörpur óma
Í hvössum ægigeisla ljóma,
Við engla-skarans sigursöng,
Þar himnesk dunar hljóðstraums bára,
Þú heyrir samt frá djúpi tára
Hvert andvarp manns við örlög ströng.
Dýrð sè þèr hátt og djúpt í geimi,
Þú dreifir myrkrum, lýsir heimi,
Send vorum anda von og þrótt;
Hvað megnar allra myrkra kraptur?
Þín máttarhöndin leiðir aptur
Úr sorta ljómann, sól úr nótt.

II

Himininn hár!
Dýrðskreyttur dagsól og stjörnum,
Dásamur mannanna börnum,
Himininn hár!

Breiðfelda jörð?
Fram sem alt lifandi færir,
Frjófgar og blómgar og nærir,
Breiðfelda jörð!

Svipmikli sjór!
Ýmist í ofviðri stríður,
Eður í logninu blíður,
Svipmikli sjór!

Skaparans dýrð!
Lífs allur kveður við kórinn,
Kveður við himinn, jörð, sjórinn:
Skaparans dýrð!

---

## Helgidagurinn.

Helgi drottins dagur!
Dýrðar sunna þín
Eins og guðdóms ásján
Upprennandi skín;
Er sem opnist himinn,
Er sem bæn og náð
Mætist milli skýja,
Morgunn gyllir láð;
Bergmálsblíð um dali
Berast klukkna hljóð,
En í hæðum óma
Engla sólarljóð.

---

## Lífshvöt.

Grátinn jarðlífs gestur,
Geisla heims eg leit;
Sortnar sjón og brestur
Sízt eg meira veit.

Sjónir sólar njóta,
Sástu fegra' um ár?
En að innan fljóta
Angri þrungin tár.

Ó, þú veröld auða,
Aumra manna her,
Svipir sálar-dauða
Sýnist vera mèr.

Spor hvert spennir snara,
Spilling nær til als,
Ást er í veröld vara,
Vináttan er fals.

Ræður hatur, heimska
Heims í tryltum glaum,
Að ending eilíf gleymska
Illum fylgir draum.

Hvað er flugið hugar,
Hvað er sannleiks gjöf,
Ef mig angist bugar
Uppvaknandi' í gröf?

Hug við heimi stuggar,
Hált er lífsins skeið;
Sorgarskýja skuggar
Skyggja mína leið.

Því skal þakkir inna
Þèr náttúru vald?
Hjartans harma minna
Hljóttu skyldugjald.

Það, sem þáð með gráti,
Þakka sízt eg mun,
Lýk eg þèr í láti
Ljúft með andvörpun.

---

Ó, þitt orðið þunga
Ómar dauðum frá;
Hress þitt hjartað unga,
Hrelda þerðu brá.

Trúðu' á tvent í heimi,
Tign sem hæsta ber,
Guð í alheims geimi,
Guð í sjálfum þèr.

Alt frá einni skundar
Anda sól í heim;
Alt að einum stundar
Undrakrapti þeim.

Ást hins eilífsanna
Efld með frelsis dug,
Einlæg ást til manna
Örfi guðmóðs flug.

Þannig ber að þreyja,
Þessu stefnt er að:
Elska, iðja' og deyja,
Alt er fullkomnað.

Stuttan dag skal stríða
Styrkum andans þrótt,
Þú munt þá ei kvíða
Þeirri löngu nótt.

Þú í framkvæmd, fræðslu
Finn þinn læknisdóm,
Þá til harms og hræðslu
Hefir þú ei tóm.

Afl hver á að reyna,
Afl sem hefir þáð;
Sú er sælan eina,
Sem að fæst með dáð.

Vopndjörf sál þín verði,
Varpaðu fargi kífs,
Fylg með sannleiks sverði
Sólarmerkjum lífs.

Líttu dólga dimma,
Drembið myrkra lið
Færa fylking grimma
Fram á vallar svið.

Líttu ljóssins skara, —
Leiptra geislaspjót, —
Bjarta fylking fara
Fjanda liði mót.

Fyrir sök hins sanna
Sèrtu í ljóssins her,
Vængir Valkyrjanna
Veifast yfir þèr.

Líf er herför ljóssins,
Líf er andans stríð,
Sæk til sigurhróssins,
Svo er æfin fríð.

Þú ef þeirrar raunar
Þolir stríð og vos,
Æfi andvörp launar
Andláts sigurbros.

---

## Tvenns konar saga.

Sagan merkismenn oss tèr,
En mörgum týna náði;
Mannkyns saga önnur er,
Sem aldrei nokkur skráði.

Sægur stjarna sindrar skær
Sjónhrings yfir boga,
En alt eins fagrar eru þær,
Sem undir honum loga.

Hálft er munað, hálft er gleymt
Hèr í jarðar skræðum,
Alt er munað, alt er geymt
Í alvitundar hæðum.

---

## Vegur sannleikans.

Sagan þèr, ef vita vilt,
Vottinn þess mun sýna,
Hversu margopt mannkyn trylt
Myrt hefir lækna sína.

Uglur hatast sárt við sól,
Sannleik veröld fjónar,
Leggjast má und hervagns hjól
Hver, sem eilífð þjónar.

Harðstjórn grimm og heimskan blind
Hástól þegar skipa,
Rannsókn frjálsleg reiknast synd,
Reidd er böðul-svipa.

Fyrir unnin andans hnoss
Urðu tíðum launin:
Eitur, brenna, kyrking, kross,
Kvala blóðug raunin.

Aldrei samt — það lán var lènt —
Lubbar, dóm er sátu,
Eitrað, höggvið, hengt nè brent
Hugmyndirnar gátu.

Píslarblóð er sannleiks sáð,
Sáð, er döggvast tárum,
Á það heilög himins náð
Hreyfir geislabárum.

Fyrir sigri sannleiks bið
Sem að vondir níða;
Sannleik veittu sjálfur lið,
Sjálfur þorðu' að líða!

---

## Mjótt milli.

Hrollir mèr hugur
Er hugsa eg til
Millibils mjóddar
Í manns veru:
Ástar og haturs,
Harms og sælu,

Vits og vanvits,
Vamma og dygðar,
Engils og hrædýrs,
Himins og vítis.

---

## Bardagi lífsins.

Nefn það ei stundarheims stríð, ef stríðir við mótlætið eina,
Líf þitt ef líðun er tóm, lát vera að kalla það stríð.
Stríð er þitt stundarheims líf, ef stríðsmaður ert þú hins góða,
Öndverður illsinnum mót ýmist í sókn eða vörn.
Hugsaðu: Hvar sem eg er, mig hitt getur drápskúlan snara,
Falli' eg í framkvæmdum góðs, felmtra eg þarf ei við hel;
Ef þú við bana svo býst á bardaga-vegum hins góða,
Hnígurðu heiðurs í val hvar eða nær sem þú deyr.

---

## Föðurland og mannheimur.

Föðurland sem hjarta-hringur hlutast manni;
Þar er vaggan, þar er leiði,
Þar skín fegurst sól í heiði.

Andans-hringur veit eg víst er víddar-meiri,
Ættjörð samt er inst í honum
Endurminning krýnd og vonum.

Fer að réttu ættlands-ástar ef að hlynur
Þeim mun sem er þrengra' um rætur
Þess meir topplim breiðast lætur.

Fagra trè, svo fast við jörð, en frjálst við himin,
Hneig þú greinar ástríkt yfir
Alla slóð þar mannkyn lifir.

---

## Svanfleyga sál.

Svanfleyga sál!
Svifin til himins þú stundarheim yfir
Sólhrein með englum í ljósvaka lifir,
Nær lít eg þig, elskaða, burtfarna sál!
Seg, hvar þú skín;
Hve þögul er nóttin með þúshundruð loga,
Þín leitar sjón mín um stjarnanna boga,
Hvar má eg finna þig, heilaga vera?
Hve nær fæ eg vængina, sem að mig bera
Til þín?

---

## Skin eptir skúrir.

Morgun sveipti sorgardrunginn,
Sveif um dagmál tárakaf;
Brást um hádag þoku þrunginn
Þèr að skini nokkuð af;
Grátnum fèkk þèr fagurt nón
Friðarboga og röðul-sjón,
Kvölds þíns heiðsól hafsbrún ofar
Helgum morgni lofar.

---

## Við hafið.

Við hafið eg sat fram á sævar-bergs stall
Og sá út í drungann,
Þar brimaldan stríða við ströndina svall
Og stundi svo þungan.

Og dimmur var ægir og dökk undir èl
Var dynhamra-borgin,
Og þá datt á náttmyrkrið þögult sem hel
Og þungt eins og sorgin.

„Þú, haf! sem ber tímans og harmanna farg,
Þú hugraun mèr vekur,
Í hjarta mèr inst, þá þú brýzt um við bjarg,
Það bergmála tekur“.

„Þinn niður er hryggur, þinn hljómur er sár,
Þú hrellir svo muna,
Sem brimdropinn hver væri beiskasta tár,
Hvert báruhljóð stuna“.

„Af aðsigi tára fá augu mín kvöl
Með ekkanum stranga,
Hèr vildi eg gráta sem barn alt mitt böl
Við brimniðinn langa“.

En dimmraddað hafið þá knúðist að klett,
Það klökk ei nè stundi,
Í hríðfeldum boðum, sem þeystust að þètt
Það þrumandi drundi:
„Þú, maður hinn veiki! það magn, sem eg hlaut,
Ei mæðist af kvíða,
Hvað stoðar að tárast? Í þungri ber þraut
Að þola og stríða“.

---

## Undir áramót.

Skammdegis myrkrið skugga yfir dregur
Og skautið jarðar klæðist dauða hjúpi;
Fjarlæga vorið felst í tíðar djúpi,
Ó, fagra sól, hve lágur er þinn vegur.

Markaðan baug þú bráðum hefir runnið,
Þú barst mèr lítinn fögnuð árs á skeiði;

Sýnt hafa nornir napurlega reiði
Og örlögþáttu ýmisleita spunnið.

En hvað, sem verður, vil eg samt ei kvarta, —
Á vegi mínum fram til aldurtila
Þó margopt skyggi mæðu èlin hörðu
Er máttur til, sem gerir sálu bjarta
Og heims við aðköst ei mig lætur bila,
Á meðan höfði held eg yfir jörðu.

---

## Við leiði.

Eg hati þig?
Fyrr hata' eg blóð, sem rennur mèr í æðum,
Fyrr hata eg sól í hæðum, —
Þó sárt þú særðir mig.

Hvort munum sjást
Þar misskilningar loksins hljóta' að enda,
Þar ekkert ílt má henda
Og ríkir eilíf ást?

Eg misti þig
Og mátti' ei framar öðlast þína hylli,
Er rógur einn hinn illi
Án saka svipti mig.

Eg misti þig
Og mátti' ei við þig fyrir dauðann tala,
Að blíðka' hinn beiska kala, —
Svo hvarfstu hels á stig.

Nú tregarík
Eg tár af þessu felli við þitt leiði:
Að ást þín áður deyði
En sjálfur lástu lík.

En opt er mèr
Sem yfir djúpið hönd þèr vildi' eg rètta
Og mæla af munni þetta:
„Þinn vinur enn eg er.“

Hve hugsun sú
Er harðla tóm, þá gröf og dauði varna!
Hin fjærsta, fjærsta stjarna
Mèr nú er nær en þú.

Hèr er svo hljótt,
Eg hugsa um þig, um liðna tíð og dauðann,
Eg mæni' í myrkgeim auðan
Og grafkyr grúfir nótt.

Hví flutt ei fær
Í friði nætur himin eða storðin
Þín signuð sáttar-orðin:
„Þú aptur ert mèr kær.“

---

## Veðraskiptin innri.

Æsir hug minn ofurstríð,
Angur, hatur, reiði,
Rètt sem ský, er rokna hríð
Rekur yfir heiði,
Þètt af vætu, þrungin glóð,
Þjóta í tindum vinda hljóð.

Æðir skúr, en í því brýzt
Ástsól skýin gegnum,
Góða veðrið brátt til býst,
Bregður stormi og regnum;
Verður sál, þá svakinn flýr,
Sólskins dalur friðarhýr.

---

## Enginn til foldar fuglinn smár.

Enginn til foldar fuglinn smár
Fellur án drottins vilja,
Öll vor hann telur höfuðhár,
Hans ráð má enginn skilja,
Viðkvæmnin samt í víli sár
Veldur, að brennheit sorgartár
Sólbjartan himin hylja.

---

## Sakleysi.

Sakleysis gæt og saurgast því
Aldrei af heimsins illum solli
Alt eins og sólin forarpolli
Svífur yfir, þá sýnist í.

---

## Vængirnir.

Þó guð gefi vængi, má binda við þá blý,
Svo bannað veiður flugið til himins yfir ský;
Æ, vald því ei sjálfur, því fár er flugsins þrot,
Og farinn er hver andi, sem missir vængja not.

---

## Svanur.

Fannhvíti svanur, saurgu bundinn dýi,
Svifárum stritar þú og losast eigi.
Með dauðans aflraun fljúgðu' úr fúlu legi
Þar engilvængir atast svörtu slýi.

Ó, slít þig þaðan, þú hinn ódauðlegi,
Upp, upp úr díki vangjaflug þitt stigi
Til blárra heiða himins nærri skýi,
Að hreinni mjöllu vötn þig lauga megi.

Guðs sem af ásján unaðsgeislar standi,
Yfir þér skín þar himinn síljómandi.
Og þangað hefjist hljóð þín silfurskæru
Af helgum vötnum, þar á djúpi tæru
Ástfanginn himinn hvílir sem í draumi
Hniginn á jörð að tárabjörtum straumi.

---

## Sönglistin.

Svífðu nú sæta, söngsins englamál!
Angrið að bæta, yfir mína sál;
Tónaregn þitt táramjúkt
Titri nið'r á hjartað sjúkt,
Eins og dala
Daggir svala
Þyrstri rós í þurk.

Inndæl sem kliður ástafugls við lind
Rammefld sem niður reginhafs í vind,
Óma, sönglist! unaðsrík,
Önd mín hrifin, svani lík,
Blítt í draumi
Berst með straumi
Út á hljóms þíns haf.

---

## Eros með vog.

Það milli svefns og vöku var,
Eg vitrun eina sá;
Mèr Eros fyrir augu bar
Í allri fegurð þá.

Og láðs og himins milli mitt
Sú myndin æskurjóð
Með skæra dýrðar-skinið sitt
Á skýi gullnu stóð.

Og býsna stór hann birtast vann,
Eg brátt nam undrast það,
Að álm ei bar nè örvar hann,
En annað þess í stað.

Því glæstri hèlt þar gullvog á
Sá guð í hægri mund,
Og geislum henni og honum frá
Um himin sló og grund.

Í hinni tveim hann hlutum snýr,
Eg hygg að litnum fljótt:
Sá annar ljós sem dagur dýr,
En dökkur hinn sem nótt.

Hvað merktu þeir? ei seint var svar,
Nè sýndist annars völ:
Sá annar sælan ástar var,
Sá annar hennar kvöl.

Til himins gullvog hóf hann svo
Og hægt á skálar lèt,
Á sína hvorn þá hluti tvo
Að höfgann vægju met.

Ei misþungt varð á metum þeim,
En mjög svo reyndist slètt
Og hnitjafnt stóð með hlutum tveim
Í hófi mundangs rètt.

Sem skrautfiðrildi á vogar vit
Þá væn flaug guðsins brúð
Með dýrðarvængja dásamt glit,
Hin dulda Psykke prúð.

Á sælu hlut hún settist glatt
Og sjá þá skiptin fljót!
Að jörð seig hann, en hinn sèr vatt
Til himins upp á mót.

Þá Eros hýrri brosti brá,
En burt var sjón í því,
Er dimma færðist draumslóð á
Og drógust fyrir ský.

Þú, ástguðs brúð, hans sálar sál,
Er sigra bölið vill,
Þig sjálfa legg á sælu skál
Og sigur hennar fyll.

---

## Svefninn.

Skínandi vængjum úr vestri þú flýgur
Værum á kvöldum úr myrkranna dal;
Þar sem að eygló í eldskýjum hnígur
Eilífa móðirin skauti þig fal.

Draumanna sveimur frá sólhvílda djúpi
Svífur með þèr yfir foldarheims ból,
Þegar að grímu í heiðstirndum hjúpi
Hefjast vèr lítum á drottningar stól.

Mjúklega döggvar þú daglúið auga,
Drepur á hvarmana svæfandi grein,
Kyssir á sjónir, er sorgartár lauga,
Söknuðinn deyfir og grátenda kvein.

Alla þú reynir að hugga og hressa
Í hreysinu jafnt og í keisara sal,
Hugljúfum ástgjöfum blíðum að blessa
Barnið í vöggu og karlægan hal.

Alt þegar sigrað af dvalanum dormar,
Dýrin um heiðar á náttrakri sæng,
Fiskar í djúpi og eldfránir ormar,
Ungar í hreiðrinu móður und væng.

Tungl skín í heiði og himneskur friður
Höfugum blómknöppum vaggar í ró,
Vindarnir þegja og vatnanna niður
Værðarljóð kveður í þögulum skóg.

Friðgjafinn ljúfi, svo líknar þú heimi,
Lyfjar með gleymskunni sorgir og neyð,
Dimmum svo nætur þú drotnar í geimi
Unz dagurinn nálgast um óttunnar skeið.

Þegar að svífandi, svipfagur andi!
Svarthjúpuð móðir í faðmi þig ber
Og burtu þig flytur af birtunnar landi
Borð fyrir jarðar er steypir hún sèr.

Veifaðu dimmblæjum, dularheims gramur,
Deginum ljósara myrkföru barn,
Þú sem að ávalt ert sjálfum þèr samur,
Síblíður, tryggur og miskunargjarn.

---

## Örn og fiðrildi.

Fiðrildið glaða
Flýr á blóm af blómi,
Blikvængjum baðar.
Er brosir morgunljómi,
Döggvot er sængin,
Það dustar á strái
Purpuravænginn,
Er vaknar það af dái,
Lágt á láði rólar,
Lyptist ei til sólar.

Orninn eldeygur
Sem örin í skyndi
Svífur svipfleygur,
Sendist tind af tindi;
Vængjum hann beitir
Í víðum himni falinn,
Svif um himinsalinn
Hjá sólvanga þreytir,
Eigrar um efri heima,
Undir skýin sveima.

Sæla er að sjúga
Sætar varir blóma,
Frægra að fljúga
Til foldar himinljóma.
Milli röðuls og rósa
Reyndu, sál, að líða,
Þrekmikla og þýða,
Þá skal flugi hrósa,
Því heims af góðum grami
Gaztu báða hami.

---

## Elfur og lind.

Elfur:

Lind, er sitlar smá,
Seggir vita ei nafn þèr á;
Hróðurnafn mitt heimur tèr,
Hvað ert þú hjá mèr?

Lind:

Ónefnd víst er eg,
En þó kunn á blómaveg,
Þú ert stór af saurnum svört,
Smá er eg og björt,

Elfur:

Hver þitt hjal
Heyra má í grænum dal?
Veröld heyrir voðahljóð,
Þar veltur elfar flóð.

Lind:

Ljúft und lágum nið
Liljur dreyma bakka við;
Sofnar margur sætt á grund,
Sem eg kveð í blund.

Elfur:

Allir óttast mig
Öldufölllin geigvænlig
Fram úr gljúfrum geysast hvít,
Grænan svörð eg brýt.

Lind:

Allir elska mig,
Aumir, þyrstir hressa sig
Á vatni mínu' eg vin ei svík
Og volka engin lík.

Skær og lítil lind
Ljósa speglar sólar mynd;
Skuggsjá mín er minni en þín,
En mynd þar fegur skín,

Elfur.
Hverfðu' í hylinn minn,
Hingað færðu dropa þinn,
Þó að litlu muni mig, —
Til marar ber eg þig.

Lind:
Vart þú vex af mèr,
En víst eg saurgast mun af þèr;
Eins minn verði ósinn tær
Sem upptök fjöllum nær.

Renn þú raupi með
Ránar fram að djúpum beð,
Þá byrgjumst við í breiðri dröfn
Beggja stærð er jöfn.

---

## Kornaxið og rósin.

Við rós kvað ax til ámælis:
„Eg er nytsemd og þú ert glys“.

Ansaði rós og ýfðist rauð:
„Eg er fegurð og þú ert brauð“.

Þá mælti beggja móðir, sól
„Metist ei, börn, um frægð og hól“.

„En hvort öðru sýni þau heiðurs skil,
Sem höfundur lífs hefir ætlazt til“.

„Þú, nytsemd! láttu fegurð í frið,
Þú, fegurð! kannastu nytsemd við“.

---

## Saklaus og slægur.

Söngfugl á greinunum glaður
Gelur af elskunnar nægð,
Und björkinni byltir sèr naður
Bólginn af vonzku og slægð.

Af ílsku hann eitrinu hvæsir,
Yptir sèr jörðinni frá,
Bugðum um limar hann læsir,
Litlum vill óvitring ná.

Syngjandi fuglinn burt flýgur
Flugglaður himninum mót,
Illviljuð eiturkind hnígur
Aflvana meiðar að rót.

---

## Nautið og lóan.

Þar sè eg hvar lóan hin létta
Sèr lyptir í bláhimins sal;
En jafnlendis jörðu við slètta
Rís jórtrandi nautið í dal.

Því lízt ekki á lóuna smáu,
Því lízt ekki á himneska för,
Nè sönginn í sölunum bláu
Og sumargleðinnar fjör.

Með bolahljóð bölvar það illa
Og baular sem frekast það má:
Það vildasta' er vömbina að fylla
Og velta sèr jörðinni á.

Þú stangaðir, naut, ef þú næðir,
En nautshornin eru' ei svo löng;
Svo heyrðu hvað lóan þig hæðir
Um himin er fer hún með söng.

Hún segir þèr: „Sitt skal hver æfa,
Því söngflugið inndæla mèr
Og vængirnir háfleygir hæfa,
En hornin og klaufirnar þèr."

---

## Hundaþúfan og fjallið.

Hundaþúfan hreykti kamb
Hróðug mjög með þurradramb.

Skamma tók hún fremdar fjall:
„Fáðu skömm, þú ljóti karl!“

Fjallið þagði, það eg skil;
Þekti ei, að hún var til.

---

## Maurildi og stjörnur.

Á lopti bláu lýsti um kvöld
Með logabirtu stjarna fjöld.

Og húmsins skuggar grúfðu' að grundu,
Hvað glórði fram á samri stundu?

Við fiskiver á fjöru-rein
Af fjölda maurildanna skein.

Þau lyptu sínum ljósa kamb
Og lofuðu sig með gort og dramb:

„Frá sleipri grund sèr slær vort skin,
Vèr slögum upp í ljósin hin “

„Þær stjörnur kunna að stolta af sèr,
En stjörnur erum líka vèr.“

Svo háfleygan þau höfðu diktinn,
En, hvað þau vóru, sagði lyktin.

---

## Fósturlaunin.

Maður yrling tóu tók,
Tamdi og ól í skemmu krók;
„Tóu“, sagði hann, „tryggja' eg skal.“
Tölti' hún stálpuð fram á dal,
Ræktargóð hans gimbrar beit, svo galt hún hal.

---

## Veitingarnar hjá Tóm.

Úr tómri flösku í tóm glös hann
Trygðaríkur skenkja vann.
Kýminn sagði' eg: „Vel er veitt“.
„Vinur, drektu“, hinn kvað greitt,
„Ölið freyðir, æ, þú drekkur ekki neitt“.

Ekki er þetta ofangreint
Að eins diktur, það er reynt;
Ölið rèttnefnt, *Ekkineitt*,
Opt með háðið sárabeitt
Herra *Tómur*, heimurinn, mèr hefir veitt.

## Höfnin.

Hann tók að óttast opna dröfn
Og inn því sigldi' í leguhöfn;
„Þú, trygga höfn, skalt hlífa mèr;"
Í henni fórst hann samt því ver,
Sú trygga höfn því huldi' í sèr
Hans skipbrots sker.

---

## Mikið fær sá, sem mèr veltir.

Maður fann í fjallauðn stein
Fornri merktan leturgrein;
Hver, sem um það hafði vèlt,
Höggletrið var skelt og felt
Með þeim orðum: Mikið fær sá mèr getur velt".

„Hæ, hæ", sagði' hann, „hulinn seim
Hèr eg finn und steini þeim;
Ó, hvað lánið eltir mig,
Að eg fyrstur hitti þig
Geymdan hèr, sem glögt mèr snýr á gæfu stig".

Heilan dag við stærðar stein
Stimpasl karl með tök ósein;
Steini' ei loks hann velt fèkk við,
Vel skýr stóðu' á neðri hlið
Orð þau letruð: „Ekkert nema ómakið".

---

## Marteinn og djöfullinn.

Marteinn fór í flyðrulegu,
Frúar sinnar dygðatregu
Gullhring rauðum egndi öngul,
Ætlaði stóran drátt að fá;
Hann var að keipa' og keipa' á ægi,
Um kvöldið trúi' eg loks hann drægi
Magra skötu illa æta,
Ygldist fiskimaður þá.

Skinnstakksklæddur sjálfur Satan
Sá hvar lá í fjöru skatan,
Glottandi við Martein mælti:
„Flónska er að bjóða fiskum gull.
Annað kyn mun ólmar gleypa,
Eptir því er vert að keipa,
Veið mér sálir, þá mun þungar
Seilar draga ferjan full“.

---

## Ostarnir.

„Sko, hvar rís í austri ostur!
Æ, því miður gefst ei kostur,
Að eg fái af honum sneið;
Einhver er, sem utan sker hann,
Alt af vex hann jafnt sem þver hann;
Slíkan ost eg opt hef þreyð.“

Svo kvað hvinn, er hófst upp máni,
Hendir margt að skelmis láni,
Eitt á leið hann ostbúr fann.
„Osti himins aldrei næ eg,
Ost á jörðu“, kvað hann, „fæ eg“, —
Tók þann stærsta og hljóp með hann.

---

## Meyjan með hárið.

Álíkt og sólar geislar glóa
Gullskært við jökuls fanna-brún
Og yfir ljósa leggjast snjóa,
Af lokka prýði skartar hún;
Um drósar svanahvítan háls
Hárlokka bylgjan streymir frjáls.

Þú býst við meiru', en brátt er þrotin
Sú brúðar lýsing einkar fríð;
Ef vill til ferðu að verða skotinn
En varnað mest á því eg býð,
Því meyjan þessi, er margur þrá'r,
Er meira vart enn eintómt hár.

---

## Sumarheiðríkja.

Í sumardýrð á himni háum
Með hatt og skó úr sólar gljá
Hver dagur nú á buxum bláum
Og blárri treyju gengur hjá.

„En hvernig nótt sig hefir tygjað?"
Eg hygg þú munir spyrja fljótt.
Eg get ei leyst úr þessu, því að
Um þennan tíma er engin nótt.

---

## Tóa og refur.

Þau kothjónin kvöddust á Grenjum,
Ei kvint þar á milli jeg gef.
„Þú, kona!" við burtför kvað bóndinn,
„Nú byrjar mitt langferða stref."

„Það eitt þér í einlægni segi' eg,
Og ei til að gera neitt þref,
Eg trúi þér eins vel og tóu
Þá túngarð að baki jeg hef".

„Þú, maður!" kvað menskorð og glotti,
„Það mundi víst kaups-kaups, — því ef
Þú trúir mér eins vel og tóu,
Þá trúi' eg þér eins vel og ref."

Hann sèra *Habakuk* heyrði
Þá hnittnina um tóu og ref
Og þá sagði' hann: „Þettað er skáldlegt
Og þyrfti að komast í stef.“

---

## Rútur og Máni.

Fyrir nokkru sól var sezt í mar,
Sigin undir dimmar vesturs grindur,
Nýbúin hún *Njörfadóttir* var,
Nóttin gamla', að láta út sínar kindur.

Silfurulluð sú fór hjörð á beit,
Sægur var um bláa loptsins haga;
Í því birtist ásýnd rauð og feit,
Upp á himin *Máni* tók að slaga.

Sætkendur var smalinn stjarna þá,
Segjum heldur alveg fullur var hann;
Þungt samt nokkuð höfði' ef hans var á,
Höfga þann með stakri velsæmd bar hann.

Ei er kyn þótt sloki þessi þegn
Þúsundmargar ægis-veiga kollur,
Gamanfátt er allar aldir gegn
Óteljandi að vakta himins rollur.

Hitt er víst: hann heldur dyggan vörð,
Hvergi nein úr flokknum burtu stekkur,
Svo að ávalt tölu heldur hjörð
Hvernig svo sem smalatetrið drekkur.

Mungáts kyngi Mána skein af brá,
Mærar lèk um varir brosið þekka;
Rödd eg heyrði bláum brautum frá:
„Bróðir! nú er veður til að drekka“.

Opt það segja ekki lèt eg mèr,
Augum til mín karlinn sýndist lygna.
Vinur sæll! til samlætis með þèr
Svo er bezt eg láti í kolli digna.

Gekk eg inn í gestveitinga hús;
Glugga nær, þar Máni beint inn horfði,
Tæmdi eg síðan krús á eptir krús,
Kollinn þar til hneigði' eg yfir borði.

Máni leizt, er dró á drykkju-túr,
Drypta rauðum neistum fram úr kyndli,
Klúbbs er út eg komst úr dimmum skúr,
Kveikja reyndi' eg hjá honum í vindli.

Góðtemplurum mundi slíkt til meins;
Máninn fulli tælir drjúgt að vonum,
Svo á túr eg endrum fer og eins,
Ekki mèr er vandara' um enn honum.

---

## Fèpúki og fátæklingur.

Furtslegum fèpúka á stræti rèð fátækur heiðurs-
karl mæta;
Ofan fyr ágjörnum tók öreiginn kurteisi með
Eins og við ódæði hinn þá ygldist og tók ekki
kveðju
Áfram sinn vasandi veg; við stóð hinn fátæki'
og hló
Þyljandi þannig við sig: „Nú þetta var ei nema'
að vonum,
Manninn í manni því ei Mammon hinn rangláti
sèr.
Durturinn drambar við mèr. því dauðanum var
eg ei króna?
Kurteis þá hefði víst hann hneigt sig og tekið
mig upp."

---

## Þrek og viðkvæmni.

Hjarta mitt stælist við stríð, þó stenzt á hvað
vinst og hvað tapast;
Það, sem mitt þrek hefir grætt, það hefir við-
kvæmnin mist.

---

## Sverð og lífsteinn.

Sorgarhjör mèr sviða gerði,
Samt ei vann mèr slig,
Lífsteinn var í sáru sverði,
Sem að græddi mig.

---

## Hefnt.

Hefna þín aldrei þú átt, gegn illindum verstu með dygðum;
Hefndin er heimskunnar fró, hún grípur ætíð í tómt.

---

Gröf sínum óvin hann gróf, þá gróf honum Dauðinn að baki
Aðra, sem o'n í hann valt áður enn fullgerð var hin.

---

## Sorg og sorgleysi.

Þó þú aumkvist yfir mann,
Sem angur sorgin vinnur,
Mest þú aumkva ættir þann,
Til engrar sem að finnur.

---

## Virðing og ást.

Virðing þú segist mèr veita, svo veittu mèr ást
þína líka,
Ilmlaust ei bjóð þú mèr blóm, bragðfrítt þó sè
það að lit.

## Ásteytingarsteinar.

Mitt hold varð aumt og iljum blæddi þá,
Er urð eg tróð og brunahraunin svörtu,
En einnig sál mín steyttist steinum á,
Og steinar þessir voru — mannleg hjörtu.

## Öfund.

Eggjaði skýin öfund svört,
Upp rann morgunstjarna:
„Byrgið hana, hún er of björt
Helvítið að tarna“.

## Lukka.

Veit eg firrast viltu mig
Og við mèr nefið hrukka;
Farðu vel, nú þekki' eg þig,
Eg þarf þín ekki, lukka!

Mig hefir vilt þitt veila skin,
En vörn eg hlaut mót illu,
Himininn nú eg hef að vin
Og hirði' ei grand um frillu.

---

## Kráka og svanur.

Slettir kráka á svaninn saur,
Sjálf er hún dökk sem áður
Og hann, sem fyrrum, undir aur
Alskær, mjallafáður.

---

## Heilræða stökur.

Tæp er heimsins tálar-lyst,
Teymir fylgjur stríðar,
Blómin fögur ber hún fyrst,
Beiskan ávöxt síðar.

Fáðu' ei Loka fyrir vin,
Festu' ei von á skýi,
Firrstu blendið brúða kyn,
Bygðu' ei hús á dýi.

---

Tækifærið gríptu greitt,
Giptu mun það skapa,
Járnið skaltu hamra heitt,
Að hika er sama og tapa.

---

Hafðu í láni hóf á þèr,
Hæglega kann að skeika,
Gleðibyrinn böls á sker
Ber þitt fleyið veika.

---

Sèr til happs að hrella mann
Hefnir sín með árum;
Flý sem helið fögnuð þann,
Er fæst með annars tárum.

---

## Mannkyn og skríll.

Eg framtíð mannkyns fullvel kann að meta,
Á framtíð skrílsins trúi þeir, sem geta.

Svar:

Ef mannkyn frelsast, frelsast skríllinn líka,
Í fylling tímans sigrar náðin ríka.

---

## Góðverk.

Ef góðverk þú vinnur, þá ger það af dygð,
Hreint „gratis“ og heimtaðu' ei þökk eða trygð;
Einn gullhringur sè það í græðis djúp þeyttur,
Ei glófagur öngull af sjálfselsku beittur.

---

## Ytri og innri kranz.

Ytri kranz, sem ýtar fá
Einatt blómgun týnir;
Óvisnandi' er að eins sá,
Sem innri manninn krýnir.

---

## Sorg og gleði.

Sorg og gleði geðs frá rann
Glöggva eining sýna;
Blika tár í brosi kann,
Bros í tári skína.

---

## Gull í gleri.

Sálin er gullþing í gleri,
Geymist þó kerið sè veilt;
Bagar ei brestur í keri,
Bara ef gullið er heilt.

---

## „Hefði, hefði.“

„Hefði jeg bara varkár verið!
Af varaleysi slysið hlauzt!“
„Já, hefðirðu' ekki hleypt á skerið,
Heilt væri skipið efalaust“.

„Skynsemin sagði, að skerið tefði
Og skipið þyldi' ei slíka raun,
En skeð er skeð og „hefði, hefði..“
Hèðan af stoðar ekki baun“.

## Um ríka stúlku.

Æ, fyrirgefðu mèr, gulltunna góð!
Í grandleysi hèlt eg að værirðu fljóð!
Eg þekki þinn brúðguma, þú átt hans von;
Það er hann *Ríxdalur Spesíuson*.

## Engillína.

Hún Engillína æsir mikið bál
Með afli fríðleiks, slíkt eg mjög vel skil,
En ef þið leitið eptir hjarta og sál,
Það óðar finst, að hún á hvorugt til.

## Mentaprjál.

Mentaprjálið mèr er leitt
Manns á ytri hlið,
Þar anda og hjarta alt er sneytt
Og ekkert hærra mið.

Mín er þetta meining full,
Maður, vel það heyr:
Heldur leirugt gef mèr gull
Enn gyltan leir.

---

## Oddborgar askur.

Þegar runninn af þèr er
Ídealski sviminn,
Neðst við askbotn undu þèr
Með asklok fyrir himin.

Oddborg heitir askur sá,
Ærið rúm á botni,
Helzt þar kroppur holdgast má,
Þó horist sál og rotni.

---

## Mótsagnir.

Ást er föstum áþekk tind,
Ást er veik sem bóla,
Ást er fædd og alin blind,
Ást sér gegnum hóla.

---

## Ástagöngur.

Fiskaskrið um ægis ál
Og ástagöngur kvenna
Ætla skaltu einskis sál
— Utan guðs — að kenna.

---

## Vonbrigði.

Um frelsis vínber seydd við sólar kyngi
Mín sálin unga bað,
En krækiber af þrældóms lúsalyngi
Mèr lífið rèttir að.

---

## Reiði og óbeit

Reiðigeð hins góða manns
Gjarnan enda tekur,
En seint mun enda óbeit hans,
Ef einhver hana vekur.

---

## Sorg og vizka.

Ei vitkast sá', er verður aldrei hryggur,
Hvert vizku barn á sorgar brjóstum liggur.

---

Á sorgarhafs botni sannleiks perlan skín,
þann sjóinn máttu kafa, ef hún skal verða þín.

---

## Saur og gaur.

Glópa lán
Þér gremjast aldrei láttu,
Framans án
Þig fullrétt bera máttu;
Þoldu stygð,
Ef þrjótar við þér stugga,
Æra' og dygð
Eins vel þrífst í skugga.
Saur er saur,
Þó sólin á hann skíni,
Gaur er gaur,
Þó gæfa heims hann krýni.

---

## Grammatíkus.

Grammatíkus greitt um völl
Gekk með tínukerin,
Hann hirti spörðin, eg held öll,
En eptir skildi berin.

---

Ef að lífstréð algrænt hann
Með eplin gullnu lítur,
„Bezt er,“ segir hann, bjálka þann
Að búta og hljúfa í spýtur.

---

Gerðu' ei, maður gamalvísi,
Grænan pálm að svörtu hrísi,
Gerðu ei loks með lærdóms greinum
Lífsins brauð að dauðans steinum.

---

## Ljón og svín.

Svöng eru ljónin, svínin mett,
Samt skal þar á minna,
Að ofar ljóna auðn er sett
Enn alistía hinna

---

## Orður og titlar.

Orður og titlar, úrelt þing, —
Eins og dæmin sanna, —
Notast opt sem uppfylling
Í eyður verðleikanna.

---

## Blindhríðin.

Feigðarkúlan blind, þá bálar stríð,
Beinist jafnt að hraustum og að rögum,
Stjarna og kross í heiðursteikna hríð
Hittir alveg eptir sömu lögum.

## Frelsi.

Stjórnarfrelsi firrt þeim krapt,
Sem fær af mentun staðið,
Það er sama og sjálegt skapt,
Sem að vantar blaðið.

## Quod petis hic est.

Þér finst alt bezt, sem fjærst er,
Þér finst alt verst, sem næst er;
En þarflaust hygg eg þó,
Að leita lengst í álfum,
Vort lán býr í oss sjálfum
Í vorum reit, ef vit er nóg.

## Gikkurinn.

Hann siglir á kopp yfir saurforar-pollinn,
Með snúðugu drambi og reigist með kollinn,
Líkt og hann segði: „Nær litu menn þó
Slíkt línuskip áður á veraldar sjó?"

## Biðukolla.

Frá æsku var þinn andi hærugrár,
Því áfellirðu þá mín draumlífs ár?
Eg brosi að þér — mig bítur ei þinn hnífill,
Þú biðukolla, sem varst aldrei fífill.

## Grafskript svefnpurkunnar.

Hér hvíli jeg, hinn morgunsvæfi maður,
Að marki var mér fótaferðin ströng;
Jeg fór að hátta — fékk hér loksins glaður
Þá fyrstu nótt, sem mér er nógu löng.

## Vetrar-lesning.

Son minn! þá syngur hver fugl og sól skín á blómstrandi grundir,
Hýrt þegar náttúran hlær, höfund í kofforti geym;
En þegar þagnar hver fugl og þakin und fönnum og klaka
Náttúran liggur sem lík, lestu' hann við tólf stiga frost.

## Maurapúkinn.

Þú, maurasál, frá gulli góðu
Sem gerir aldrei minsta hop,
Ger þig sem minsta, skríddu í skjóðu,

Unz skrattinn bindur fyrir op,
Og seimi þínum sof þar hjá
Unz sjálfur dauðinn leysir frá.

---

## Freyjukettir.

Enn með köttum Freyja fer,
Finn eg það hjá sprundum:
Kvenna gaman keimlíkt er
Kattar gamni stundum.

---

## Ubi mel, ibi fel.

Undrast það ættirðu sízt að Ingjaldur sveik þig og rægði,
Manstu' ei við annaðhvort orð: „Elskan mín!" sagði' hann við þig;
Vertu því var um þig helzt, þá vinmælin sætlegast klingja,
Naðurinn fleðar sig flár fyr enn hann bítur í hæl.

---

## Lífs ómögulegt.

Aumleg sál með svíðings ergju
Seld und Mammons heljar völd,
Anda — haturs efld af kergju
Innra myrk og fúl og köld —

Hún er grútar tilnegld tunna
Tilheyrandi dóna sjós;
Hvernig áttu, himinsunna,
Hèr að komast inn með ljós?

---

## Efíaltes.

Geymir sæmd og sæmdarmorð
Sagan minnis ríka,
*Leónídas'* uppi er orð
Og *Efíaltes'* líka.

Ef þeim seinna ertu jafn,
Óskin fer að vonum:
Efíaltes' eigðu nafn
Og ódauðleik með honum.

---

## Óvina fögnuður.

*Gvendur* dó, þá glotti *Jón*
Gladdur fjandmanns heli;
Druknaði næsta dag það flón,
Svo dátt varð *Gísla* í þeli.

Fjandmanns þá við druknun drakk,
Dauðinn tók hann Gísla;
Eflaust þá í öðrum hlakk,
En ekki' um fleiri' eg sýsla.

---

## Gröf.

Ein er náttbóls alviss gjöf,
Þó annarstaðar bresti;
Allir fá að gista í *Gröf*,
Sem greiðabær er mesti.

---

## Sveitabiðillinn.

Hún Inga, dóttir Álfs á Kambi
Nú ýfist við mér full af drambi;
En von var að hún yrði slík,
Því send hún var, — það sýndist hentast —
Í suðurheiminn til að mentast
Hjá *Reigingsen* í Reykjavík.

---

## Oflof.

Með oflofi teygður á eyrum var hann,
Svo öll við það sannindi rengdust,
En ekki um einn þumlung hann vaxa þó vann,
Það vóru' að eins eyrun, sem lengdust.

---

## Úlfur.

Allir dá þeir Úlf í Vík
Auðlegð fyrir staka;
Þó gróða-vegurinn gengi' yfir lík
Það gerir ei hót til saka.

---

## Húmbúgg.

Vaddu bara um veraldar rann
Og vèlaðu hyggjusnauðan,
Þó húmbúggirðu margan mann,
Þèr mistekst það við dauðann.

---

## Himnar.

Til himinsins þú vísar okkur vegi,
En, vinur, heyrðu ráð, sem liggur næst,
Í sjálfum þèr ef áttu himin eigi
Um aðra himna tala þú sem fæst.

---

## Gullnámur.

Ekki í fjöllum eður elfa söndum
Æðstar gullsins námur veittust löndum;
Aðalnámur gullsins þess hins góða
Gefnar eru í svitaholum þjóða.

---

## Xerxes og Hellespont,

Það sumum heldur sýndist mont,
Að Xerxes flengdi Hellespont
Og tilbjó honum hlekki,
En þegar streitir harðstjórn höst
Að hýða og binda þjóðlífs röst, —
Það ofbýður þeim ekki.

---

## Tvö leiði.

Göfugmenni hvílir hèr,
Hjartkær teikn það birta mèr:
Gleym-mèr-ei og ærupris
Upp af helgu dupti rís.

Lubbamenni liggur þar,
Lítum á, hvað jörðin bar:
Upp hún skaut, um skálkinn fróð,
Skollafingri' og Lokasjóð.

---

## Dygð og gæfa.

Þú segir, dygðir ef menn æfa,
Að ytri gæfan skapist trygg;
Því meira svín, þess meiri gæfa,
Eg miklu nær því sanna hygg.

---

## Ó fyrir ú.

Ei vex í ey þeirri rúgur, en ó fyrir ú ef þú setur,
Komið er óðara út annað, sem sprettur þar vel.

---

## Sjúklingur og læknir.

*Sjúklingur.*

Þú átt vart þinn maka, minn læknir, hèr í landi
Að líknar gnótt,

Svo liggur það við, mèr lítist tilvinnandi,
Að liggja' í sótt.

*Læknir.*

Og alt eins ert þú í þolinmæði mjúkur
Á mína trú,
Svo ef nokkur skilið ætti' að vera sjúkur,
Þá ert það þú.

---

## Ráðagerðin.

„Nú er klukkan orðin átta,
Ætla' eg því að fara að hátta,“
Sagði' hinn lati, „en sjálfsagt líka
Snemma' á fætur, klukkan þrjú.“
Ársól brann í glugga gati,
Gat ei vaknað samt hinn lati,
Svaf í þrá til þrjú að nóni,
Þannig rættist ætlun sú.

---

## Kindarhöfuð.

Æ, settu' ekki á þig sauðar haus,
Þá sundurrífa þig vargar;
Nei, gaktu heldur grímulaus,
Ei gagnar þèr hitt nè bjargar.

---

## Umhleypingar.

Mjög er fólkið mislynt tèð.
Meina' eg rök til standi:
Eins og veðrið artast geð
Á umhleypinga landi.

---

## Óvegur.

Eggjótt, laus við oníburð
Óbót vegar stendur,
Leggjabrjótur, lítt fær urð,
Sem lögðu manna hendur.

---

## Misskilningur.

Og það skeði' í tíma þann, að þjófur var staddur í kyrkju,
Svefnsamur sá var þar opt sitjandi rètt undir stól.
Svo varð og þettað í sinn, hann sofnaði prèdikun undir
Dottandi á sálmabók sætt, sem að hann lagt hafði' á brík,
Alt þar til klerkurinn kom í kenningu þar, að hann sagði:
„Dagur mun koma yfir drótt Drottins sem þjófur á nótt“.
Vildi svo til við þau orð að vaknaði þjófur af dúrnum,
Hrökk við og hrópaði' í stað: „Hver er að tala um mig?“

## Liber et libertas.

Burt með allar peysur og poka,
Piltar, fyllið glösin skær;
Burt með þjóst og hefðar hroka,
Hèr er bróður andinn kær.
Hispur skal með þvingun þverra
Þar sem guðinn ríkir frjáls,
Enginn þræll og enginn herra
Upphaf veri þessa máls.

Því við erum orðnir bræður,
Oss gaf *Liber* stjórnarbót,
Frelsi' og jafnhár rèttur ræður
„Repúblíkin" komst á fót.
Siðsemd prýði samfögnuðinn
Söngvar glaðir, elska, vín;
Lifi frelsið, lifi guðinn,
Liber, sem í staupum skín!

---

# BRÚÐKAUPS-KVÆÐI.

---

## Sigurður Gunnarsson og Soffía Einarsdóttir.

1873.

Sól, þá leiðstu af bláum brautum,
Bros þín hýrast lýstu tveim,
Ást sem bundu í yndi og þrautum,
Aldrei fegri varstu þeim.
Sól, þitt ljós þeim lifi' í minni,
Lýsi fram á hinzta kvöld;
Brátt er hvarfstu' að hvílu þinni
Heiðstirnd blika salar tjöld.

Stjörnur, sem í himinsheiði
Hljóðan stigið brúðar dans,
Yðar sèrhvert ljósspor leiði
Lán á stigu vífs og manns.
Yfir hjóna brúðsal björtu
Blíðuljósi dreifið þið,
Sendið þeim í hug og hjörtu
Heill og blessun, von og frið.

Þú vors norðurs himinn hreini,
Hverju Snælands barni kær,
Prýddir brúðför svanna og sveini
Sólarfagur, aptanskær.
Þitt hið blíða brautar gengi
Boðun sè um gæfutíð.
Ungu hjónin lifi lengi,
Lifi farsæl ár og síð.

---

## Símon Johnsen og Inger Tærgesen.

1873.

Þann ljósasta blómhring, sem lífið á til,
Af liljum, sem fegurstar spretta
Í hjartnanna fylgsnum við eyglóar yl,
Má yndisrík hamingjan flètta.
Þann blómhring ykkur, sem bunduð trú,
Með blíðum höndum hún rèttir nú.

Hún blessar með ánægju farsæld og frið,
Eins fylgi því hagsælda blómi,
Svo ytra lán tengist hið innra við,
Vèr óskum að saman það ljómi,
Og lifið, vor brúðhjón, við beztan hag
Þann bjartasta og heiðasta samfara dag.

Nú blasir við heimkynnið bjartlega prýtt,
Ó, blessist þar komandi stundir,
Þær líði svo fagurt, þær leiki svo blítt
Sem lækir um blómdala grundir;
Sú ósk í kvöld verði áhrífns mál
Er ungra brúðhjóna tæmum vèr skál.

---

## Geir Zoega og Bryndís Sigurðardóttir.

1884.

Sjá, skýhliðið opnast og fjögur sjást fljóð
Í fegurðar dansleik á himnanna slóð,
Þar ársins og æfinnar dísir slá dans
Við dillandi sönglist og hver ber sinn kranz.

Með fjólum og 'gleym mèr ei' alkrýnd er ein
Sem inndælis vormorgunn brosleit og hrein,
En önnur er axkrýnd og sælleg að sjá
Og sólblíð sem júlídags heiðríkjan blá.

Sú þriðja ber haustsveig svo hýrleg og mild
Og heldur á körf, sem er ávöxtum fyld,
Og fjórða með hrímkranz er hvítklædd í för
Með heillvænleg jarteikn um vetrarins kjör.

Með viðmóti blíðlegu vitrist oss þèr,
Vèr vonum þèr hugsið hið sama sem vèr,
Er bergjum á ávöxtum yðar í kvöld
Sem unghjóna gestir við brúðsala tjöld.

Þèr árstíða dísir, á aldarheims skeið
Sem ástholLar brunið af himnanna leið,
Vèr biðjum þèr fylgið nú hjónum í heim
Með hamingju slíkri, sem kveðin er þeim.

Svo blessist öll áranna' og æfinnar spor
Um ókomna tíð fyrir brúðhjónin vor,
Og lifi þau lengi við farsælda fjöld,
Það full vèr af alhuga tæmum í kvöld.

---

## Brúðkvöld.

Nú um aptaninn síð
Ljómar brúðstjarna blíð
Og hún blikar í vestri sem heiðast;
Freyja bjarta með brá
Lítur friðsölum frá
Hversu fagnandi brúðhjónin leiðast.

Fyr hún lýsti þeim leið,
Eins hún lýsa mun skeið
Hinna líðandi framtíðar ára;
Nú er lánið þeim lèð,
Ætíð glaðni þeim geð
Við það gull, sem er ljós hennar tára.

Það er ástar gull skært,
Það er trygðar gull tært,
Sem að tindrar í geislunum björtu,
Er hið grátfagra goð
Lætur ganga sem boð
Til að gleðja þau samvígðu hjörtu.

Leikur ljósálfa fans,
Stígur lèttfæran danz
Með sín logblys af kærleikans anda,
Kringum bæ, kringum beð,
Fylgir blessun þar með,
En á burtu flýr hvað, sem má granda.

Því þar hrein eru hús,
Þar vill hamingjan fús
Meður hjónunum æfilangt þreyja;
Nú við blysanna bál
Signir brúðhjóna skál
Sínum blíðstöfum himinhrein Freyja.

# ERFILJÓÐ.

---

## † Sveinbjörn Egilsson.

1852.

Sviplega úr norðri náfregn bar,
Niðjum Íslands hugar sára,
Vindur kaldur af víðan mar,
Vafið er Snæland húmi tára.
Óðgöfgan herma hróðrar mög
Hniginn snögglegu andarláti,
Hörð eru dauðans heiptarslög,
Hel viknar ei þó dísir gráti.

Stirðnuð smillings hin mjúka mund
Er moldu vorpin, — brostin harpa,
Andinn ljóss sona flaug á fund,
Flíkum jarðneskum gat að varpa.
Helslokknuð augun hvöss og snör,
Ó, hvílir dauðanóttin svarta,
Þar andans tindraði eldlegt fjör
Og ástarblíðast lýsti hjarta.

Heims ertu skilinn mörg við mein,
Mun enginn trega þitt við leiði,
Að hendi mótgjörðar hörðum stein
Og hjarta særði þess, er deyði?
Þú stendur nú við hástól hans,
Sem hreinum vilja launin gefur;
Svipt er burt þyrna sárum kranz
En sveigur ljóss þitt enni vefur.

Þig sigurs kvaddan ljóði eg læt,
Ljúflingur snjalli hróðurdísar,
Þín lifir óðsnild merk og mæt
Meðan segull í norður vísar;
Meðan lárviðar litkast blað
Í lundum suðurs vorsins blóma,
Mun það, sem Ída endurkvað,
Íslands í dölum fagurt hljóma.

Dýrðlegri sástu' í draumasýn
Día Grikklands á Olymp stirndum,
Skýjum hjúpaða hám á tindum
Í ódauðleik, sem aldrei dvín.
Sástu norðljósa um næturskeið
Sigtíva kringum sveipi braga
Og sigurþjóðir fyrri daga,
Þá saztú' und helgum Mímis meið.

Djúpskyggn og háleit svo þín sál
Sér í myrkviðum braut nam ryðja;

Sjálf sig kryddaði inndæl iðja,
Því hugann glapti' ei heimsins prjál.
Fordildarlaust þú verk þitt vanst
Virðandi hið góða, fagra og sanna,
Og hót því skeyta hvorki fanst
Hègómadýrð nè lofi manna.

Mun þíns góðleika minning blíð
Málvina treguð harmi þungum,
Þig sem um æfi þektu tíð,
En þjóða lifir frægð á tungum.
Ættjarðar þinnar ertu hrós,
Evrópa verk þín sjónum leiðir;
Svo fögur minning dauða deyðir
Og sorgar húmi snýr í ljós.

Svo hvíli und moldu holdið þá,
Á himni sálin, lausn er þreyði;
Lofgróinn viður leiði frá
Limarnar eilífgrænar breiði.
Þeim grandar ei, hann grær þar kyr,
Grimdin vetrar nè storma reiði,
Já margra kvistir fúna fyr
Enn fölnar lauf á þínum meiði.

---

## † Jón Thorstensen, landlæknir.

1855.

Hver er hin dapra sveit, er sýtir
Sorgarklædd, en frá hjarta mæddu
Angurskugga of ásýnd hrygga
Og augu svipar tárum lauguð.
Þykir heldur skarð fyrir skildi,
Skreytir láðs er í helga reitinn,
Þjóðarfrægur Þorsteins niðji
Þungum sporum til moldar borinn.

Þektu allir öðlings fallins
Iðni staka, geðið spaka,
Gott var hjarta' og í gjörðum skarta
Gáði jafnan, en skrumi hafna.
Líkams styrk og andans orku,
Óð nè sparði til heilla þjóðar;
Var hans ein unz veik af sjónum
Vild að gegna helgri skyldu.

Nú er hann glaður gráts af láði
Genginn þangað sem mein eru engin,
Tók hann dauði svefns ósjúkan
Sneyddan hörmum úr bróður örmum.
Börðust ei líf og bani harður,
En blundur og vaka á lausnar stundu,
Því ljóma kringdur og engla ómi
Andinn vaknaði' á feginslandi.

Sá það veit, er hefir heitið
Himnagleði þeim, er rèði
Vitja sjúkra, veslum hjúkra,
Hvað varstu þeim, hann eigi gleymir
Veita laun fyrir vaktar nætur
Værðarlausar þèr yfir særðum,
Þæga önn og hlynning hæga
Á hinztu stund fyrir bræðrum minstu.

Bjóðum góða nótt þeim, er náða
Naut fyrst grafar í helgu skauti;
Grátur vottar að góður er látinn
Of góðum deyja má aldrei tregi;
Lètt er mold yfir helgra holdi,
En harmur þungur í vina barmi,
Tárum sæmdur sárum og næmum
Sofðu rótt og lofi dróttar.

---

## † Sigurður Guðmundsson, málari.

1874.

Að foldarbeð í friðargarð
Vèr fylgjum ástvin mistum
Og syrgjum djúpt við seinfylt skarð
Í snilli, fræði, listum.
Sú stund, er kættist Ísland ungt,
Sló einmitt þetta sárið;
Hve teljum vèr að þessu þungt
Hið þúsundasta árið.

Sjá hnúka blá með hrímfall nýtt,
Sú haustmjöll til þess bendir:
Fjallkonan trygg, þú faldar hvítt
Og fornvin kveðju sendir.
Vor smáa þjóð hann þekti vel,
Hann þörfum hugði' að bótum,
Og lifði þér unz lostinn hel
Hann legst að þínum fótum.

Í starfhring smáum stórt hann vann
Með stöðugleik og snilli,
Sín laun í verki fögru fann
Og fárra vina hylli;
Hann elti ei lán né lánið hann,
Og langt var þeirra milli,
En þoldi margopt böl og bann
Og bar þó harm í stilli.

Ef fá menn steina fyrir brauð
Og fyrir rósir þyrna,
Og hamli dáðum harðbýl nauð
Kann hugur þrátt að stirðna.
Opt næðir sárt um svalbarð lífs,
Ei sízt á ströndum ísa,
Og biturt nístir blærinn kífs,
Sem bannar meið að rísa.

Á bjargi reynirunn eg sá
Sitt rauðgrænt limið hefja,

Úr klungur-urð hann óx í þrá
Við alt, sem vildi kefja,
Og sízt þó fengi sólu mót
Í sannri hæð að skarta,
Í sannri dýpt hann seigði rót
Við sinnar móður hjarta.

Og slíkum reyni lík mèr leizt
Hins látna vinar æfi;
Þó gróður allur gæti' ei veizt,
Hann greri að sínu hæfi,
Og sinn með heiðri bar hann baðm
Unz blikna laufin knáttu;
Svo tak þinn reyni fast í faðm,
Mín fósturjörð! og gráttu.

Því þína fremd hann framast mat
Frá fyrstu lífsins árum,
Og hvert þitt sár, sem græðzt ei gat,
Hann grèt með innri tárum.
Þau huldust undir hrímgri ró,
Þar hjartans lindir vaka,
Svo leynt og djúpt, en logheitt þó,
Sem laug und þínum klaka.

Frá kulda lífs nú byrg þitt barn
Í beði tryggrar dvalar,
Breið á hann rótt þitt hvíta hjarn
Und heiði blálopts-salar,
Og haltu minning, móðurláð!

Þess manns í hreinu gildi,
Sem hefði blóði feginn fáð
Hvern flekk af þínum skildi.

Í þinni sögu leynt og ljóst
Hann lifði daga stríða,
Við þinna hèkk hann bjarga brjóst
Og barminn þinna hlíða;
Við blóm þín, dali, fell og fjöll
Hann festi sína drauma,
Við hraun og gil og hvera völl
Og hörpur þinna strauma.

Þá vorið aptur vitjar lands,
Þú viðkvæmt dáins saknar,
Er sóley grær á sverði hans,
En sjálfur hann ei vaknar.
En þó hann vanti' á vorsins hól
Og vin sinn blóm ei finni,
Hann lifir þó und þinni sól
Í þökk og kæru minni.

---

## † Guðríður Einarsdóttir.

1876.

Hèr byrgist lík í helgum rann,
Af holdi lètti kvöl, er þjáði,
En sálin hrein þann himin fann,
Sem hún á jörðu löngum þráði.

Hèr rósamt kvennlíf endað er,
Sem ávalt þræddi feril dygðar;
Þess lof í heimi hátt ei fer,
En harmast samt með gráti trygðar.

Mörg látlaus æfin lífsglaum fjær
Sèr leynir einatt góð og fögur,
En guði er hún alt eins kær,
Þó engar fari af henni sögur.

Svo dylst opt lind und bergi blá
Og bunar táhrein, skugga falin,
Þó veröld sjái' ei vatnslind þá,
Í vitund guðs hver dropi' er talinn.

Þeir himin erfa, er himin þrá,
Þar helgar vonir allar rætast;
Hver góðu ann mun guðs dýrð sjá,
Þar góðra sálir allar mætast.

---

## † Pétur Guðjónsson, organisti.

1877.

Farðu vel, þú hrausta, hreina sál,
Hyggjusterk með karlmanns geðið djarfa,
Guð þig hvíldi, hvíldar var þèr mál,
Hún er guðs gjöf eptir lífsins starfa.
Samt er þungt hið beiska dauðans boð,
Burt því kvaddist hèðan fyrr enn varði

Góður faðir, húss síns styrkust stoð,
Stúrir sorgin yfir höggnu skarði.

Hjarta trúfast hans í brjósti brann,
Brigðlaust geð ei hirti sig að dylja;
Enginn betri var í vina rann,
Vinum er því sárt við hann að skilja.
Því með harmi hann er borinn nú
Hinnig þar er mold skal náinn byrgja.
Þangað kemur einnig síðar sú,
Sem að horfinn trygðavin mun syrgja.

Þegar húmið fellur yfir fold,
Fylkja stjörnur sèr í næturheiði,
Þegar ríkir kyrð á kaldri mold
Kvennmynd hjúpuð svífa mun að leiði.
Og hún hvíslar: „Hvíldu í friði rótt,
Himinhljómar anda skemti þínum,
Minn þú varst og vanst með dug og þrótt
Vel og lengi fyrir heiðri mínum“.

Söngsins gyðja svo þig kveður ein
Síð und stjörnum þegar allir þegja,
Svo er vígð þín heiðursminning hrein,
Hèr á landi mun hún aldrei deyja.
Við þitt leiði dyljast dísar spor,
Dísar andinn skal þó með oss vera;
Sönglist hófstu sjálfur meðal vor,
Söngsins vængir skulu nafn þitt bera.

---

## † Hannes Árnason, prestaskólakennari.

1879.

Hèr oss kvaddi vinur trúr og tryggur
Tállaus, sannur, stöðugur í lund,
Ástvin menta, uppfræðari dyggur,
Andans starfi vígður hverja stund.

Ungan hann að einverunnar lundi
Árla kvaddi spektar gyðjan há,
Því á fjöldans vegum ei hann undi
Ys og glaumi heimsins sneyddur frá.

Hugarstefnan var til ljóssins landa,
Lýsti það sèr jafnt í orði og gjörð;
Dygð og vizka, vegljós göfugs anda,
Voru leiðar stjörnur hans á jörð.

Ungum hann sinn andans gróður lènti,
Alúð hans og rækt ei verður gleymd,
Og þó orð hans ekki sè á prenti,
Eru þau í margra brjóstum geymd.

Sæl er önd hans, ei því skulum sýta,
Upp til hæða dauðinn hana bar,
Sínar stjörnur hún mun hinnig líta
Hærri og fegri nýupprunnar þar.

Þar sem kvitt af heims og tímans tálum
Táhrein birtist hugsjónanna mynd,
Þar sem öllum sannleiks-þyrstum sálum
Svalar eilíf, himnesk vizkulind.

---

## † Sigfús Jónsson, prestur.

1876.

Syrg þú, dalur! friðar leið í ljós
Þjónn guðs orða, sem með sálu hreinni
Sannleikstrúr ei skeytti fordild neinni,
Vann til lofs, en vann ei fyrir hrós.

Syrg þú, kyrkja! nú er þögull nár
Hann, sem blítt með kærleiks orðum kendi,
Kom og fór sem leiddur engils hendi
Með guðs frið um silfurbjartar brár.

Syrg þinn föður, heiðursmannsins hús!
Syrg þú hann, er sínum tryggur unni,
Sá, sem þekti hann og meta kunni,
Gráta mundi hann úr helju fús.

Djúp var hyggja duld und svipsins ró
Og með skýrum merkjum sífelt sýndi
Snildar blær, er orð og verkin krýndi,
Að hið innra andi fagur bjó.

Tamt var honum hljómsins listamál,
Löngun hans um ljóssins heima dreymdi;
Ljúft með óm frá hjartadjúpi streymdi;
Alt, sem fann hin svanablíða sál.

Far vel héðan, friður sé með þér;
Nú þú heyrir sönginn, sem þú þreyðir,
Sólvang rósum vaxinn mót þér breiðir
Eden þitt, sem enga þyrna ber.

---

## † Frú Ólína Augusta Egilsson.

1881.

Nú kveður harmandi húsið sitt
Það hugþekka kvennvalið mæta;
Sem liljan af dauðaljánum hitt,
Er leifir þó ilminn sæta,
Svo eptirlét minning hið ástkæra víf,
Sem alt kunni' að milda og bæta.

Og tíminn líður, en treginn ei þver,
Því tómlegt verður um bæinn;
Hver dagur, sem kemur, sinn bjartleik ber,
En bætir ei sorgar haginn,
Því burt er það kvenndygðar blessað ljós,
Sem bjartari gerði daginn.

Ó, gætum vèr aptur þig grátið frá Hel,
Þú góðkvendið elskulega!
Það eina vèr megnum: með ástar þel
Að inna þèr fórn vors trega;
Þèr fylgir vor blessun, þèr fylgja vor tár
Á friðarins engilvega.

---

## † Annika Emilia Knudsen.

1882.

Ef sástu í bikar blómsins eina,
Þar bygðist undra veröld smá,
Sem full með blíðu-fegurð hreina
Sinn fórnar ilm rèð himni tjá.

Ef sástu það, þá sástu líka,
Í sálu þessa vífs hvað bjó,
Hið hreina, fagra, hugðar ríka,
Sem helzt af blómi líking dró.

Það sálar blómlíf vott sèr veitti,
Hve vóru blómin henni kær!
Og alt hvað snart hún, einhver skreytti
Til ellidaga þokkablær.

Og viðkvæm ekkert aumt hún kunni
Fyr augum líta hèr á jörð,
Og brauð að fátæks bar hún munni
Þó berðist sjálf við kjörin hörð.

Nú jarðblóm henni ekkert eru
Og ekkert þeirra tár nè vor;
Frá dimmri ströndu dauðleiks veru
Ei deilast horfins anda spor.

Ó, myrka djúp, ó, duldu vegir,
Ei dauðinn hefir nokkurn róm,
Og ei hin flogna Psykke segir,
Hvar svífur hún um ljóssins blóm.

---

## † Teitur Finnbogason.

1883.

Fölna laufin, falla viðir; fyrnast menn sem trèn í skóg,
Ellin kemur, aflið rènar, opnast loksins grafar þró;
Eins fèkk þennan öðling bugað elli fyrst og síðan hel.
Sæmdarmann, er sanntrúr nægði sinni stöðu lengi
og vel.

Genginn er hinn gamli smiður, garpur fyrrum þótti sá,
Hvort sem yfir andlits sveita afls frá loga geislum brá,
Eður hann í bæjar bræðra bandalag með fjöri gekk
Framför hverja fús að efla, fornan slíta vanans hlekk.

Þótt hann lærdóms leið ei þræddi, lærði' hann vel að
þekkja heim
Og með gætni gangstig valdi grandvar fjarri vondra
sveim;

Þrek var stálsett, ótrauð iðjan, ánægt geð við lífsins kjör,
Hyggjan ráðvönd, guði gefin, glaðværð tengd við manndóms fjör.

Er ei kyn þótt öldruð falli eik að sinni móðurgrund,
Þó er auðn og þögn í lundi þegar eptir fallsins stund;
Öldung látinn ástmenn trega, ítra minning geymir bær,
Þar sem lengst hann var að vonum virtur bæði og hjartakær.

Þökk sè föllnum fremdarmanni fyrir liðna heiðurs dvöl,
Borgmanns kranz úr blöðum grænum bindið hans að svartri fjöl;
Hver er loksins hrósun meiri heldur enn nytsamt æfistarf?
Því þó dupt að dupti verði, dæmið tökum vèr í arf.

---

## † Þórður, prófastur, Þórðarson.

1884.

Drúpir nú í raunum
Reykholts dalur
Orpinn fönnum
Yfir öðlings líki.
Svífur svartblár
Og sorgarþrunginn
Heljarbakkinn
Yfir hvítri storð.

Þar sem á fjölum
*Þórður* hvílir,
Hrynja hvarmskúrir
Frá hjarta runnar;
Gráta þar föður
Hinir föðurlausu
Og einstæðir
Sinn einkavin.

Syrgja smávinir
Saklausum tárum
Leiðtogann látna
Til ljóss og dygðar;
Finna þeir seint þann,
Er þeim falli hugur
Eins í arma
Sem þeim andaða.

Grætur þar hver góður
Göfugmennis
Brostið í brjósti
Bróður hjarta;
Syrgir söfnuður,
Syrgir hèrað,
Harmar ættjörð einn
Af óskmögum.

Snemma hafði hann
Af helgri lind,

Sem kemur upp
Undan krossins rótum,
Bergt barns vörum,
Og barna trú
Geymdi hann óskerta
Alt til dauða.

Og sitt föðurland,
Sem hann ávalt þráði,
Átti hann á himni
Hjá alda föður;
Mæddur margreyndur
Mændi hann þangað
Frá böli lífs,
Er hann bar sem hetja

Þangað, sem hans elskuð
Æsku-brúður
Og óskbörn tvö
Undan farin,
Þrenning sísöknuð
Sárum trega,
Blíðljós björtustu
Bentu honum.

Stríðir nú ei lengur
Hinn sterki maður
Vopnaður þreki
Mót vetrar byljum,

Yfir klaka og fönn
Til kyrkjustarfa,
Ótrauður ástverka, —
Nú er öllu lokið.

Og ei á lífsins
Eyðisöndum
Veður hann örlaga
Elfar kvíslir;
Eptir var sú hinzta,
En óskelfdur
Greip hann sundið
Yfir grafar móðu.

Hví skyldum dyljast
Harma vorra,
Þótt hann bezt væri
Til blíðheims kominn?
Skína mun hann liðinn
Sem hin skæra stjarna
Til hálfs hulin
Harma skýjum.

---

## † Ragnheiður Sigurðardóttir Eggerz.

1887.

Sjáið brosandi
Sumarblíðu
Leiða ljós
Yfir lönd og ægi;

Kveða sætróma
Sumarraddir
Feginsljóð
Af fold til himins.

Sjáið í miðri
Sumarblíðu
Opna gröf
Hjá ægi bláum;
Senn munu hringja
Sorgarklukkur
Yfir bliknuðum
Blóma kvenna.

Upp rann hin látna
Á æfimorgni,
Sinna foreldra
Fegurst yndi;
Svo var hún
Í sal þeirra
„Sem væri sæmleitur
Sólargeisli“.

Andi ástríkis,
Andi skýrleiks
Henni hjá
Í hendur leiddust;
Var þar í yndis
Eining bundinn

Vænleikur innri
Við vænleik ytri.

Ein var hún þeirra,
Er með engilblíðu
Og hógværð hjartans
Hylli vinna;
Við fótstig slíkra
Friðarblómstur
Heililmuð gróa,
Þó á hrjóstrum gangi.

Ein var hún þeirra,
Er þolinmóðar
Með hugar stilling
Og hugar þreki
Gleðjandi aðra,
Meðan grætast sjálfar,
Bera brest heilsu
Og böl hvert annað.

Syrgja nú látna
Svanna prýði
Eiginmaður, börn
Og ástmenni;
Deyi góð kona
Er sem daggeisli
Hverfi úr húsum,
Verður húm eptir.

Farinn var á undan
Elliblindur
Faðir ástkær
Til fegins heima.
Hefir sæll andi
Af sólar skýi
Dóttur bent
Til dýrðar sala?

Ei má eg til þín
Aptur koma,
En þú til mín,
Svo þóknast guði?
Ofan fór til jarðar
Engill sendur,
En aptur tveir
Upp til himins.

---

## † Þórdís Thorstensen.

1891.

Svo flýgur tíð og hingað hverfa leiðir:
Svo hneig og hún, er fylgjum vèr í dag;
Síns herfangs krefur kaldur lífsins eyðir
Við klukkna hljóm og dapurt sorgar lag.

Á hennar kistu segja sveigar blóma,
Að sjálf hún eitt sinn var sem blómin fríð,

Að innst í hjörtum, harmi döggvuð ljóma
Skal hennar minning unaðsskær og blíð.

Hún, sem að ung var ítur kvenna blómi,
Að ytri þokka og kostum innri rík.
Var fram til dauða fljóða þekkur sómi,
Við fordild laus og heims ei dætrum lík.

Með grandvarleik hún gjörðir æ rèð vanda,
Í gæfu stilt, í raunum þolinmóð;
Hún virðing hlaut, því aðal bar í anda,
Og elskuð var hún því að hún var góð.

Hún lifði í birtu, æðsta ljósið eina
Hún elskað hafði og gert að sínum part,
Sem fyrir henni lægi loks að reyna,
Að lífið bjarta gerir andlát bjart.

Það varð hjá hennar banabeði sannað;
Í birtu og sælu hverfðist kvölin ströng;
Hún sá ei hinzt á æfihvörfum annað
Enn engla og ljós og heyrði fagran söng.

Og öndin hreina leið til ljóssins sala,
Þá losuð voru dauðleiks böndin hörð,
Og þungan kross og beiskan bikar kvala
Hjá bleikum ná hún eptir skildi á jörð.

Hver önd svo trútt má himna föður fela
Sem fljóðið látna, deyr með gleði víst,
Sem væri helfrost að eins árdags héla,
Er æðri dagsól mót í lífdögg snýst.

Svo berist það, sem dó, til dáins ranna,
Hvað dauðlegt var skal gröfin byrgja svört,
En svo sem bjart var yfir æfi svanna
Skal yfir leiði svífa minning björt.

---

## † Pétur Fr. Eggerz.

1892.

Hve skjótlega ber að skýjakast
Og skyggjandi élið svarta!
Þú nýskeð glaður með glöðum sazt,
Ei greindist þá nema' hið bjarta.
En fá liðu dægur: í dauða brast
Þitt drenglynda og prúða hjarta.

Þín æfi var kend við þol og þrek,
Í þeli var réttur staður,
Sem fornmannaþjóðin þróttarfrek
Í þrautunum varstu glaður,
Og þá því ytra svo hart var hneykt
Var heill samt þinn innri maður.

Þó sæktu þig örlög æg með kvöl
Og undir vildu þig keyra,
Þú gugnaðir ei um æfidvöl
Nè æðru lèzt til þín heyra
Því þèr var tamt að bæta svo böl
Að biðir þú annað meira.

Ei falst í stríði við forlög hörð
Hvað fegurst hafðirðu' að bjóða;
Af hjarta þú unnir ættarjörð
Og ávalt studdir hið góða,
Og hugðir á fèlags heill og fremd
Með hyggjuna djúpa og fróða.

Og góðvinum, meðan þeim endast ár,
Þín ástúð fyrnast mun eigi,
En fremst þínum kæru' er sorgin sár
Og saknaðar bitur tregi;
Hve þung eru sporin þeim í dag
Á þínum síðasta vegi!

Svo farðu nú vel — og foldar skaut
Þig faðmi með vori þýðu,
Þar leggur minning sitt laufaskraut
Hjá liljunum sorgar blíðu;
Þèr helg veitist ró, en huggun þeim,
Sem hrifinn þú varst frá síðu.

---

## Undir nafni ekkju.

Æ, nú er dauflegt, dimt og kalt
Og dapurt arni hjá;
Eg misti þig, sem mèr varst alt
Í myrkan ólgusjá;
Sem reiðarþruman það var snögt,
Er þèr var frá mèr kipt;
Nú horfi eg fram á djúpið dökt
Því dýrmætasta svipt.

Þar leiðin eru bylgjur blá'r,
Sem byltast til og frá,
Og kranzar hafdrif hvítt sem snjár
Þeim hviku kumlum á,
Mín önd þar niður sökkvir sèr
Í sædjúp kalt og autt,
Í eptirleit, hvar aldan ber,
Minn ástvin, lík þitt dautt.

En hrökkvi úr leiðslu hrygðar geð
Og horfi eg í kring,
Eg sè þinn auðan sess og beð,
Ó, sárust umbreyting!
Það unaðs band, sem ást til bjó,
Í einu sundur klipt,
Og horfið alt í heljar sjó,
Æ, hví var svo um skipt?

Við sèrhvert vik fann eg þinn yl,
Því ástin leiddi þig,
Þú grundaðir og gazt þèr til,
Hvað gleðja kynni mig.
Mèr sýndist lífið láni glæst,
Eg leit, — og engu kveið —
Með gleði' á veg, sem var mèr næst,
Með von á fremri leið.

Hvað hepti mál mitt, hjartans vin,
Er hinzt eg fylgdi þèr
Við feigðar-morguns fölleitt skin,
Sem fyrir segði mèr?
Eg hjartans opnað gat ei grunn
Nè greint þèr, hvað það var,
Er hinztum koss þinn kysti' eg munn
Við kólguþrunginn mar.

Æ, aldrei kemur aptur þú,
En andi minn sèr þig,
Sem kæmir þú og kvæðir nú
Með kærleik: „Grát ei mig," —
Og kendir sanna sorgar dygð,
Að syrgja, en vona þó,
Og geyma þig með trú og trygð
Í tregans helgu ró.

Eg veit að það var himnesk hönd,
Sem hreif þig burt frá mèr,

Og bauð þèr aðra betri strönd
Er brást þín lending hèr.
Sú höndin blíð á hjálpar ráð
Og huggar mig í þraut,
Og himna drottins dásöm náð
Er dýpri' enn hafsins skaut.

Því hvíldu þar sem hann þèr bjó
Í hafi dauðans frið;
Þó jarðleg gröf ei gæfi ró
Er gæti' eg kropið við
Og felt mín tár á foldar svörð,
Í faðmi guðs ert þú,
Sem jafnt á hafs og hauðurs vörð,
Til hans er öll mín trú.

